um beina, ok vera fyrir starfi ok til ætlanar. Ormr kvaðst þat gjarna vilja þiggja. Þorkell veitti vel ok stórmannliga. Þeir Ormr sátu í öndvegi enum úæðra megin ok hans menn. Þorkell gékk mjök um beina, ok var lítilátr í sinni þjónustu. Þeir or Svínadal hlógu at honum mjök, ok kvóðu ærit stóran vera ambáttar soninn. Þorkell kvað meiri kurteisi at láta gleði ok gamanræður koma í mót beinleika, en skaup eðr atyrði. Glæðir kvað hann mörg stórvirki unnit hafa, ok máttu af þér stórliga láta, þat nú fyrir skemstu, er þú drapt grísinn, þann er eina nótt hafði drukkit spenann, er þat ok þín iðn. Þorkell svarar: fá eru mín stórvirki, Glæðir, en þó munu þau fleiri en þín, ok er þér úskylt um þetta at tala. Glæðir hló at Þorkatli fyrir Þorvaldi, ok kvað hann fimastan við matreiðuna. Þorvaldr kvað Glæði úvitrliga mæla. Ok um kveldit fóru menn at sofa. Um morgininn gékk Þorkell í útibúr ok hvatti öxina jarlsnaut, ok gékk síðan í anddyri, þá var Glæðir þar ok tók laugar. Þá géngu menn hjá honum með slátrtrog. Glæðir mælti til Þorkels: nær muntu verit hafa búverkunum í morgin, ok munu vér skulu nú njóta hans galta, ok lát þat feitast, er fyrir oss kumpána kemr, þat hæfir vel ambáttarsyni. Mun eigi vel fallit at brytja fyrst höfuðit, kvað Þorkell, ok velja stykkin fyrir þik, ok aldri veit ek at þú sér nú svá frekr, at torsótt sé at fylla þik. Þann dag skyldi frá boðinu ríða. Þorgils spurði hvárt búinn væri dagverðr. Þorkell kvað búinn þegar soðit var, ok kvað skamt til þess, ok gékk út verkmanna dyrr ok inn aðrar dyrr, ok tók öxi sína ok stóð hjá dyrum. Ok er Glæðir gékk út, gékk orkell eptir honum, ok hjó til hans í höfuðit, ok hafði Glæðir þegar bana. Þorkell hljóp til norðrdyra, þvíat þeir vóru fyrir suðrdyrum. Matr stóð um allt húsit. Þorgils var fjölmennr, ok hlupu menn hans um húsit, ok hyggja Þorkel eigi skulu út komast, ok ætla at hafa hendr á honum. Þorkell hljóp um sætin. Skot vóru um húsit ok lokhvílur, ok or einni lokhvílu mátti hlaupa í skotið. Hann leitar þangat sem konur sátu ok földuðu sér, hann hljóp þar at er Hildr var fyrir. Hon spurði hví hann færi svá hart. Þorkell segir sem var. Hon bað hann fara

í skotið hjá sér ok þar komst hann út. Þorgils mælti: snúum þar at er konurnar eru, þvíat mér þótti maðrinn þangat hlaupa. Hildr tók öxi í hönd sér, ok kvað eigi skyldu einn þeirra af sér taka. Þorgils hyggr Þorkel þar nú vera munu, ok biðr bera klæði at þeim, ok svá var gert, ok fanst Þorkell eigi. Þorgils sá nú at þetta var eigi utan prettr ok dvöl, ok fóru út síðan, ok er þeir kvómu út, þóttust þeir sjá svip manns niðr við ána. Þorgils bað leita þangat, ok svá var gert, ok fanst hann eigi. Þorkell vissi, at þar var hellir við ána, er nú heitir Kröfluhellir, ok þar var hann. Þeir Þórormr ok Klakka-Ormr leituðu um sættir. Eigi vildi Þorgils bætr taka, en brugðu eigi ráðahag þessum, ok kvóðu mannhefndir skyldu fyrir koma víg Glæðis. Þórormr leiddi brúðmenn or garði ok leitaði jafnan um sættir ok fékk eigi, ok skyldu at því. Þorkell var ýmist þann vetr á Karnsá með bræðrum sínum eðr með öðrum frændum sínum, þvíat allir vildu honum veita nokkura ásjá, ok hugðu gott til, at nokkurr þroski yrði hans í þeirri sveit, svá at eigi settist þar utanheraðsmenn yfir þá. Þeir fóru Vatnsdælir at leita honum trausts til Þórdísar spákonu, er bjó at Spákonufelli; hon var mikils verð ok margs kunnandi, ok báðu hana ásjá ok fultings um mál Þorkels, ok kvóðu þar allmikit undir þykkja, at [hón] legði til nokkut ráð. Hon kvað ok svá vera skyldu. Þorgils fór at hitta Guðmund ríka, ok kvað honum skyldast vera, at mæla eptir frænda sinn, en ek mun at fylgja. Guðmundr mælti: eigi þikki mér málit svá hægt, þvíat ek hygg at Þorkell verði mikilmenni, en margr frændi til atstoðar, en mér hefir svá til spurzt, at eigi [sé] fyrir sakleysi tiltekt Þorkels. Nú bú þú til málit, en ek mun við taka í sumar á þingi. Um várit bjó [Þorgils málit[1] til alþingis. Vatnsdælir fjölmentu mjök, ok svá hvárirtveggju. Þorgils reið til þings með mikla sveit manna. Þorkell reið ok til þings með frændum sínum. Þar reið með þeim Þórdís spákona, ok átti ein sér búð ok hennar menn; tók þá Guðmundr við málinu. Þeir Vatnsdælir buðu sættir, en þeir Guðmundr vildu eigi utan sektir. Þórormr

[1] [ málit Þorgils *Hds.*

hitti Þórdísi ok ræðst um við hana, þvíat hon var forvitra ok framsýn, ok var tekin til þess at gera um stór mál. Hon mælti þá: fari Þorkell hingat til búðar minnar, ok sjám hvat í gerist. Svá gerði Þorkell. Þórdís mælti við Þórorm: far þú, ok bjóð Guðmundi sættir, en ek gera um málit. Þorkell gaf Þórdísi CC silfrs. Þórormr bauð dóm Þórdísar á málinu, en Guðmundr nítti, ok kvaðst eigi vilja taka fébætr. Þórdís mælti: ek ætla mér ok engan vanda við Guðmund. Síðan mælti hon við Þorkel: far þú nú í kufl minn en svarta, ok tak stafsprotann í hönd þér er Högnuðr heitir, eðr muntu þora at ganga í flokk Guðmundar við svá búit. Hann kvaðst þora mundu með hennar ráði. Hon svarar: hættum nú til þessa. Nú skaltu ganga til Guðmundar, ok drepa sprotanum þrysvar sinnum á ena vinstri kinn honum, ok eigi sýnist mér þú bráðfeigligr, ok vænti ek at dugi. Hann kom í flokkinn Guðmundar, ok sá engi maðr til hans. Hann kom at Guðmundi, ok gat á leið komit því sem honum boðit var. Nú frestaðist framsókn sakarinnar ok dvelst málit. Þorgils mælti: hví gengr eigi fram málit. Guðmundr kvað brátt greiðast mundu, en þat varð eigi, ok dvaldist stundin, svá at únýtt varð málit til sóknar. Þórdís hitti Vatnsdæli, ok bað þá ganga at dómum, ok bjóða nú fé fyrir manninn, ok má vera, at nú taki þeir, ok lúkist svá málit. Þeir gerðu svá, géngu til dóma ok hittu Guðmund, ok buðu sættir ok fébætr. Guðmundr svarar: ek veit eigi hvat þér vilit bjóða, en mikils vil ek þat virða í málinu, at sá er veginn var, hafði mælt sér til úhelgi. Þeir kvóðust vel vilja bjóða fyrir hans sakir, ok báðu hann um mæla. Ok er hann skyldi [í] hvert efni komit var málinu, ok eigi mátti sækja til laga, þá tók hann sjálfdæmi af Þórormi, at gera fé slíkt sem hann vildi, at undanskildum utanferðum, ok heraðssektum; var þá handsalat niðrfall at sökum. Þá sendi Þórdís Þorkel í annat sinn til Guðmundar, at láta koma stafsprotann við hægri kinn honum, ok svá gerði hann. Þá tók Guðmundr minnit, ok þótti kynligt at þat hafði frá honum horfit. Guðmundr gerði C silfrs fyrir víg Glæðis, ok féllu þá niðr gagnsakir, ok guldu þau Þórormr ok Þórdís allt féit ok skildust sáttir. Þorkell fór til Spákonufells með

þórdísi heim. þorgils mælti til Guðmundar: hví skipaðist svá skjótt hugr þinn um málin í dag? Guðmundr svarar: þvíat ek kunna eigi orð at mæla frá munni, ok því var ek tregr, ok má vera, at við raman væri reip at draga. Fóru nú heim af þingi.

45 Vatnsdælar efldu þorkel kröflu mjök til virðingar um alla hluti. þeir báðu konu til handa honum, ok goðorðit lagðist til hans, því at þeir Surtr[1] ok Högni Ingólfssynir vóru þá XI vetra en annarr XV, ok náðu þeir eigi staðfestum sínum af þorkatli, ok var Hofsland keypt til handa honum, ok gerðist þorkell nú höfðingi yfir Vatnsdælum. Lið Óttars dreifðist norðr til sveita, ok var eigi at því gaumr gefinn. Hallfreðr ok Gallti synir Óttars fóru norðr ok enn fleira barna hans. Opt kom Hallfreðr til Skegg-Ávalda, ok talaði við dóttur hans, er Kolfinna hét. þeirrar konu fékk Gríss Sæmingsson, en þó lék et sama orð á með þeim Hallfreði sem segir í sögu hans. Ok eitt sinn er hann kom út, þvíat hann var farmaðr, en Gríss var á þingi, þá kom Hallfreðr þar sem Kolfinna var í seli, ok lá þar hjá henni. Ok er [Gríss] vissi þetta, líkar honum stórilla; en Hallfreðr fór utan þegar samsumars. Á leiðmóti í Vatnsdal var fjölmenni mikit ok tjölduðu menn búðir, þvíat vera skyldi tveggja nátta leið. þorkell átti búð mesta ok fjölmennasta. Skegg-Ávaldi[2] átti búð saman ok Hermundr[3] son hans, ok er Galti Óttarsson var genginn erinda sinna, mætti hann Hermundi, en hann mintist á sakir þær er Hallfreðr hafði gert við þá, ok hljóp at Galta, ok drap hann ok fór síðan í búð til föður síns. Ok er þorkell spyrr vígit, spratt hann upp með sveit sína, ok vill hefna. Hildr stóð í dyrum, móðir Hermundar, ok mælti: hitt er nú, þorkell, betra ráð, at hlaupa eigi svá skjótt, ok var þér þat í hug eitt sinn þá er vit fundumst, at þú mundir eigi drepa son minn fyrir augum mér. þorkell [mælti]: nú er fleira í komit, en þá vissum vér ván; gakk nú út ór búðinni, kvað þorkell, þvíat þá muntu eigi sjá son þinn högginn fyrir aug-

[1] Svartr AM. 138. [2] Skeggjavaldi *Hds*. [3] *In* Hallfreðar saga *und* Landn. III, 5. *wird er* Brandr *genannt*.

um þér, ef þú gerir svá. Hon skildi þó raunar hvat hann mælti til hjálpar manninum, ok þótti bæði skjótt ok sköruligt hans úrræði, ok tók hon síðan búnaðinn af höfði sér, ok bjó hann með, en settist í rúm hans, at eigi gengi fleiri konur út en ván var. Þorkell bað þær skynda, ok þröngðist at þeim, ok mælti: standit þér eigi svá, þvíat ærin er þó raun konunnar, at hon sjái eigi manninn högginn, eðr heyra til. Þeir vildu þegar inn hlaupa, ok drepa Hermund. Þorkell fór þá í búðar dyrnar, ok mælti: sjám hvat oss hæfir, at drepa eigi heraðsmenn vára sjálfra ok þingmenn, ok sættumst heldr; var þá leitað um sættir milli þeirra, ok var svá til þuklat, at hvárirtveggju undu vel við, ok gervar bætr svá miklar, at þeir vóru vel sæmdir, er taka áttu. Leysti Þorkell svá þetta mál sér af hendi með drengskap, ok allir undu vel við. Öllum málum var til hans skotið um heraðit, þvíat hann þótti mestrar náttúru í Vatnsdæla kyni, annarr en Þorsteinn Ingimundarson.

Nærri þessum tíma kom út Friðrekr biskup ok Þorvaldr 46
Koðransson, er kallaðr var enn víðförli. Þessu næst kom út annat skip, ok vóru þar á berserkir II ok hét Haukr hvárrtveggi; þeir urðu úvinsælir af mönnum, þvíat þeir buðu mönnum nauðung til kvenna eðr fjár, ella buðu þeir hólmgöngu. Þeir grenjuðu sem hundar, ok bitu í skjaldarrendr, ok óðu eld brennanda berum fótum. Þeir biskup ok Þorvaldr fóru með nýjan sið, at bjóða mönnum aðra trú, en sú er hér var áðr. Þeir vóru at Giljá hinn fyrsta vetr. Landsmenn stygðust við nýgervingum þessum, er þeir biskup fóru með. Koðran tók trú ok skírn í fyrsta lagi, ok kona hans. Ólafr at Haukagili var svá gamall, at hann lá í rekkju, ok drakk horn. Um haustið at vetrnóttum bauð Ólafr til sín vinum sínum, einkum Þorkatli mági sínum. Þeir biskup ok Þorvaldr vóru þar. Vel at eins tók Þorkell þeim, ok lét þá vera eina saman í húsi, þvíat þeir höfðu annan sið. Enn fyrsta aptan veizlunnar var sén ferð berserkjanna, ok kvíddu menn mjök við þeim. Þorkell spurði biskup, ef hann vildi ráð til leggja, at berserkir þessir féngi bana. Biskup bað þá taka við trú, ok láta

skírast, en hann kvaðst mundu af ráða illmenni þessi, með yðrum atgangi. Þorkell mælti: allt er þá nærr, ef þér sýnit mönnum jarteinir. Biskup mælti: látið gera elda III á gólfi í skálanum, ok svá var gert. Síðan vígði biskup eldana, ok mælti: nú skal skipa bekkina af mönnum þeim er beztir eru áræðis með stóra lurka, þvíat þá bíta eigi járn, ok skal svá ber[j]a þá til bana. Síðan géngu þeir nafnar inn, er þeir kvómu, ok óðu eldinn fyrsta ok svá annan, ok brunnu þá mjök, ok urðu nú furðuliga hræddir af eldshitanum, ok vildu þegar at bekkjunum. Síðan vóru þeir lamdir til bana, ok vóru færðir upp með gili því, er síðan heitir Haukagil. Biskup þóttist nú kominn til kaups við Þorkel, at hann tæki við trú, ok léti skírast. Þorkell kvaðst eigi vilja aðra trú hafa en þeir Þorsteinn Ingimundarson höfðu ok Þórir fóstri minn, þeir trúðu á þann, er sólina hefir skapat, ok öllum hlutum ræðr. Biskup svarar: þá sömu trú boða ek með þeirri grein, at trúa á einn guð, föður, son ok heilagan anda, ok láta skírast í vatni í hans nafni. Þat þótti Þorkatli mest af bregða er í vatni skyldi þvóst, ok kvaðst eigi nenna enn um sinn at hafa þessa breytni, en kvaðst þó hyggja, at sjá mundi góð; ok þessi skipan mun hér ok við gangast. Ólafr bóndi, mágr minn, er gamall, hann skal taka við þessi trú ok allir aðrir þeir er vilja, en ek mun enn bíða um tíma. Síðan var Ólafr skírðr, ok andaðist í hvítaváðum, ok enn vóru skírðir fleiri menn at þeirri veizlu. Þorkell var skírðr þá er kristni var lögtekin á Íslandi, ok allir Vatnsdælar. Þorkell var mikill höfðingi hann lét kirkju gera á bæ sínum, ok hélt vel trú sína.

47 Bræðr II bjuggu í Engihlíð í Langadal, Fostólfr ok Þróttólfr, þeir vóru miklir fyrir sér. Þeir tóku við manni til ásjá, ok vildu hann hafa í leynum meðan þeir færi til þings á Kili fram[1] frá Reykjavöllum, en þeir myndi lúka málum hans. Aðrir II bræðr bjuggu at Móbergi í Langadal ok hétu Húnröðr ok Úlfhéðinn, synir Vefre[y]ðar Ævarssonar[2] ens gamla. Úlfhéðinn var vin-

---

[1] AM. 138; skamt *Hds.* [2] Einarssonar AM. 138 *und Hds. unrichtig, vgl.* Landn. III, 5.

sælli þeirra bræðra. Þórólfr hét maðr, er kallaðr var leikgoði, hann var með þeim bræðrum. Úlfhéðinn var mikill vinr Hólmgöngu-Starra, ok þat segja menn, þá er Þórarinn illi skoraði á hann til hólmgöngu, at Úlfhéðinn fór með honum til hólmstefnunnar, ok í þeirri ferð gerði at þeim veðr illt, ok ætluðu þeir vera gerninga veðr. Bárðr hét maðr, ok var kallaðr styrfinn, hann fór með þeim. Þeir báðu hann aptra veðrit, þvíat hann var margkunnigr. Hann bað þá handkrækjast ok gera hríng; síðan gékk hann andsælis þrysvar ok mælti írsku; hann bað þá já við kveða. Þeir gerðu svá. Síðan veifði hann gizka til fjalls, ok tók þá af veðrit. Þeir Þróttólfr ok Fostólfr fóru til þings, sem fyrr segir, en maðrinn var meðan í Þjófadal, ok vænti, at þá mundi minna fé goldit, ef hann færi eigi sjálfr. Þeir riðu ok til þings Húnröðr ok Þórólfr leikgoði. Hross hlupu frá þeim skamt frá Reykjavöllum ok leituðu víða, ok fundu eigi. Þeir sá mann skamt frá sér, ok hugðu vera illmenni, ok hann mundi tekit hafa hross þeirra, þeir fréttust ok eigi fyrir, ok hlupu þegar at honum ok drápu hann, riðu síðan til þings ok sögðu þeim bræðrum Þróttólfi ok Fostólfi; þeim líkaði stórilla, ok beiddu bóta fyrir, ok kvóðust sæzt hafa við frændr hins vegna ok grið tekit, ok síðan goldit fé fyrir hann. Húnröðr kvaðst ætla, at vera muni önnur fégjöld til skyldri, ok riðu við þat af þinginu. Þeir bræðr keyptu land á Kólkumýrum er í Holti heitir. Þorfinnr hét maðr, ok bjó á Breiðabólstað í Vatnsdal, frændi þeirra, hann átti ferð út á Skagaströnd, ok svá bar til at Úlfhéðinn fór út þangat, ok Þórólfr leikgoði með honum, ok er þeir kvómu til Breiðavaðs á[1] Blöndu, riðu þeir Þorfinnr ok bræðrnir, Fostólfr ok Þróttólfr seinna nokkut. Þeir Fostólfr kvóðu vel á komit at finna Úlfhéðin, þvíat þeir bræðr drápu mann okkarn í sumar, ok skal ríða eptir þeim. Eigi mun ek eptir ríða, kvað Þorfinnr, ok svá var. Síðan ríða þeir bræðr eptir í ákefð. Þetta sér Þórólfr leikgoði. [Þá] mælti hann: ríðum undan hart, hér fara þeir bræðr eptir okkr. Nei, kvað Úlfhéðinn, þat gerir ek eigi, þvíat þeir

[1] hjá, *Hds.*

kalla mik þá renna. Þórólfr hleypti út á ána, en þeir bræðr unnu á Úlfhéðni, ok lá hann þar eptir. Síðan riðu þeir bræðr aptr, ok sögðu Þorfinni tíðindin. Hann kvað úmakliga gert við góðan dreng, ok fór hann heim í Vatnsdal. Úlfhéðinn var særðr til úlífis. Húnröðr fór eptir honum, bróðir hans, ok flutti hann heim, ok bað hann Húnröð bróður sinn sættast á mál þessi eptir sik, ok kvað eigi hefnda mundu auðit verða, því at ek minnumst nú á ferðina hina fyrri, ok veit ek þann engan sóttdauðan vorðit hafa, er í þeirri ferð vóru. Síðan andaðist Úlfhéðinn, en Húnröðr lét úlíkliga við sættinni, ok bjó málit til alþingis. Þorfinnr bauð sætt ok fébætr, en Húnröðr kvaðst eigi vilja, nema sektir þeirra, ok svá varð, ok reið við þat af þingi. Þeir bræðr gerðu virki mikit í Holti á Kólkumýrum, ok varð Húnröði torfellt at sækja þá. Skúmr hét lausingi einn, hann hafði aflat fjár, ok orðinn auðigr. Húnröðr eyddi fyrir honum, ok fór hann utan, ok kom til Noregs, ok fór norðr í Þrándheim. Hann fékk þar stórfé ok dvaldist þar; kom auðigr í annan tíma. Húnröðr eyddi öllum penningum sínum, ok svá þeim er Skúmr hafði átt, svá at hann varð náliga[1] félauss. Hann fór á fund Þorkels Vatnsdælagoða ok sagði honum sín vandræði. Þorkell mælti: illt ráð hefir þú upp tekit, at taka eigi bætr eptir bróður þinn, þar sem hann sagði þér svá fyrir, at þér mundi eigi annat hlýða, ok hefir þú nú hvártki fé né hefndir; en fyrir því, er þú hefir sótt mik heim at ráðum, þá mun ek fara til með þér, ok leita um sættir. Síðan hitti Þorkell þá bræðr, ok spurðu hvárt þeir vildu sættast við Húnröð ef kostr væri; þeir létu seinliga við, ok kvóðu honum nú eigi betra at sættast, en þá er honum var boðit. Þorkell mælti: nú skulu þit gera annathvárt, at fara utan sem mælt var, ella mun ek engin ráð leggja til með yðr. Þeir kvóðust hans orð mikils skyldu virða, ok viljum vit þik sízt í móti okkr hafa. Þeir fóru nú utan, ok kvómu í Þrándheim, þá mælti Þróttólfr: eigi skiptir þat högum til, at Húnröðr, góðr drengr, skal vera félauss vorðinn, ok hlotið þat mest af okkr, en

[1] ualigt *Hds.*

þræll hans Skúmr skal vorðinn auðigr sem Njörðr.[1] Síðan fóru þeir ok drápu hann, en tóku fé hans allt ok sendu Húnröði. Litlu síðarr kom þróttólfr út, ok fór á fund þorkels kröflu, ok bað hann fylgja at sætt þeirra Húnröðar. þorkell kvað svá vera skyldu. Hann ferr síðan á fund Húnröðar, ok með vitrleika sínum ok góðum vilja, þá sætti hann þá heilum sáttum, svá at hvárirtveggju undu vel við hans ummæli. — þorkell varð gamall maðr, ok þá er hann lá í banasótt sinni, stefndi hann til sín vinum sínum, frændum ok þingmönnum. þorkell mælti þá: ek vil yðr kunnigt gera, at ek hefir fengit sjúkdóm nokkurn, ok þikki mér líkligt, at hann muni skilja várar sam vistur, ok hafi þér vel hlítt minni forsjá, ok verit mér hlýðnir ok eptirlátir. Síðan bað hann virkta öllum sínum frændum ok virktavinum; bjóst þorkell mjök kristiliga við sínum dauða, eptir því sem honum samdi, því at hann var vel kristinn maðr, ok ræktaði vel trú sína. Eptir þat andaðist hann, ok var mjök harmdauði þingmönnum sínum ok öllum heraðsmönnum, þvíat hann þótti sem var, enn mesti heraðshöfðingi ok mikill giptumaðr, ok enn líkasti enum fyrrum Vatnsdælum, svá sem þorsteini ok Ingimundi, ok bar þorkell þat fyrir, at hann var rétt trúaðr maðr, ok elskaðr sem sá, er framast elskaði sannan guð. Ok gerum vér þar enda á Vatnsdælasögu.

---

[1] *So die anderen Hdss.; in Hds. ist eine Lücke;* AM. 138 *giebt* maðr, *unrichtig.*

# HALLFREÐAR SAGA

Þorvaldr hét maðr ok var kallaðr skiljandi, hann bjó í eynni Ylfi á Hálogalandi, hann átti konu þá er Þorgerðr hét ok var Hallfreðardóttir, Galti hét bróðir hennar, hann var ríkr maðr ok bjó í Sogni. Synir Þorvalds vóru þeir Óttarr ok Þorkell silfri ok var Þorkell laungetinn. Ingjaldr hét maðr, er þar bjó enn í eynni, hans son hét Ávaldi. Óttarr var með Ingjaldi. Sokki hét víkingr einn mikill ok illr viðreignar, hann fór víða meðr hernaði ok var vinr Gunnhildarsona þvíat þeir vóru þá yfir Noregi, hann kom um nótt á bæ Þorvalds ok segir mönnum sínum at þar muni gott fang í hendr bera er auðigr maðr bjó fyrir, ok skulu vér bera eld at bænum, ok svá gera þeir. Þorvaldr gékk til dyra ok spyrr hverr fyrir eldinum réði. Sokki sagði til sín. Hvers gjöldum vér at, segir Þorvaldr, ek man eigi mótgerðir mínar við þik. Sokki segir: ekki förum vér víkingar at því, viljum vér hafa líf þitt ok fé. Á því munu þér nú vald eiga at sinni, segir Þorvaldr. Nú sækja víkingar at bænum með eldi ok vápnum ok lýkr svá at Þorvaldr brann þar inni við XV. mann [1], en nokkurir kómust brott ór eldinum. Víkingar tóku fé þat allt er þeir máttu með komast. Sumt lið Sokka fór til bæjar Ingjalds ok lögðu þar eld í hús, hann gékk til dyra ok beiddi mönnum útgöngu, en þess var engi kostr.

[1] m̄n *Hds.*

þá gékk Ingjaldr at sveinunum Óttari ok Ávalda ok mælti: þat er líkast at liðin sé mín örlög, en gjarna vilda ek koma ykkr ór eldinum ok mætti þið njóta lengri forlaga, skal ek skjóta ykkr út um laundyrr ok væri ykkr nóg efni til seld at hefna þessa ef þit fengit nokkura uppreist. Þeir svara at vera mundi vilinn til, en eigi sjám við efni okkur til þess at svá búnu. Síðan var þeim skotið út um laundyrr einar ok kómust þeir með reyk í brott, ok hlaupa út á eyna, en fyrir gný ok eldsgangi, ok þat er þeir vóru eigi feigir, þá komast þeir undan ok til eins bónda er þar bjó í eynni. Óttarr mælti þá: viltu flytja okkr til lands? bóndi kendi þá ok flutti þá til lands. Þar kómu þeir er síldferja var ok menn á norðan or Vágum, þeir sögðust vera fátækir sveinar, ok kómu sér þar í þjónostu. Þeir fara þar til er þeir koma suðr um Sognsæ, þá segja sveinarnir at þeir vilja þar inn í fjörðu, eigu vit hér frændr fyrir. Stýrimaðr mælti: þat skal nú sem þit vilit, eða munu þit hér eigi verr komnir en þar sem vér tókum ykkr, hafi þit vel þjónat ok munu þit brátt brugðnir við meira. Síðan skildu þeir. Síð dags kómu þeir til Galta móðurbróður Óttars ok settust utarliga; Galti gékk at þeim ok spurði hverir þeir væri. Óttarr sagði satt til þeirra. Þá er skaplig kváma ykkar segir, Galti, ok gangit til sætis. Þar vóru þeir í góðu yfirlæti VII vetr eða VIII ok gerðust gerviligir menn. Þá var orrosta[1] á Fitjum er Hákon konungr féll en Gunnhildarsynir tóku ríki. Þat var einn dag er Galti mælti: svá virði ek, Óttarr! sem þú sér fyrir ykkr fóstbræðrum, ok vænti ek at þú verðir framkvæmdarmaðr, en nú er sú öld í Noregi at ek treystumst eigi at halda ykkr hér með mér. Nú vil ek fá ykkr kaupeyri ok skulu þit sigla vestr til Englands ok vita hvern veg þat vill takast. Óttarr kvaðst hans ráðum hlíta vilja. Selt hafði Galti jarðir þeirra, ok tekit fyrir lausafé. Nú fara þeir ór landi fóstbræðr, Óttarr ok Ávaldi, vestr til Englands ok afla sér fjár; III vetr eðr IIII vóru þeir í siglingum til Englands ok áttu þá stórfé. Þeir fóru þá til Orkneyja ok vóru

[1] ottaʀ *Hds.*

þar vel metnir af góðum mönnum. Óttarr mælti þá til Ávalda: þat leikr mér í skapi at kaupa Íslandsfar ok ráðast þangat, en þó vilda ek at vit hefndim áðr feðra okkarra en vit losnaðim brott með öllu. Ávaldi bað hann fyrir sjá. Síðan keyptu þeir sér skip gott ok réðu þar menn til, ok sigla nú til Noregs, ok kómu í Sogn til Galta, ok sögðu honum sína ætlan. Galti segir: þat berr vel til, Sokki liggr héðan skamt í brott á einu skipi, ok sefr á landi um nætr í einu lopti; skal ek fá ykkr mann þann er allt er kunnigt fyrir, ok Sokki mun sízt varast.

## CAPITULUM

2 Nú fóru þeir frá skipi sínu, Óttarr ok Ávaldi ok sá maðr með þeim, er Steinn hét; þeir kómu síð um kveld at bæ þeim, er Sokki svaf at um nætr ok Sóti, bróðir hans; Steinn fór einn til bæjar ok kom sér brátt í tal við þá Sóta ok drakk með þeim um kveldit; ok er þeir géngu til svefns ok upp í loptið, þá gerði Steinn þeim Óttari vísbending. Þeir Sóti vóru VII saman í göngu ok kómu í loptið ok ætluðu at afklæðast; þá koma þeir Óttarr at, ok leggr hann þegar með sverði til Sokka neðan undir brynjuna ok svá upp í smáþarmana, ok fékk Sokki þegar bana. Ávaldi hjó með sverði til Sóta ok af honum báða þjónappana. Síðan hljópu þeir út allir ok létu myrkrit gæta sín. Þeir kómu til skips síns ok héldu þegar í haf ok féngu góðan byr, ok þótti þeirra ferð allskörulig orðit hafa. Gunnhildr spyrr þetta, ok kvað þat mein at hon hafði eigi þá menn augum leitt, er vini hennar höfðu drepit ok skammat, en ek veit þó, segir hon, hverir gert hafa. Þeir Óttarr kómu í Blönduós fyrir norðan land, ok vóru þá numin lönd öll. Óttarr keypti land í Grímstungum í Vatnsdal at þeim manni er Einarr hét, ok gaf honum við kaupskipit. Óttarr gerði bú. Ávaldi var með Óttari hinn fyrsta vetr. Um várit keypti hann land at Knjúki í Vatnsdal; hann fékk þeirrar konu er Hildr hét dóttir Eyvindar sörkvis; dóttir þeirra hét Kolfinna, hon var væn kona ok ofláti mikill. Ólafr hét maðr er bjó at Haukagili, hann var auðigr maðr ok átti þá konu er Þórhalla hét ok var dóttir

Ævars ens gamla. Aldís hét dóttir þeirra ok var skörulig kona, hennar bað Óttarr ok fékk með miklu fé; son þeirra hét Hallfreðr en annarr Galti, dóttir þeirra hét Valgerðr ok var allra kvenna fríðust. Ólafr at Haukagili fóstraði Hallfreð, ok var hann vel haldinn þar. Hann var snemma mikill ok sterkr, karlmannligr ok skolbrúnn nokkut ok heldr nefljótr, jarpr á hár ok fór vel, skáld var hann gott ok heldr níðskárr ok margbreytinn, ekki var hann vinsæll. Þorsteinn Ingimundarson var þá höfðingi í Vatnsdal, hann bjó at Hofi ok þótti mestr maðr þar í sveitum, hann var vinsæll ok mannheillamaðr mikill. Ingólfr ok Guðbrandr vóru synir hans. Ingólfr var vænstr maðr norðanlands; um hann var þetta kveðit:

Allar vildu meyjar
með Ingólfi ganga
þær er vaxnar vóru,
vesöl er ek æ til lítil.
Ek skal ok, kvað kerling,
með Ingólfi ganga
meðan mér tvær of tolla
tennr í efra gómi.

Haustboð var efnat í Grímstungum ok knattleikar. Ingólfr kom til leiks ok mart manna með honum neðan ór dalnum, veðr var gott ok sátu konur úti ok horfðu á leikinn. Valgerðr Óttarsdóttir sat upp í brekkuna frá ok konur hjá henni. Ingólfr var at leiknum ok fló knöttrinn upp þangat. Valgerðr tók knöttinn ok lét koma undir skikkju sína ok bað þann sækja er kastað hafði. Ingólfr hafði þá kastað; hann bað þá leika, en hann settist niðr hjá Valgerði ok talaði við hana allan þann dag.

### AF INGÓLFI. CAPITULUM

Nú var slitið leiknum ok fóru menn heim þeir er eigi vóru í 3
boði. Síðan vandi Ingólfr kvámur sínar í Grímstungur til tals við Valgerði. Óttarr kom at máli við Ingólf ok mælti: eigi gezt mér at kvámum þínum, ok spurt muntu þat hafa at vér höfum eigi

setið um skapraunir eða skammir, muntu komast at ráðahag við hana ef þú vill. Hann kvaðst mundu ver[a] sjálfráði ferða sinna hvat sem Óttarr segði, kvað svá at eins skipaðan dalinn, at hann kvaðst eingis manns nauðarmaðr vera skulu. Síðan hitti Óttarr Þorstein ok bað hann halda svá son sinn at hann féngi enga úsæmd af honum, þvíat þú ert vitr maðr ok góðgjarn. Þorsteinn segir: víst gerir hann slíkt í móti mínum vilja, ok heita vil ek þér mínu umtali, ok skilja þeir við þat. Þorsteinn mælti til Ingólfs: annan hátt hafi þér en vér höfðum á unga aldri, gerit yðr at ginnungum, er höfðingja efni erut; lát af tali við dóttur Óttars bónda. Ingólfr kvað við hans umtal batna skyldu ok lét þá af kvámum fyrst í stað. Síðan orti Ingólfr mansöngsdrápu um Valgerði. Óttarr reiddist því mjök, ferr enn at hitta Þorstein, ok kvað sér nú leitað mikillar skapraunar. Nú bið ek at þú lofir mér at stefna syni þínum, þvíat ek nenni eigi at kyrt sé. Þorsteinn segir: meðallagi er þat ráðligt, en eigi vil ek banna þér. Þá mælti Jökull bróðir Þorsteins, því at hann var þar hjá: heyr á endimi, þú mundir stefna oss frændum hér í sveit, skaltu fá úfagnat. Jökull bjó uppi í Tungu í Vatnsdal. Þorsteinn sýndi enn góðvild sína ok setti menn til með þeim á Húnavatnsþingi en bauð handsöl fyrir son sinn. Þorsteinn bað þess at Óttarr yndi því at hann dæmdi um drápumálit ok þat er milli þeirra var; þessa fýstu menn Óttar, ok varð þat at sættum at Þorsteinn skyldi einn gera. Síðan mælti Þorsteinn: skjót eru hér mín ummæli, mun ek sjá fyrir hvárumtveggjum hversu sem ykkr líkar; ek geri hálft C silfrs handa til Óttari, en hann skal selja jarðir sínar ok ráðast í brott ór þessi sveit. Óttarr kvaðst eigi vara at honum mundi slíkr újafnaðr gerr vera. Þorsteinn kvaðst eigi síðr fyrir hans hlut sét hafa við skaplyndi hvárratveggju, ok eptir þat réðst Óttarr suðr í Norðrárdal ok bjó fyrst á Óttarsstöðum. Þá var Hallfreðr son hans nærr XX manni, hann lagði hug á Kolfinnu Ávaldadóttur en Ávalda var lítið um þat ok vildi gipta honum dóttur sína, en Hallfreðr vildi eigi kvænast. Ávaldi ferr at hitta Má vin sinn er bjó á Másstöðum ok sagði honum til vandræða sinna; hann segir: hér

mun fást ráð til, ek skal fá mann til at biðja hennar. Maðr heitir Gríss ok er Sæmingsson, hann er vinr minn ok býr at Geitaskarði í Langadal, hafði hann verit út allt í Miklagarð ok fengit þar miklar sæmdir, hann er auðigr maðr ok vinsæll.

## GIPT KOLFINNA

Nú sendi Már orð Grísi ok kemr hann á Másstaði. Már 4
mælti: ráð hefi ek hugat fyrir þér, þú skalt biðja Kolfinnu dóttur Ávalda, þar skortir eigi fé ok er hon kostr góðr, en mér er sagt at Hallfreðr Óttarsson eigi tal við hana jafnan. Þetta var áðr en Óttarr fór norðan. Nú koma þeir Már ok Gríss til Ávalda ok vóru VII saman, þeir settu úti spjót sín. Gríss átti gullrekit spjót; nú sátu þeir at málunum ok fylgði Már fyrir hönd Gríss. Ávaldi kvað Más forsjá á skyldu vera ef yðr lízt svá ok mun yðr eigi frá vísat, ok í þat mund kómu þeir Hallfreðr ok förunautar hans ok sá spjótin. Hallfreðr mælti: komnir munu hér menn nokkurir um langan veg, ok gættu hesta okkarra, en ek mun fara til dyngju Kolfinnu, ok svá gerir hann; hann settist hjá henni, ok spurði hvat komit væri, en eingi þekt mun mér á þeim vera, þvíat þeir munu biðja þín, ok trúi ek, at þat man eigi vel verða. Kolfinna segir: láttu þá fyrir því sjá er ráða eigu. Hann segir: finn ek at þér þikkir nú þegar biðill þinn betri en ek. Hallfreðr setti hana i kné sér út hjá dyngjuvegginum ok talaði svá við hana at allir sá þeir er út géngu; hann sveigir hana at sér ok verða þá einstaka kossar. Nú koma þeir Gríss út; hann mælti: hverir eru þessir menn, er hér sitja á dyngjuvegginum ok látast svá kunnliga við? Gríss var heldr úskygn ok súreygr. Ávaldi segir: Hallfreðr er þar ok Kolfinna dóttir mín. Gríss mælti: er þetta vandi þeirra? Opt berr svá til, kvað Ávaldi, en þú verðr nú þetta vandræði af at ráða er hon er þín festarkona. Gríss segir: auðsætt er þat at við mik vill hann nú illt eiga, ok er slíkt til hræsni gert. Nú ganga þeir Gríss til hesta sinna. Þá mælti Hallfreðr: vita skaltu þat, Gríss, at þú skalt fjándskap minn hafa ef þú ætlar þér þenna ráðahag. Már mælti: engis munu þín

orð metin, Hallfreðr, um þetta mál, ok mun Ávaldi eiga ráð dóttur sinnar. Þá kvað Hallfreðr vísu:

Svá nökkvi verðr sökkvis
sannargs troga margra
ægilig fyrir [1] augum
allheiðins mér reiði,
sem úlítill úti
alls [2] mest við för gesta,
(stæri ek brag) fyrir bráði,
búrhundr gamall stúri.

Ok hirði ek [eigi], Blót-Már, segir Hallfreðr, hvat er þú leggr til. Már sagði ef hann flimtaði hann, at hann skyldi hart í móti taka. Hallfreðr kvaðst ráða mundu orðum sínum. Hann kvað þá vísu:

Ráða rækimeiðar
randaliðs at biðja,
ótti, eingadóttur
Ávalds, er þat skáldi;
síð mun Surts um bíða, [3]
svá gæta menn til hennar,
kvánar [byrr af kyrri [4]
Kolfinnu mér renni.

Hallfreðr reið þá í brott ok var reiðr. Már mælti þá: ríðum eptir þeim, ok svá gera þeir, ok vóru IX saman, fékk Ávaldi þeim II menn. Ólaf fóstra Hallfreðar grunaði um ferð þeirra Gríss ok Más, hann sendir þegar eptir Óttari, ok er þeir finnast, segir Ólafr honum at Hallfreðr mun manna þurfa. Nú er at segja frá Hallfreði, at þeir ríða II undan en IX eptir. Hallfreðr sér eptirreiðina ok mælti: rennum eigi lengra undan. Þeir vóru þá komnir hjá holti einu; bjuggust þeir þar við ok brutu upp grjót. Nú koma þeir Gríss at ok sækja at þeim, en þeir verjast alldrengiliga, en þó kom þar sem mælt er, at ekki má við margnum, ok verða þeir

[1] Flatb.; þess *Hds.* [2] Flatb.; ills, *Hds.* [3] *Conjectur;* biða *Hds. und* Flatb. [4] Flatb. [kyrs at keyri *Hds.*

Hallfreðr handteknir ok bundnir báðir. Þá mælti Gríss: menn ríða hér at oss ok eru eigi færi en XXX, ok má vera at sigrinn verði skammær. Þeir Gríss snéru aptr, ok riðu þá undan hart ok yfir ána, ok var þar götuskarð í bakka ok vígi gott, þar nema þeir staðar. Þá koma þeir Óttarr at ánni. Gríss kvaddi Óttar ok spurði, hvat hann vildi. Óttarr mælti: hvar er Hallfreðr frændi minn? Gríss segir: hann er bundinn en eigi drepinn hjá holti því er vér fundumst. Óttarr segir: úvirðuliga hafi þér við hann búit, eða viltu unna mér eindæmis fyrir þetta? Gríss kvaðst hans orð mikils virða skyldu, ok at því sættust þeir ok skildu við svá búit. Óttarr ríðr nú aptr á veg, ok finnr Hallfreð ok leysir þá félaga. Óttarr mælti: eigi er ferð þessi virðulig orðin, frændi. Hallfreðr kvað eigi lofa mega, ok eigi hirði ek, faðir, hversu þú gerir gerð þessa, ef Gríss á eigi Kolfinnu. Óttarr segir: Gríss skal konu eiga, alls hann trúir mér til, en þú, frændi, skalt fara utan ok leita þér meiri sæmdar. Hallfreðr segir: hverr mun mér þá trúr ef faðirinn bregðst. Nú skal þat fyrri at hendi berast at ek bjóða Grísi hólmgöngu þegar ek sé hann. Nú ríðr Óttarr heim en Hallfreðr til Haukagils. Ólafi þótti illa orðit hafa, ok þótti Hallfreðr útrúligr at halda sættir, ok sendi orð Óttari at honum leitzt vandræðalíkligt. Þá kómu orð til Hallfreðar at faðir hans væri sjúkr ok kvaðst vilja finna hann ok gera skipan sína. Hallfreðr kom, ok þegar lét Óttarr taka hann ok fjötra, eru nú II kostir, annathvárt at sitja í fjötrum, eða láta mik einn ráða fyrir þína hönd. Hallfreðr segir: eigi hefir þú þó í tveim höndum við mik, en heldr muntu ráða en ek sitja hér í fjötrum. Þá var fjötrinn af Hallfreði látinn. Már hafði inni boð þeirra Gríss ok Kolfinnu, ok fór hon til bús með Grísi út til Geitaskarðs; ekki vóru miklar ástir af hennar hendi við Grís. Ólafr at Haukagili fýsti mjök Hallfreð frænda sinn utan at fara; skal ek fá þér fé svá at þú megir vel fara með góðum mönnum. Faðir hans fýsti hann mjök utan at fara. Óttarr lauk upp gerð með þeim Grís ok gerði C silfrs Hallfreði til handa. Hallfreðr vildi þat eigi hafa ok mælti svá: sé ek elsku þína við mik, faðir, munu þér þessu ráða, en

svá segir mér hugr um at vár vandræði verði löng. Þá fór Óttarr einum vetri síðarr suðr til Nórðrárdals.

## CAPITULUM

Þetta sumar ferr Hallfreðr suðr til Hvítár, ok er hann kom til skips kvað hann vísu:

Fúss em ek enn þótt ossu
áföll drepi stáli,
mjök skýtr mörnar vakri,
minnast við Kolfinnu,
þvíat[1] álgrundar endist
áttgóðrar mér tróðu,
betr unnum nú nytja[2]
nærr [en heitið[3] væri.

Hallfreðr fór utan ok til Noregs, hann sótti á fund Hákonar jarls ens ríka er þá réð Noregi, gékk fyrir hann ok kvaddi hann. Jarl spurði hverr hann væri, hann kveðst vera íslenzkr maðr, en erindi [mitt] er þat, herra, at ek hefi kvæði ort um yðr, ok vilda ek hljóð fá. Jarl segir: líkligr ertu til at vera höfðingjadjarfr maðr, þann veg ertu í bragði, ok skaltu víst hljóð fá. Hallfreðr kvað kvæðit, ok var þat drápa, ok flutti vel ok sköruliga. Jarl þakkaði honum ok gaf honum exi mikla silfrrekna ok góð klæði, ok bauð honum með sér at vera um vetrinn, ok þá Hallfreðr þat. Um sumarit ferr Hallfreðr til Íslands, ok kemr fyrir sunnan land ok hafði þá mikit fé; síðan var hann í förum nökkura vetr ok var aldri fyrir norðan land. Ok eitt sumar er hann kom af Íslandi, þá lágu þeir við Agðanes, þar hitta þeir menn at máli ok spurðu tíðinda; þeim var sagt at höfðingjaskipti var orðit í Noregi, var Hákon jarl dauðr en Ólafr Tryggvason kominn í staðinn með nýjum sið ok boðorðum. Þá urðu skiparar á þat sáttir, at slá í heit, ok skyldi gefa Frey fé mikit ef þeim gæfi til Svíþjóðar, en Þór eða Óðni ef til Íslands kæmi, en ef þeim gæfi eigi í brott þá

[1] þóat Flatb. [2] nýtri, Flatb. [3] sem heitin, Flatb.

skyldi konungr ráða. Þeim gaf aldri í brott ok urðu at sigla inn til Þrándheims, ok kómu við höfn þá er á Flagða hét, þar lágu fyrir mörg langskip. Veðr gerði mikit um nóttina af hafi svá at eigi hrifu akkerin við; þá mælti einn af langskipamönnum: þessir menn eru illa staddir á kaupskipinu ok mun þeim eigi duga, er veðrit stendr þar á sem þeir liggja, ok skulu vér róa til þeirra. Þeir géngu á skip XXX manna ok sat einn í stafni, ok er þeir kómu til kaupskipsins, mælti sá er í stafninum sat: þér erut illa komnir, ok er hér úhreint fyrir, ok skulu vér greiða ferð yðra. Sjá var mikill vexti. Hallfreðr mælti: hvat heitir þú? hann segir: ek heiti Akkerisfrakki. — Ok er þeir töluðust þetta við þá gékk í sundr akkerisstrengrinn, en sá er í stafninum sat kastaði sér þegar fyrir borð ok kafaði eptir strengnum í storminum ok náði þegar; var þá upp dregit akkerit. Þá kvað Hallfreðr stöku þessa:

Færum festar várar,
ferr sjóroka at knerri,
svörð tekr heldr at herða,
hvar er Akkerisfrakki?

Ólpumaðr segir:

Enn í ólpu grænni
ek fæ dreng til strengjar
þann er hnakkmiða hnykkir,
hér er Akkerisfrakki.

Þeir réru fyrir skipinu í gott lægi. Ekki vissu kaupmenn hverr þar hafði verit, en síðarr var þeim sagt, at konungrinn sjálfr hafði hjálpat þeim. Eptir þat lögðu þeir inn til Hlaða, þar var Ólafr konungr fyrir, ok var honum sagt at þessir menn mundu vera heiðnir ok nýkomnir af Íslandi; hann stefnir þeim á sinn fund, ok er þeir kómu þar, taldi konungr trú fyrir þeim, ok bað þá kasta forneskju ok illum átrúnaði, en trúa á sannan guð skapara himins ok jarðar. Hallfreðr svarar máli konungs: eigi mun þat kauplaust, konungr, at ek taka þann sið er þú boðar. Konungr mælti: hvat er til mælt? Hallfreðr segir: þú skalt mik aldri

láta þér af höndum hvat illt sem mik hendir. Konungr segir: þann veg værir þú í bragði, at fás mundir þú svífast ok mart láta þér sóma. Þá gékk Hallfreðr í brott ok vildi síðarr við konung tala. Konungr spyrr þá hvar Íslendingr væri ok bað ganga eptir honum. Nú kom Hallfreðr til konungs annan tíma. Þá mælti konungr: tak nú skírn, ok skal þat nú til vinna er þú beiðist, eðr hvat heitir þú? Hann kvaðst Hallfreðr heita. — Þú ert einarðligr maðr ok sköruligr, ok þjóna eigi lengr fjándanum. Hallfreðr segir: sú er bæn mín önnur, herra, at þú haldir mér undir skírn. Konungr segir: þú beiðist svá margs at eigi má við þik fást. Þá mælti biskup: ger þetta sem hann beiðist, því meira gerir guð fyrir þína skyld, sem þú gerir fleira til eflingar kristni guðs. Eptir þetta heldr konungr Hallfreði til skírnar, ok fær hann síðan í hendr Þorkatli nefju bróður sínum ok Jósteini, ok lét þá kenna honum heilug fræði. Þetta sannar Hallfreðr í kvæði því einu, er hann orti um Ólaf konung:

Hlaut ek þann er æztr var einna,
ek sanna þat, manna
undir niðbyrði[1] Norðra
norðr guðföður orðinn.

CAPITULUM

6 Nú var Hallfreðr með konungi um hríð ok orti um hann flokk[2] ok bað sér hljóðs. Konungr kvaðst eigi hlýða vilja. Hallfreðr segir: þú munt því ráða, en týna mun ek þá þeim fræðum er þú lézt mér kenna, ef þú vill eigi hlýða kvæðinu, ok eru þau fræði ekki skáldligri, er þú lézt mik nema, en kvæðit er, þat er ek hefi um þik ort. Ólafr konungr mælti: sannliga máttu heita vandræðaskáld ok skal heyra kvæðit. Hallfreðr flutti sköruliga kvæðit ok var þat drápa, ok er lokit var mælti konungr: þetta er gott kvæði ok þigg af mér sverð búit, en vandgætt mun þér til

[1] niðbyrðra *Hds. unrichtig.* [2] *So Hds., aber* drápa *Zeile* 31.

þess, þvíat eingi fylgir umgerðin, ok haf svá III daga ok III nætr, at engum verði mein at. Þá kvað Hallfreðr vísu:

Veit ek [at] vísu skreyti
víðlendr konungr[1] sendi
nöktan hjör við nökkva.
núflaustr burar Austra,
verða hjölt fyrir herði,
höfum gram[r] kera framdan,
skelkvin[g] þá ek of skjálga,
skrautlig[2] konungsnauti.

Vel gat Hallfreðr varðveitt sverðit ok allmjök lofaði hann goðin, ok kvað mönnum þat illa takast er menn löstuðu þau. Hann kvað þetta svá at konungr heyrði einn tíma:

Hitt var fyrr at harra
Hliðskjálfar gat ek sjálfan,
skipt er á gumna giptu,
geðskjótan vel blóta.

Konungr mælti: allill vísa, ok bæt yfir. Hallfreðr kvað enn:

Öll hefir ætt[3] til hylli
Óðins skipat ljóðum,[4]
algildar man ek aldar
iðjur várra niðja,
en trauðr, þvíat vel Viðris
vald hugnaðist skaldi,
legg ek á frumver[5] Friggjar
fjón þvíat Kristi þjónum.

Þá mælti konungr: allmikinn hug leggr þú á goðin, ok er þat illa virðanda fyrir þér. Þá kvað Hallfreðr vísu:

Höf[n]um hölda reifnir[6]
~~hrafnblóts~~[7] goða-nafni

---

[1] Flatb.; mér *Hds.* *Zeile* 5—7: af nökkvi nú ák Sýrar mey dýra [*besser*].
[2] Flatb.; skrautligr, *Hds.* [3] ort *Hds.* [4] hlioðum *Hds.* [5] lof *Hds.*
[6] reifar *Hds.* [7] bloðz *Hds.*

þess er ól við lof lýða
lóm, er[1] heiðnum dómi.

Konungr segir: ekki batnar um ok kveð vísu til yfirbóta. Hallfreðr kvað vísu:

Mér skyli Freyr ok Freyja,
fjarðlæt ek aðul Njarðar,
(líknist) gröm við Grímni,
(gramr) ok Þórr enn rammi.
Krist vil ek allrar ástar,
erumk leið sonar reiði,
vald á frægt um[2] foldar,
feður einn ok guð kveðja.

Þá mælti konungr: slíkt er vel kveðit ok betra en eigi ok yrk enn. Hallfreðr kvað vísu:

Sás[3] með Sygna ræsi
siðr at blót eru kviðjut,
verðum flest at forðast
fornhaldin sköp norna;
láta allir ýtar
Óðins ætt[4] fyrir róða,
nú em ek neyddr frá Njarðar[5]
niðjum Krist at biðja.

Óttarr hét maðr upplenzkr, Kálfr hét bróðir hans, þeir vóru hirðmenn konungs, ok vaskligir menn ok vel metnir af konungi. Þeir öfunduðu Hallfreð, ok þótti þeim hann hafa ofmikinn gang af konungi; ok eitt kveld er þeir drukku, slógu þeir í deilu mikla, ok var konungr hjá, ok bar konungr viðtal þeirra í hag Óttari, þvíat hann sá, at honum endist eigi þrætan við Hallfreð, ok gékk brot síðan, ok eptir þat sló í kappmæli með þeim, en svá lauk með þeim, at Hallfreðr hljóp upp ok hjó Óttar banahögg með exinni Hákonarnaut. Kálfr þreif Hallfreð, ok menn með honum, ok settu í fjötur; en þat vóru lög, at þann mann skyldi drepa, er mann vægi í kon-

[1] *So Hds.* [2] und, *Hds. unrichtig.* [3] Sá er *Hds.* [4] *So* Fornm., orð, *Hds.* [5] Freyiu *Hds.*

ungs herbergi. Síðan fundu þeir konung, ok kváðu þá sýnast hvat manna Hallfreðr var, ok sögðu hann bleðja mundu ætla hirðina, ok rægðu hann nú sem mest máttu þeir, til þess at konungr bað láta drepa hann um morgininn eptir. Kálfr varð við þetta glaðr; ok um daginn eptir leiddu þeir hann út ok til dráps. Hallfreðr mælti: hvar er konungr? þeir svara: hvat mundi þik þat skipta, dæmdr ertu nú til dauða. þá mælti Hallfreðr: er sá dauðr er ek vann á? þeir kváðu svá vera. Hallfreðr mælti: ef sá er nokkurr hér við staddr, er ek hefir vel til gert, þá launi þat svá, at leiði mik þar í nánd sem konungr er, ok vil ek þakka hérvist mína. þá kom þat fram sem mælt er, at hverr á sér vin með úvinum, ok vóru þeir þar, at við þat kendust, at hann hafði vel til gert, ok leiddu hann þar hjá er konungr var ok biskup; ok er Hallfreðr kom gegnt þeim þá mælti hann: minnist þess, herra, er þér hétuð, at segja mik yðr aldri afhendan ok verðit eigi heitrofa við mik. Sá annarr hlutr at þú ert guðfaðir minn. Sigurðr biskup mælti við konung: lát hann njóta slíkra hluta. Svá skal vera, segir konungr, ok bað þá þegar leysa hann. Nú var svá gert, ok líkaði Kálfi allþungt. Nú var Hallfreðr enn með hirðinni, ok kom sér brátt vel, en þó var konungr færri við hann en áðr, ok bætti þó víg þetta fyrir hann. þat var einn dag at Hallfreðr gékk fyrir konung ok féll til fóta honum, konungr sá at hann feldi tár, ok spurði hvat honum þótti svá mikit. Hann segir: Nærr fellr mér reiði þín ok henni vilda ek af mér koma. Konungr segir: svá skal vera, þú skalt fara sendiför mína eptir jól, ok skulu við þá sáttir, ef þú kemr ferðinni fram, eðr hvárt áttu sverð þat er ek gaf þér? Á ek víst, herra, ok aldri hefir þat komit í umgerð. Konungr mælti: þat samir vel, at vandræðaskáldit eigi vandræðagripinn, eða muntu kunna at nefna sverð í hverju vísuorði? Hallfreðr segir: við man ek leita ef þér vilit, ok allt mun ek til vinna at koma af mér yðvarri reiði. Konungr mælti: kveð nú þá. Hallfreðr kvað þá vísu:

Eitt er sverð þat er sverða
sverðauðgan mik gerði

fyrir svipnjörðum sverða
sverðótt mun nú verða,
muna vansverðat verða,
verðr em ek þriggja sverða,
jarðarmens at yrði
umgerð at því sverði.

Konungr þakkaði honum ok kvað honum mikla íþrótt í skáldskap sínum, ok gaf honum umgerð mjök vandaða, ok þóat svá beri til, segir konungr, at þik hendi þat víti, at þú komir eigi undir borð eðr til kirkju, þá skal þér framarr upp gefa en öðrum. Hallfreðr þakkaði konungi. Eitt sinn var þat at konungr spurði hvar Hallfreðr væri. Kálfr segir: hann mun enn hafa vanda sinn at blóta á laun, ok hefir hann líkneski Þórs í pungi sínum af tönn gert, ok ertu of mjök dulinn at honum, herra, ok fær hann eigi sannreyndan. Konungr bað Hallfreð þangat kalla ok svara fyrir sik. Hallfreðr kemr þar. Konungr mælti: ertu sannr at því er þér er kent at þú blótir? Eigi er þat satt, herra, segir Hallfreðr, skal nú rannsaka pung minn, hefi ek hér ekki undanbragð mátt hafa þó at ek vilda. Nú fanst engi sá hlutr í hans valdi er til þess væri. Þetta er dauðarög, segir Hallfreðr, ok mun Kálfi at illu verða ef ek nái svá til hans; hann kom mér enn fyrri til dauða. Konungr mælti: eigi er ykkr saman vært, ok skal Kálfr fara til búa sinna, en þú, Hallfreðr, skalt fara sendiför mína til Upplanda til Þorleifs hins spaka, hann vill eigi við kristni taka ok skaltu drepa hann eða blinda ella, hann er dótturson Þorleifs Hörða-Kárasonar, skal ek til leggja mína giptu, ok haf menn svá marga sem þú vill. Hallfreðr kvað ferðina úrífliga, en allt at einu skal fara sem þér vilit, en Jósteinn móðurbróðir yðvarr vil ek at fari með mér ok bekkjunautar mínir þeir sem ek kýs til svá at vér sém saman IIII ok XX. Ger sem þér líkar, segir konungr, en sent hefi ek fyrri menn til Þorleifs ok hafa þeir engu til leiðar komit því er ek vilda at væri. Síðan riðu þeir Hallfreðr brott frá konungi ok til þess er þeir kómu í skóg þann er skamt var frá bæ Þorleifs. Þá stigu þeir af hestum sínum í





rjóðri einu. Þá mælti Hallfreðr: hér skulu þér bíða mín til hinnar þriðju sólar, en fara þá aptr ef ek kem eigi hér. Jósteinn bauð at fara með honum; hann vildi þat eigi. Hallfreðr tók þá stafkarls-gervi; hann lét leggja lit í augu sér ok snéri um á sér hvörmunum ok gerði mikla breytni á yfirlitum sínum; langan bagga hafði hann á baki ok var þar í sverð hans konungsnautr. Hann gékk nú at bæ Þorleifs ok at haugi þeim er hann sat á ok var þat snemma dags. Þorleifr heilsaði honum ok spurði hverr hann væri. Ek er fátækr maðr einn, segir hann, kom ek til konungs, ok vildi hann mik til trúar brjóta, en ek hljóp á brott leyniliga ok drap ek áðr einn konungsmann. Nú vilda ek biðja þik nokkurrar ásjá. Þorleifr svarar fá um þat, en spyrr hann margs um lönd eða hafnir. Hann leysti ór öllu fróðliga. Þorleifr mælti: var nokkurr sá maðr með konungi er Hallfreðr heitir? Hann svarar: heyrða ek hans getið, ok sjaldan at góðu. Þorleifr mælti: sá maðr dreymir mik jafnan, en þó er þat úmerkiligt, en koma munu konungsmenn hingat brátt, en hann Hallfreðr er svá manna, at ek skil sízt hvat manna at er, at frásögn manna, ok horfin-heilla er mér hvat sem eptir kemr. Þá grunar Þorleif hverr maðrinn var ok vildi upp standa, en Hallfreðr þreif til hans ok rak hann undir sik er hann var miklu sterkari. Þeir ultu ofan fyrir hauginn ok varð Hallfreðr efri, hann setti hæl á augat Þorleifi ok hleypti or honum auganu. Þorleifr mælti þá: konungs gipta fylgir þér, en við þik hefi ek lengi áhugafullr verit, en nú er þat fram komit, en veit ek at þú gerir konungs boðskap at blinda mik eða drepa, en nú vil ek biðja þik at þú gefir mér annat auga, en ek vil gefa þér kníf ok belti ok er hvártveggja góðr gripr[1], ok koma þér þó at liði ef svá berr til, ok ertu ekki úlíkligr at þurfa þess við. Hallfreðr kvaðst eigi vilja svá brjóta konungs boðskap at þiggja af honum góðgripi til þess, kvaðst heldr vilja taka þat á sik at gefa honum annat augat. Þorleifr þakkaði honum, ok skildu þeir at því, ferr Hallfreðr til sinna manna ok varð þar

[1] *ỳmr Hds.*

fagnafundr. Þorleifr gékk heim til bæjar ok sagði engum manni áverkann fyrr en þeir vóru langt á brottu. Þeir Hallfreðr riðu leið sína þar til er þeir kómu til Kálfs um farinn veg. Þá mælti Hallfreðr: drepa skal þenna enn illa mann. Jósteinn mælti: ger eigi þat, blöndum eigi giptu við úgiptu. Hallfreðr segir: eigi hefir hér at högum verit til skipt, góðr drengr er meiddr en mannfýlan lifir, ok þreif hann höndum ok stakk ór honum augat. Kálfr varð hryggr við, Hallfreðr mælti: nú sýnir þú enn greyskapinn. Síðan fóru þeir brott, ok kómu til konungs ok sat hann at tafli, þeir kvöddu hann. Konungr spurði tíðinda; Hallfreðr segir alla sögu konungi. Konungr mælti: vel hefir þú gert ok sýn mér augat. Síðan tók Hallfreðr augat Kálfs. Konungr mælti: hvar féktu slíkt auga? Þetta er Þorleifs auga. — Nei, segir konungr, fleira muntu unnit hafa en ek bauð þér. Síðan sýndi hann auga Þorleifs; þá mælti konungr: þetta er hans auga, ok er enn ekki betr en hálfgert. Hallfreðr mælti: nú galt ek Kálfi er hann stangaði mik spjótsoddinum þá er hann leiddi mik til bana, ok segir nú allt sem farit hafði. Konungr mælti: viltu nú fara til Þorleifs í öðru sinni? Hallfreðr segir: eigi vil ek þangat fara, en fara vil ek til Kálfs ok stinga or honum annat augat. Konungr kvað þar standa skyldu; tók Hallfreðr þá sæmdir með konungi.

## AF HALLFREÐI. CAPITULUM

7 Þat var eitt sinni er Hallfreðr var fyri konungi, at hann mælti: leyfi vilda ek hafa í sumar at sigla austr til Eyrar kaupferð. Konungr segir: eigi skal þat banna þér, en svá segir mér hugr um at eigi sé þér úannara aptr til mín en þér er í brott ok mart mun yfir þik líða. Hallfreðr segir: til þess verðr nú at hætta. Síðan fór Hallfreðr á brott; hann spurði at Sigvaldi jarl var höfðingi mikill. Hallfreðr kemr á fund hans ok kveðst hafa ort kvæði um hann. Jarl spyrr: hverr ertu? hann segir [nafn sitt. Jarl segir]: ertu skáld Ólafs konungs? Svá er, segir Hallfreðr, ok vilda ek hljóð fá. Jarl mælti: hví mun mér

þat eigi vel sama er Ólafi konungi líkar vel. Hallfreðr kvað kvæðit ok var þat flokkr. Jarl þakkaði honum kvæðit ok gaf honum gullhring þann er vá hálfa mörk, ok bauð honum þar at vera með sér. Hallfreðr þakkaði honum boð, en til Svíþjóðar skal nú fyst fara. Jarl bað hann ráða. Þat sama haust fór Hallfreðr í Vík austr ok brutu þar skipit austanfjarðar ok týndu miklu fé. Þaðan fór Hallfreðr til Konungahellu ok dvaldist þar um hríð. Ok einn dag er Hallfreðr gékk úti at kaupstefnu þá gékk maðr í móti honum; þeir kvöddust ok spurði Hallfreðr hverr hann væri. Hann kvaðst Auðgisl heita ok kominn vestan af Englandi, ok skortir mik eigi fé, eðr er þetta Hallfreðr vandræðaskáld? Hann kvað svá vera. Ek hefi frétt, kvað Auðgisl, at þú hefir hitt í fjártjón, eða viltu slá kaupi við mik at fara austr til Gautlands með mér til vetrvistar, en ek skal gefa þér X merkr silfrs til fylgðar, þvíat mér er sagt at þín fylgð sé fé kaupandi. Hallfreðr kvaðst þat vilja. Vegrinn var úhreinn ok hurfu margir aptr. Þeir Hallfreðr höfðu V klyfjahesta ok einn at ríða; fóru nú austr á markirnar; ok einn dag sá þeir at maðr fór móti þeim. Þeir spurðu hverr hann væri, hann kvaðst Önundr heita; hann var mikill vexti ok kvaðst vildu fara með þeim ef þeir gæfi honum leigu nokkura, eru mér hér vegir allir kunnigir. Auðgisli kvaðst lítið um hann, lézt eigi vita hverr þegn hann væri. Hallfreðr var eggjandi at við honum væri tekit, ok þat varð, ok skyldi hann hafa XII aura silfrs. Hallfreðr var þá sem gildastr en Auðgisl var við aldr. Nú fóru þeir sem leið lá; Önundr fór fyrir um daginn ok kómu at sæluhúsi um kveldit; þá mælti Hallfreðr: nú munu vér eiga þrenn verk, ok skaltu, Önundr, viða heim, þú hefir exi mikla; Auðgisl skal eld gera, en ek skal vatn sækja. Þá mælti Önundr: þat er þá bezt at viða útæpiliga til húss, þvíat margir þurfa eldiviðinn, þeir er hér koma. Hallfreðr kvað þat vel sagt. Þá mælti Auðgisl: fúsari væra ek at taka vatnit en þú gerðir eld, Hallfreðr. Látum þá svá vera, segir hann. Síðan kveykti hann eldinn, en Önundr fór með byrði ok gerði þat hverr er boðit var. Hallfreði þótti þeim seint verða. Hann grúfði at eldinum

ok hafði kastað belti sínu á háls sér ok var þar knífr mikill er mönnum var þá títt at hafa, ok var knífrinn á bak honum. Nú kemr Önundr inn [með] byrði; hann hleypr þegar at honum Hallfreði ok hjó til hans tveim höndum með exinni ok kom í tygilknífinn, en Hallfreðr greip til fóta honum ok hét á guð ok mælti: dugi þú mér, Hvíta-Kristr, ef þú ert svá máttugr sem Ólafr konungr segir, lát eigi þenna mann stíga yfir mik. Síðan réttist Hallfreðr upp undir honum með fulltingi guðs ok giptu Ólafs konungs; tók hann þá Önund upp ok rak niðr svá mikit fall at hann var í úviti ok hraut exin or hendi honum. Hallfreðr hafði sax eitt lítið ok brá því, ok þá vitkaðist Önundr. Hallfreðr spyrr: hefir þú drepit Auðgisl? hann kvað svá vera. Þá lagði Hallfreðr saxinu í gegnum hann ok dró hann út or skálanum en byrgði síðan fast. Ok um nóttina brau[zt] Önundr á hurðina en Hallfreðr stóð við innan, ok gékk því til dags. Um morgininn fann Hallfreðr Auðgisl dauðan við lækinn ok tók af honum kníf ok belti ok hafði með sér; hann bjó um Auðgisl eptir siðvenju. Sá hann nú at Önundr mundi verit hafa illvirki ok drepit menn til fjár sér, ok þat hér var auðigt at fé ok varningi. Hallfreðr kvað þá vísu:

Ól ek þar er aldri véla
auðgildanda vildag
hyrjar njót á hvítu
hrafnvíns fé mínu[1];
vann ek til góðs við grenni
gunnmás sem ek kunna,
en furskerðir færði
fjörtál at mér hjörfa.

Síðan reið hann austr á fjallit ok hitti illa leiðir.

## FJÖRRÁÐ VIÐ HALLFREÐ

7 At kveldi eins dags heyrði hann við feldan ok reið þagat eptir, þá varð rjóðr fyrir honum ok var þar maðr ok hjó við, hann var búandligr ok rauðskeggjaðr, skolbrúnn ok heldr illmannligr.

[1] a fe sinu *Hds.*

Sjá maðr heilsar honum. Hallfreðr spyrr hverr hann væri; hann kvaðst Björn heita, ok far með mér til gistingar. Hann þiggr þat. Björn var allbeinn við hann. Bóndi lá í lokhvílu en Hallfreðr í annarri; hann grunar Björn ok stóð upp undir tjaldit með brugðit [sverðit] konungsnaut, ok í því lagði Björn í rúmit, en Hallfreðr hjó hann banahögg. Húsfreyja bað menn upp standa ok taka þenna glæpamann. Menn báru klæði á vápn Hallfreðar ok var hann handtekinn ok bundinn. Síðan vóru send orð þeim manni er Ubbi hét, hann átti sér bróður er Þórir hét, hann var þar höfðingi; hann átti dóttur er Ingibjörg hét, hana hafði átt Auðgisl ok var hinn mesti kvennskörungr. Nú koma menn til fundar þessa at dæma Hallfreð. Þar kom Þórir ok Ubbi ok Ingibjörg, ok kom þat ásamt með þeim at hafa Hallfreð til blóta. Hann gékk at Ingibjörgu ok kvaddi hana ok kvaðst hafa þar gripi er Auðgisl hafði sent henni, hon svarar: kenni ek gripina. Hann segir henni alla söguna ok kvað hann vísu:

Svá hefk hermila harma[1]
hnigbaldr[2] í gný skjalda,
baugs erum svipt[3] at sveigi,
sárlinns rekit minna:
at[4] lofhnugginn liggja
lét ek baldr roðins skjaldar,
ek hefnda svá okkar,
Auðgisli hjá dauðan.

Ingibjörg spurði vandliga at um atburði:

Ek brá elda skrökkvi[5]
ölnaskeiðs af reiði,
lagða ek hendr at hundi
hunds glævara mundar,
stendr ei[gi] sá sendir
síðan hlakkar skíða,

[1] harmi *Hds.* [2] hugballdr *Hds.* [3] *oder* svipr. [4] en *Hds.*
[5] bar elda skrokkvis *Hds.*

bál rauð ek yggjar jela,
jels við þjóð á[1] vélum.

Ingibjörg mælti: sé ek at þú munt með sönnu fara ok skaltu fara heim með mér. Fór Hallfreðr heim með henni ok var þá stirðr af böndum ok lét hon næra hann. Þau Þórir ok Ingibjörg sendu menn á fjallit ok fundu þar þau merki öll, er Hallfreðr hafði sagt, var þat allmikit fé er þaðan var flutt; var þat allra samþykki landsmanna at Hallfreðr tæki fé þat er Önundr hafði átt, ok héldu þeir mikit tal af honum. Hallfreðr lagði hug á Ingibjörgu ok bað hennar. Hon segir: eigi mun þá vel fyrir öllu sét er þú ert kristinn ok hér útlendr, en þú skalt finna föður minn ef þú vill. Hann gerir svá ok tjár þetta fyrir Þóri ok verða þeir vel á sáttir. Gékk svá til, at Hallfreðr fékk Ingibjargar ok unni mikit; þar stóð saman auðr mikill ok hafði Hallfreðr þar virðingar miklar. Þat hafði hannhelzt til trúar, at hann blés í kross yfir drykk sínum áðr hann drakk, en fátt söng hann. Eitt sinn talaði hann fyrir Ingibjörgu: Ek ætla mér at fara á fund Ólafs Svíakonungs ok færa honum kvæði, er ek hefir ort um hann; hon kvaz ætla at hann mundi heyra vilja lofit.

## CAPITULUM

9 Þat sumar fór Hallfreðr til Svíþjóðar ok kom á fund konungs ok kvaddi hann. Konungr spyrr hverr hann væri. Hann segir til sín. Konungr mælti: víða ertu nefndr ok skáld göfugra manna. [Hallfreðr segir:] kvæði hefi ek ort um yðr ok vilda ek hljóð fá. Konungr játti því. Síðan flutti hann kvæðit. Konungr bauð honum með sér at vera ok gaf honum góðar gjafir. Hallfreðr kvaðst eiga bú ok konu í hans skattlandi, ok vil ek þangat vitja. Konungr bað hann vel fara. Hallfreðr kom aptr til konu sinnar; þar var hann II vetr, ok á hinum þriðja vetri var þat eina nótt at honum þótti Ólafr konungr koma til sín ok var reiðuligr ok kvað hann mjök kasta kristni sinni; far á fund

[1] þjoða *Hds*.

minn ok lið þitt. Hallfreðr andvarpaði mjök er hann vaknaði. Ingibjörg spyrr hvat hann hefði dreymt. Hann segir henni, eðr hversu mun þér um gefit, viltu nokkut fara með mér? á ek þér mikit gott at launa, ok þá fénga ek þér helzt ómbunat ef þú tækir við trú. Hon svarar: þess er ván at þik muni þangat langa, ok skil ek at sá mun vera siðr miklu betri ok mun ek með þér fara. Auðgisl hét son þeirra ok var hann þá tvævetr. Þau fara á fund Ólafs konungs ok tók hann vel við Hallfreði, ok ávítaði hann þó mjök ok bað prest skripta honum. Ingibjörg fæddi þá sveinbarn ok hét sá sveinn Hallfreðr ok gaf faðir hans honum nafn sitt. Var þá Ingibjörg skírð ok synir hennar báðir. Ólafr konungr mælti þá við Hallfreð: nú skaltu bæta yfir við guð er þú hefir lengi verit með heiðnum mönnum ok gengit mjök [af] trúnni. Hann kvaðst þat gjarna vilja ok orti Uppreistar-drápu gott kvæði. Þann vetr andaðist Ingibjörg ok þótti Hallfreði þat allmikill skaði. Um várit sagði hann konungi at hann lysti at sjá Ísland. Konungr sagði at þat skyldi sem hann vildi, hefi ek þik reynt at góðum dreng, en koma mun þar at þú mundir heldr vilja með mér vera at því skaplyndi, sem þú hefir, en þessa gripi skaltu þiggja af mér, pellsskikkju, hring ok hjálm, þvíat úvíst er um fundi okkra; lóga eigi gripunum, segir konungr, þvíat [þeir skulu með þér[1] til kirkju fara, en í kistu leggja hjá þér ef þú andast í hafi. Hringrinn stóð III aura. Hallfreði þótti mikit fyrir skilnaði við konung. Auðgisl son Hallfreðar fór austr til Þóris móðurföður síns; Hallfreði syni sínum fékk hann fóstr gott. Hallfreðr lét í haf, hann kom skipi sínu í Kolbeinsárós eptir þing. Hann mælti til skipara sinna: ferð liggr fyrir mér suðr um heiði at finna föður minn ok skulu vit ríða XII saman. Nú var skip upp sett en þeir ríða á brott XII saman ok snéru vestr til Langadals. Þeir vóru allir í litklæðum ok stefndu til selja Gríss. Kolfinna var þar ok konur nokkurar hjá henni. Þar vóru fleiri sel ok stóðu selin í Laxárdal milli Langadals ok Skagafjarðar. Sauðamaðr Kolfinnu

---

1 [með m' skulu *Hds*.

sagði at XII menn riðu at selinu, ok vóru allir í litklæðum. Hon segir: þeir munu eigi kunna leiðina. Hann segir: kunnliga ríða [þeir] þó. Nú koma þeir til seljanna. Kolfinna fagnar vel Hallfreði ok frétti tíðinda. Hann segir: tíðindi eru fá, en í tómi munu sögð vera, ok viljum vér hér í nótt vera. Hon svarar: þat vilda ek at þú riðir til vetrhúsa ok mun ek fá þér leiðsögumann. Hann kvaðst þar vera vilja. Gefa munu vér yðr mat, sagði hon, ef þér vilit þetta eitt. Nú stíga þeir af hestum sínum, ok um kveldit er þeir vóru mettir, sagði Hallfreðr: þat ætla ek mér at liggja hjá Kolfinnu, en ek lofa félugum mínum at breyta sem þeir vilja. Þar vóru fleiri sel ok er svá sagt at hverr þeirra féngi sér konu um nóttina. En er þau kómu í sæng Hallfreðr ok Kolfinna spyrr hann hversu mart væri um ástir þeirra Gríss. Hon kvað vel vera. Hallfreðr segir: vera má at svá sé, en annat þikki mér finnast á vísum þeim er þú hefir kveðit til Gríss. Hon kvaðst engar kveðit hafa. Hann segir: ek hefi litla stund hér verit ok hefi ek heyrt vísurnar. Lát mik heyra segir Kolfinna, hvernin verki sá er, at mér er kendr:

Leggr at lýsibrekku
leggjarís[s] af Grísi,
kvöl þolir hlín hjá hánum,
heitr ofremdar sveiti:
en dreypilig drúpir
dýnurán hjá hánum,
leyfi[1] ek ljósra vífa
lund, sem álft á sundi.

Ekki er slíkt bót annars, ok mikit undr at hraustr maðr vill slíkt gera. Hallfreðr segir: enn hefi ek heyrt aðra:

Þrammar svá sem svimmi
sílafullr til hvílu
furskerðandi[2] fjarðar
fúlmár á tröð báru:

[1] leifi *Hds.* [2] furskiðandi *Hds.*

áðr en orbastríðir
úfriðr þorir skríða,
hann era hlaðs við gunni
hvílubráðr, und váðir.

Kolfinna segir: ekki mun Gríss yrkja um þik ok semdi þér betr at úvingast eigi svá við hann, þvíat eigi veit hvar manni mætir! Hallfreðr kvað vísu:

Lít[t] mun halr enn hvíti
hjálmgrand[1] fyrir búr skálmask[2]
hann muna aura eyrar[3]
án, ok Strútr enn gráni,
þótt orfþægir eigi
úfriðr stöðul víðan,
hirðandi nýtr hjarðar
hjörfangs, ok kví langa.

Kolfinna stygðist þá við. Hallfreðr kvað vísu:

Kolfinna lézk kenna,
kveð ek um hlut þenna,
hvat kveða vitru vífi
valda? fúlt af skáldi,
en af ungum svanna
auðhnykkjanda þykkir,
óð em ek gjarn at greiða,
ganga dýrligr angi

Smalamaðr reið brott um nóttina ok sagði Grís hvat komit var, en hann reið heiman við XX menn. Snemma um morgininn búast þeir Hallfreðr, ok áðr hann steig á hest kvað hann vísu:

Lítt hirða ek, lautar
lundr hefir hætt til sprunda
viggs, þótt verða[k] högginn
varr í höndum svarra:

---

[1] hialmgrandr *Hds.* [2] *So die Hds.* [3] *So die Hds. für* eirar.

ef ek næða sif slæðu
sofa[1] karms meðal arma,
mákkat ek láss[2] um ljósa
lind of trega bindast.

Síðan hljóp hann á bak ok brostí. Kolfinna mælti: hví brosir þú nú? Hann kvað vísu:

Ve[i]tkað ek hitt hvat verða
verglóðar skal tróða,
rennu[m] ást til unnar
unnardags, á munni:
ef fjölgegnir fregna
fagnendr jötuns sagna,
fló ek af galtar-Grísi
geitbelg, hvat mik teitir.

Hallfreðr vildi gefa Kolfinnu skikkjuna konungsnaut, en hon vildi eigi þiggja, ok áðr þeir riðu brott kvað hann vísu:

Heim koma hirðinaumur,
hams er góðr á fljóðum,
sæfarbáls frá seljum
sléttfjallaðar allar;
nú sel ek af þótt ýfist
ölbekkjar syn nekkvat,[3]
hverr taki seggr við svarra
sínum, ábyrgð mína.

Eptir þat ríða þeir á brott.

### AF HALLFREÐI OK GRÍS

10 Nú kemr Gríss til seljanna. Kolfinnu var skapþungt. Gríss sá þat. Hann kvað vísu:

Nú þykkir mér nokkurr
námskorð vera orðinn,

---

[1] soma *Hds.* [2] *so* Flatb. lioss *Hds.* [3] nakkvat *Hds.*

lít ek á sumt um sveitir,
sveimr meðan ek var heiman;
hér hafa gestir gjörfa,
gengr út kona þrútin,
þerrir sjáligr svarri,
slaug þungliga, augu.

Þar var með Grísi Einarr son Þóris Þrándarsonar. Gríss vill eptir ríða, en Kolfinna latti ok kvað eigi víst hvárt hans hlutr batnaði við. Gríss vill þó eptir ríða. Þeir riðu fram hjá Auðólfsstöðum til Blöndu. Þá vóru þeir Hallfreðr komnir á miðja ána. Þá skaut Gríss spjóti til Hallfreðar, en hann tók á lopti ok skaut aptr til Gríss, en Einarr brá við exi; spjótið kom fyrir brjóst Einari ok fékk hann bana. Gríss kvað Hallfreð renna; hann kvaðst eigi mundu fara lengra en af ánni ok bað þá at sækja, en Gríss reið eigi at. Þá lögðu menn þat til, at Hallfreðr skyldi bæta Grísi fyrir ósóma þann allan, er hann hafði gert honum. Hallfreðr spyrr hvers hann beiddist. Gríss svarar: því munda ek una, ef ek hefða hringa báða, jarlsnaut ok konungsnaut. Hallfreðr segir: fyrr mun annat at berast, ok skildu við þat. Hallfreðr reið suðr til bróður síns, en þá var faðir hans andaðr, ok var þar um vetrinn; ok um várit er hann fór norðr þá rak á fyrir þeim hríð; Hallfreðr kvað þat vera gerningaveðr. Þeir riðu ofan eptir Vatnsdal, þar til at fyrir þeim varð einn garðr ok spruttu þar upp XX menn. Þar var kominn Már af Másstöðum, hann hleypr fyrir Hallfreð en Hallfreðr höggr þegar til hans, en Már brá við blóttrygli ok varð hann ekki sárr. Hallfreðr reið þá ór garðshliðinu. Már kallaði: sækjum at þeim. Hallfreðr kvað vísu:

Mjök tegast sveima[1] sökkvir,
snót verð ek þegns fyrir hótum,
vér munum dag hvern dýrra,
dulrækinn mik sækja;

[1] *So die Hds.*; seima?

helldr mun hælibaldri
hræving fyrir því minna,
ván erumk slík, at sleikja
sinn blóttrygil innan.

Skildu þeir við svá búit. — Húnröðr hét maðr, er bjó at Móbergi, Gríss var þingmaðr hans. Þorkell krafla bjó þá at Hofi en Ingólfr var dauðr. Þenna vetr orti Hallfreðr vísur um Grís, ok er Gríss frá þat, fór hann til móts við Húnröð ok bað hann ráðagerðar, þvíat Hallfreðr herðir at eins fjándskap við mik. Húnröðr mælti: þess fýsi ek þik at þú búir mál til ok stefnir Hallfreði til Húnavatnsþings. Gríss gerði svá, reið suðr um várit til Hreðuvatns, þvíat þeir Galti ok Hallfreðr bjuggu þar þá. Gríss stefndi Hallfreði um víg Einars til Húnavatnsþings; ok er þeir vóru brottu, mælti Galti við Hallfreð: hver er tilætlan þín um mál þetta? Hallfreðr svarar: ek ætla at sækja traust Þorkels mágs míns. Þeir riðu sunnan um várit ok vóru saman XXX; þeir gistu at Hofi. Hallfreðr spurði Þorkel, hvert traust hann skyldi þar eiga. Þorkell kvaðst mundu veita at málum ef boðin væri nokkur sæmd. Nú koma menn til þings, ok á þinginu géngu þeir Hallfreðr ok Galti til búðar Þorkels ok fréttu hvar koma skyldi. Hann segir: ek mun bjóðast til gerðar, ef þér vilit þat hvárirtveggju, ok mun ek þá leita um sættir. Ganga þeir nú út ór búðinni, en Brandr Ávaldsson, bróðir Kolfinnu, lá á búðarveggnum; hann hjó Galta banahögg í því er hann gékk út. Hallfreðr sagði Þorkatli vígit. Þorkell gékk með honum til búðar Gríss ok bað hann fram selja manninn, ella munu vér brjóta upp búðina. Þá hljóp Hildr með Brandi í dyrnar, ok spyrr hvat Þorkell vildi; hann segir eyrindit. Hildr mælti: eigi mundi þér þat í hug at drepa son minn, þá er ek skaut þér undan skikkjuskauti mínu ok firða þik bana eptir víg Glæðis, þá er þeir Þorgils ok Þorvaldr vildu drepa þik. Þorkell mælti: liðit er nú þat; gangi konur út ór búðinni ok viljum vér leita mannsins. Brandr var faldinn, ok komst hann svá út, ok hittist hann eigi. Þorkell kvað hann farinn mundu til búðar Húnröðar. Hallfreðr mælti þá: grunr er mér nú á um

liðveizluna, ok býð ek nú Grísi hólmgöngu. Gríss kvað hann þat boðit hafa fyrr [sem hann átti at beiða]. Þá kvað Hallfreðr vísu:

Þá mun reyndr at ráðnu[1]
róghnykkjundum[2] þykkja
míns[3] at málma sennu
minn hugr við Kolfinnu:
ef svá at [órr á eyri[4]
uppsátrs boði máta,
vel hyggjum þat, viggjar
vísar mér at grísi.

Gríss hafði í hendi sverðit þat er Garðskonungr hafði gefit honum. Hallfreðr sá einn dag hvar Kolfinna gékk. Hann kvað vísu:

Þykki mér er ek þekki
þunnísunga gunni
sem fleybrautar fljóti
fley meðal tveggja eyja,
en þá er sér á ságu
saums í kvenna flaumi
sem skrautbúin skríði
skeið með gyldum reiða.

Þat var um nóttina áðr þeir skyldu berjast, at Hallfreðr svaf í sæng sinni; honum þótti Ólafr konungr koma at sér, ok þóttist hann verða feginn ok þó hræddr. Konungr mælti: svefns er þér, en þó mun þér sem þú vakir, þú ætlast úgott ráð fyrir, at berjast við Grís við ill málaefni, en hann hefir svá fyrir mælt ok beðit guð, at sá ykkarr skyldi sigr fá, er betri málaefni hefði; haf ráð mitt, tak með þökkum at engi hólmganga verði, ok bæt fé. En á morgin er þú ert klæddr, gakk út á holt þat, er hjá þingstaðnum er þar sem götur mætast; menn muntu sjá ríða ok haf við þá tal, ok kann vera at þér þikki þá annat meira vert en hólmganga Gríss, ok hirð

[1] und röndu Flatb., *wohl besser*. [2] roghnykkjandinn *Hds.* [3] manns Flatb., *wohl besser*. [4] *So die Hds.*

eigi þótt honum þikki sem þú hræðist. Hallfreðr vaknar, ok íhugar hvat fyrir hann hefir borit ok segir þeim manni er hjá honum var. Sá svarar: hræðist þú nú grísinn ok væri betra at hafa tekit fyrr gott ráð þá er hann mælti vel til, en nú mun virt af úvinum þínum sem þú þorir eigi at berjast. Hallfreðr mælti: virði þat hverr sem vill, hafa skal ek ráð Ólafs konungs, þau munu mér bazt gefast. Um morgininn gékk hann út á holtið ok sá menn ríða í litklæðum at sér; hann spurði þá tíðinda, en þeir sögðu fall Ólafs konungs. Hallfreðr varð svá við sem hann væri steini lostinn, ok gékk þegar heim til búðar með miklum harmi ok lagðist þegar niðr í rúm sitt. Þá mæltu Gríss menn, at honum yrði lítilmannliga. Gríss svarar: þat er ekki á þá leið: minna sóma hafða ek af Garðskonungi, ok þóttu mér þau mest tíðindi, er ek mista höfðingja míns, er heit lánardrottins-ást, ok er gott, er ek skal eigi berjast við konungs-giptuna; vil ek enn at Þorkell dæmi sem ætlat var. Þorkell mælti: ek mun nú taka máli fyrir Hallfreð ok sætta ykkr. Þessu játti Hallfreðr. Þat er gerð mín, segir Þorkell, at víg Einars komi fyrir víg Galta ok þar með heimsókn við Kolfinnu fyrir manna [mun], en fyrir Gríss-vísur skal Hallfreðr gefa Grísi grip einn góðan. Þá kvað Hallfreðr vísu:

Auðs hefek illrar tíðar
alldrengiliga fengit,
mik hefir gjöllu[1] gulli
gramr ok jarl of[2] framdan:
ef glapskyldir gjalda,
gjálfrteigs ok hefeg eigi
mörk, fyrir minstan verka
matvísum skal ek Grísi.

Þorkell bað hann hætta verkanum, ok lát fram grip nokkurn þótt eigi sé af konungsnautum. Þá lét Hallfreðr fram hringinn Sigvaldanaut, ok skildu at því.

---

[1] gæddan *Hds. unrichtig.* [2] ok *Hds.*

## AF HALLFREÐI. CAPITULUM

Síðan fór Hallfreðr suðr um heiði ok fékk búit í hendr Val- 11
gerði systur sinni, en hann fór utan í Kolbeinsárósi ok kom við Orkneyjar; þaðan fór hann til Noregs ok kom á Sognsæ um vetrnátta skeið, ok spurði þá at um fall Ólafs konungs. Hann orti þá Ólafsdrápu ok er þetta stef í:

Norðr[1] eru öll um orðin
auð lönd at gram dauðan,
allr lemsk friðr af falli
flugstyggs sonar Tryggva.

Honum þótti svá mikit um fall Ólafs konungs at hann undi engu ok ætlaði suðr til Danmerkr eða austr til Svíþjóðar. Þeir lögðu í einn leynivág. Þat spurði Hallfreðr at Eirekr jarl var þaðan eigi langt á brott á land upp. Þat gerði hann sér í hug at drepa jarl þótt þegar væri hann drepinn; ok um nóttina dreymdi hann at Ólafr konungr kæmi at honum ok mælti: þetta er únýtt ráð er þú ætlast fyrir, yrk heldr drápu um jarl. Um morgininn eptir gékk Hallfreðr á bæ þann er jarl var, ok at stofu þeirri er jarl drakk inni. Hallfreðr var kendr; hann var tekinn ok færðr jarli, jarl vildi láta drepa hann fyrir þat er hann meiddi Þorleif spaka, ok bað fjötra hann, en er fjöturinn var borinn at honum, þá þreif hann til ok hnykti af þeim er á hann skyldi leggja, ok laust í höfuðit svá at sá hafði þegar bana. Jarl bað þegar drepa hann at hann gerði eigi fleira illt. Gamall maðr reis upp utar á bekkinn ok gékk fyrir jarl ok bað hann gefa Hallfreði líf, ok var þat Þorleifr enn spaki. Þá mælti jarl: þat er úmakligast at þú biðir honum griða, eðr mantu eigi at hann meiddi þik? Þorleifr svarar: þat vil ek, herra, at Hallfreðr hafi grið. Jarl kvað svá vera skyldu sem hann vildi. Þorleifr tók Hallfreð í sveit sína; hann mælti við Hallfreð: viltu at ek dæma með jarli ok þér? Hallfreðr kvaðst þat gjarna vilja. Þá skaltu yrkja kvæði um jarl, ok haf gert innan

---

[1] Nú *Hds.*; *vgl.* Þiðreks s. af Bern (1853) *s.* 2; Ólafs s. Tryggv. Odds múnks (1853) *s.* 61.

þriggja nátta. Ok er III nætr vóru liðnar, þá færði Hallfreðr kvæðit, ok er þetta upphaf á:

Bærr er hróðr at heyra
hjaldrörr um þik gjörvan.

Jarl launaði honum vel kvæðit, en ekki vil ek þik með mér hafa sakir Ólafs Tryggvasonar. Þorleifr bauð Hallfreði til sín, ok þangat fór hann. Þorleifr reyndist honum hinn bezti drengr; ok at sumri fór Hallfreðr út til Íslands ok kom skipi sínu í Leiruvág fyrir sunnan land. Þá bjó Önundr at Mosfelli. Hallfreðr átti at [gjalda][1] hálfa mörk silfrs húskarli Önundar ok svaraði heldr harðliga. Kom húskarlinn heim ok sagði sín vandræði. Hrafn kvað slíks ván at hann mundi lægra hlut bera í þeirra skiptum. Ok um morguninn eptir reið Hrafn til skips ok ætlaði at höggva strengina ok stöðva brottferð þeirra Hallfreðar. Síðan áttu menn hlut í at sætta þá, ok var goldit hálfu meira en húskarl átti, ok skildu at því. Annat sumar eptir áttu þeir Hallfreðr ok Gunnlaugr ormstunga ferð saman ok kómu á Melrakkasléttu, en þá hafði Hrafn fengit Helgu. Hallfreðr sagði Gunnlaugi, hversu vel honum hafði vegnat ok Hrafni. Hallfreðr var lengstum í ferðum, ok undi sér engu eptir fall Ólafs konungs. Hann fór til Svíþjóðar, at vitja Auðgils sonar síns ok fjár síns, hann ætlaði þar at festast, þá var Hallfreðr nær fertugum manni, er hann ætlaði til Íslands at sækja fé sitt; Hallfreðr son hans var þá með honum; þeir höfðu útivist harða. Hallfreðr jós at sínum hlut ok var þó sjúkr mjök. Ok einn dag er hann gékk frá austri, settist hann niðr á ásinn, ok í því laust áfall hann niðr í skipit ok ásinn ofan á hann. Þá mælti Þorvaldr: er þér, bróðir, erbitt við orðit? Hallfreðr kvað vísu:

Hnauð við hjarta ok síðu
hereggblásnum mér ási,
svá hefir yðr at öðru
áfall tekit varla;
marr[2] hnauð mínum knerri,
mjök em ek vátr of látinn,

[1] *fügt hinzu* Flatb. [2] meirr *Hds.*

muna úrþvegin[1] eira
aldan sínu skaldi.

Þeir þóttust sjá sótt á honum ok leiddu hann aptr eptir skipinu, ok bjuggu um hann, ok spurðu hversu honum segði hugr um sik. Hann kvað vísu:

Rind[2] mun hvítri hendi
hördúks um brá mjúka,
fljóð gat fremdar æði[3],
fjölerrin mjök þerra,
ef dauðan mik meiðar
morðveggs skulu leggja,
áðr var ek úngu fljóði,
út um borð, at sútum.

Þá sá þeir konu ganga eptir skipinu, hon var mikil ok í brynju; hon gékk á bylgjum sem á landi. Hallfreðr leit til ok sá at þar var fylgjukona hans. Hallfreðr mælti: í sundr segi ek öllu við þik. Hon mælti: viltu, Þorvaldr, taka við mér? Hann kvaðst eigi vilja. Þá mælti Hallfreðr ungi: ek vil taka við þér. Síðan hvarf hon. Þá mælti Hallfreðr: þér, son minn, vil ek gefa sverðit konungsnaut, en aðra gripi skal leggja í kistu hjá mér, ef ek öndumst [hér á skipinu. Þá kvað hann vísu þessa:

Ek munda nú andast,
ungr var ek harðr í tungu,
senn af sálu minni,
sorglaust, vissa ek borgit;
veit ek at vætki of sýtig,
valdi guð hvar aldri,
dauðr verðr hverr, nema hræðumk,
helvíti, skal slíta.[4]

Litlu síðarr andaðist hann, ok var í kistu lagðr ok gripir hans með honum, skikkja, hjálmr, ok hringr ok skotið síðan fyrir borð öllu saman. Kistan kom í Eyna helgu í Suðreyjum ok fundu sveinar

---

[1] þægin *Hds.* [2] Sprund *Hds.* [3] orði *Hds.* [4] *aus* Fms III, 27-28.

ábóta. Þeir brutu upp kistuna ok stálu féinu en söktu líkinu í fen mikit. Ábóta dreymdi þegar um náttina at Ólafr konungr kæmi at honum, hann var reiðuligr ok kvað hann illa sveina eiga, hafa þeir brotið skip skálds míns ok stolit fé hans en bundit stein við háls honum; nú haf þú sannar sögur af þeim, ella munu yðr henda hver undr. [Síðan] vóru sveinar teknir ok géngu þeir við ok var þeim gefit frelsi. Lík Hallfreðar var flutt til kirkju ok var grafit virðuliga; kalekr var gerr af hringinum, en altarisklæði af skikkjunni, en kertastikur or hjálminum. Þeir Þorvaldr tóku land ok fóru á Óttarsstaði ok vóru þar um vetrinn. Þorvaldr fór utan um sumarit, en Hallfreðr gerði bú á Óttarsstöðum; hann var kallaðr vandræðaskáld, hann var mikilmenni ok gæfumaðr; er mart manna frá honum komit. Lýkr þar at segja frá Hallfreði.

## ANHANG ZU HALLFREÐAR SAGA AUS HEIMSKRINGLA ÓLAFS SAGA TRYGGVASONAR kap. 90. 113

90. Ólafr konungr gékk einn dag úti á stræti, en menn nokkurir géngu í móti honum, ok sá er fyrstr gékk fagnaði konungi. Konungr spurði þann mann at nafni; sá nefndist Hallfreðr. Þá mælti konungr: ertu skáldit? Hann sagði: kann ek yrkja. Þá mælti konungr: þú mant vilja taka kristni ok gerast síðan minn maðr. Hann segir: kostr skal á því vera, at ek man skírast láta, ef þú, konungr, veitir mér sjálfr guðsifjar; af engum manni öðrum vil ek þat þiggja. Konungr svarar: ek vil þat gera. Var þá Hallfreðr skírðr, ok hélt konungr honum undir skírn. Síðan spurði konungr Hallfreð: viltu nú gerast minn maðr? Hallfreðr sagði: ek var fyrr hirðmaðr Hákonar jarls; nú vil ek eigi gerast þér handgenginn ok engum öðrum höfðingjum, nema þú heitir mér því, at mik hendi enga þá hluti, er þú rekir mik frá þér. Svá at einu er mér sagt, segir konungr, at þú er eigi svá vitr eða spakr, at mér

er örvænt, at þú gerir þá hluti, er ek vil fyrir engan mun viðsæma. Dreptu mik þá, segir Hallfreðr. Konungr mælti: þú ert vandræðaskáld, en minn maðr skaltu nú vera. Hallfreðr svarar: hvat gefr þú, konungr, mér at nafnfesti ef ek skal heita vandræðaskáld? Konungr gaf honum sverð ok fylgði engi umgerð. Konungr mælti: yrk nú vísu um sverðit, ok lát sverð vera í hverju vísuorði. Hallfreðr kvað:

Eitt er sverð þat er sverða . . . (*siehe Seite* 96.)

Þá fékk konungr honum umgerð ok mælti: eigi er sverð í hverju vísuorði. Hallfreðr svarar: tveir eru ok í einu. Svá er þat, segir konungr. — Af Hallfreðar kvæðum tökum vér helzt vísindi ok sannindi þat er sagt er frá Ólafi konungi Tryggvasyni.

113. . . . . Hallfreðr vandræðaskáld hafði komit um sumarit [*im Jahr* 999] austan af Gautlandi, hafði hann verit með Rögnvaldi jarli Úlfssyni er þá var kominn til ríkis í Vestra-Gautlandi. Úlfr faðir Rögnvalds var bróðir Sigríðar hinnar stórráðu; vóru þeir systkynasynir, Ólafr konungr sænski ok Rögnvaldr jarl. Segir Hallfreðr Ólafi konungi mart af jarli, sagði at hann var hraustr höfðingi ok stjórnsamr, örr af penningum, drenglyndr ok vinhollr; sagði Hallfreðr þat ok með, at jarl vildi hallast til vináttu við Ólaf konung, ok hafði þat talat, at hann vildi biðja Ingibjargar Tryggvadóttur. Á þeim vetri kómu austan af Gautlandi sendimenn Rögnvalds jarls, ok fundu Ólaf konung norðr í Níðarósi; báru þar fram erindi jarls fyrir konung, öll slík sem Hallfreðr hafði áðr orði á komit, at jarl vildi vera fullkominn vin Ólafs konungs, ok þar með mælti jarl til mægða við konung, ok vildi fá Ingibjargar, systur hans. . . . .

# FLÓAMANNA SAGA

Haraldr konungr gullskeggr réð fyrir Sogni, hann átti Sólvöru dóttur Hundólfs jarls, systur Atla jarls mjófa, þeirra dætr vóru þær Þóra, er átti Hálfdan konungr svarti Upplendingakonungr, ok Þuríðr, er átti Ketill helluflagi. Haraldr konungr ungi var son þeirra Hálfdanar ok Þóru, honum gaf Haraldr konungr gullskeggr nafn sitt. Haraldr konungr gullskeggr andaðist fyrst þeirra en þá Þóra, þá Haraldr ungi síðast, ok bar svá ríkit undir Hálfdan svarta, en hann setti þar yfir Atla jarl hinn mjófa. Síðan fékk Hálfdan konungr Ragnhildar dóttur Sigurðar konungs hjartar. Áslaug var móðir Sigurðar hjartar, dóttir Sigurðar orms í auga, Ragnarssonar loðbrókar. Móðir Sigurðar orms í auga var Áslaug dóttir Sigurðar Fáfnisbana, Sigmundarsonar, Völsungssonar, Rerssonar, Sigarssonar, Óðinssonar er réð fyrir Ásgarði. Móðir Áslaugar var Brynhildr Buðladóttir. Son Hálfdanar svarta ok Ragnhildar var Haraldr, er fyrst var kalladr Dofrafóstri en þá Haraldr lúfa en síðast Haraldr enn hárfagri. Þá er Haraldr enn hárfagri gékk til ríkis í Noregi, þá mægðist hann við Hákon jarl Grjótgarðsson ok fékk hann þá Sygnafylki Hákoni mági sínum, en Haraldr konungr fór í Vík austr, en Atli jarl vildi eigi laust láta ríkit fyrr en hann fyndi Harald konung. Jarlarnir þreyttu þetta með kappi svá at hvárrtveggi dró lið saman. Þeir fundust á Fjölum í Stafanesvági, ok fékk Hákon jarl sigr en Atli jarl varð

sárr ok var fluttr í Atlaey ok dó þar ór sárum. Atli jarl átti eptir þrjá sonu: hét einn Hallsteinn hann var ellztr ok vitrastr þeirra bræðra, þá Hersteinn ok Hólmsteinn. Hallsteinn[1] átti Þóru Ölvisdóttur. Þeir bræðr lágu í hernaði.

Björnólfr hét maðr en annarr Hróaldr; þeir vóru ágætir 2
menn, þeir vóru synir Hrómundar Gripssonar, þeir fóru af Þelamörk fyrir vígasakir ok staðfestust í Dalsfirði á Fjölum. Son Björnólfs hét Örn, er réð fyrir Firðafylki; hans son var Ingólfr en dóttir Helga; bæði vóru þau fríð at sjá; en son Hróalds var Hróðmarr[2] faðir Leifs. Þeir Ingólfr ok Leifr vóru frændr ok fóstbræðr. Móðir Leifs var Hróðný dóttir Ketils bifru Hörða-Kárasonar. Þá var Ingólfr XX vetra er þetta var, en Leifr XVIII vetra. Ingólfr gékk fyrir föður sinn ok segir honum at hann vill halda í hernað, ok bað hann afla nokkurs. Leifr gékk ok fyrir sinn föður biðjandi hann slíks hins sama, ok vóru þeim gefin mörg langskip. Biðja nú síðan samlags við sonu Atla jarls; þeir vóru fúsir þessa við Ingólf, en þat vóru lög í þann tíma, at eigi skyldi yngri maðr vera í herförum en XX vetra, en elligar vildu þeir gjarna Leif í lög taka. Leifr svarar: ef vér komum í nokkura raun, sjám þá ef ek stend at baki öðrum, gefumst ek ok eigi verr en aðrir, þá á ek ekki at gjalda æsku minnar. Ingólfr sagði þá báða fara skyldu ella hvárigan; verðr þat af kjörum at þeir fara allir samt ok leggjast í hernað, ok er svá sagt, at Leifr var hvatr ok röskr í öllum mannraunum. Ingólfr var vitr maðr ok ágætr í öllum álögum ok allri karlmensku. Þeim varð gott til fjár um sumarit ok kvómu heim um haustið. Hróðmarr[3] var þá andaðr faðir Leifs. Nú mæla þeir mót með sér annat sumar, ok héldu þá enn í hernað allir saman, ok féngu þá miklu meira herfang enn it fyrra sumarit; ok sem þeir kvómu heim um haustið var Örn faðir Ingólfs andaðr. Hallsteinn býðr þeim fóstbræðrum Ingólfi ok Leifi heim til veizlu, ok þat þágu þeir; ok at skilnaði gaf hann þeim góðar gjafir. Síðan buðu þeir fóstbræðr

---

[1] Hólmsteinn *Hds.* [2] *So* Lndn. I, 3; Hrómundr *Hds.* [3] Hrómundr *Hds.*

þeim jarlssonum til veizlu; þeir bjóða ok at sér miklu fjölmenni, ok vilja eiga undir [sér] meira ef nokkut kann í at skerast. Nú koma þeir bræðr til veizlunnar, ok er mönnum skipat í sæti. Helga bar öl at veizlunni; hon var allra kvenna vænst ok kurteisust. Svá er sagt at Hersteinn lítr opt til hennar blíðliga, ok at þessarri veizlu strengði hann þess heit, at annathvárt skyldi hann Helgu eiga, eðr enga konu ella; kvaðst hann nú fyrstr hafit hafa þenna leik, ok áttu nú Ingólfr, segir hann. Ingólfr svarar: Hallsteinn skal nú fyrst um mæla, því hann er vár vitrastr ok várr formaðr at öllu. Hallsteinn mælti þá: þess strengi ek heit: þó at mér sé vandi á við menn, at ek skal eigi halla réttum dómi, ef mér er trúat til dygðar um. Hersteinn mælti: eigi er þessi heitstrenging þín þeim mun skýrligri sem þú ert reiknaðr vitrari en vér, eðr hversu muntu gera ef þú átt við vini þína um eðr úvini? Hallsteinn svarar: þar ætla ek mér sjálfum fyrir at sjá. Þess strengi ek heit, segir Ingólfr, at skipta við engan mann erfð nema við Leif. Eigi skiljum vér þetta, segir Hersteinn. Hallsteinn kvaðst gerla kunna þetta at sjá. Leifi vill hann gipta Helgu systur sína. Leifr strengði þess heit at vera eigi verrfeðrungr. Hallsteinn svarar: eigi mun mikit fyrir því, því faðir þinn fór fyrir illvirkja sakir af Þelamörk ok hingat. Nú þrýtr veizluna ok er ekki til samfara mælt af Hersteins hendi. Fóru jarlssynir heim frá veizlunni ok sátu í búum sínum um vetrinn ok svá þeir fóstbræðr, ok er nú allt kyrt.

3 Um várit vill Leifr í hernað en Ingólfr latti þess ok sagði þeim vera mál at setjast um kyrt at búum sínum, ok muntu muna heitstrengingar þær er fram fóru. Leifr svarar: þú ræðr fóstbróðir þínum ferðum, en fara mun ek; held ek skjótt undan ef úfriðligt er. Ingólfr kvað hann slíku mundu ráða. Skilja þeir nú við þetta; ferr Leifr í hernað, ok fundust þeir jarlssynir Hersteinn ok Hólmsteinn við Hísargafl,[1] þeir leggja at Leifi þegar ok slær þar þegar í bardaga; hafði Leifr III skip en þeir bræðr

[1] *So* Lndn. I, 4; Hysnargafl *Hds.*

VI skip; vinna þeir nú skjótt skip af Leifi. Af stundu sjá þeir at sigla at þeim V skip, stendr maðr á mesta skipinu við siglu, mikill ok fríðr, í grænum kyrtli ok hafði gyldan hjálm á höfði, ok mælti: við mikinn liðsmun áttu nú at etja, frændi, ok mun þat drengiligra at veita þér lið, Leifr frændi. Þar var kominn Ölmóðr enn gamli Hörða-Kárason. Hann berst þá með Leifi ok verða þau orrustulok at Hersteinn fellr en Hólmsteinn verðr sárr ok flýr. Ölmóðr mælti þá: far þú heim með mér eptir stórvirki þessi. Leifr mælti: skamt er heim í Fjörðu, ok hefir þú mikit lið ok gott mér veitt, frændi, vilda ek gjarna þú færir heim með mér. Eptir þetta skildu þeir, ok heldr Leifr til móts við Ingólf ok sagði honum allt hversu farit hafði. Ingólfr segir mikit vera at vorðit, ok biðr þá báða saman vera, ok svá gerðu þeir, ok héldu fjölment um vetrinn. Þann sama vetr fór Hólmsteinn at þeim Ingólfi ok Leifi, ok vildi hann drepa þá, en þeir féngu njósnir af ferð hans ok fóru í móti honum ok varð þá enn orrosta mikil, féll þar Hólmsteinn. Eptir þat dreif lið at þeim fóstbræðrum, vinir þeirra ok frændr ór Firðafylki; vóru þá sendir menn til Hallsteins, ok bjóða sættir, með því móti, at þeir vilja leggja undir dóm Hallsteins, sagðist Ingólfr honum vel trúa til réttdæmis ok bað hann muna heitstrenging sína. Hallsteinn kvað nú mikit at vorðit ok er nú mikill vandi í at dæma þetta mál, ok hefr svá sína ræðu: Hersteinn bróðir minn lízt mér sem unnit hafi til úhelgi sér, ok vil ek eigi fé fyrir hann dæma né mannsektir, en Hólmsteinn fór til hefnda eptir bróður sinn, ok því dæmi ek fyrir dráp hans fallnar eignir ykkrar ok báða ykkr burtu héðan ór Firðafylki áðr þrír vetr eru liðnir, ella falli þit úhelgir. Slíks var at ván, sagði Ingólfr. Síðan bjuggust þeir bræðr út til Íslands sem segir í Landnámabók. Við Ingólf er kendr Ingólfshöfði sunnanlands, ok lýkr þar nú þeirra viðskiptum.

Eptir fall Atla jarls mjófa safnaði liði Sigurðr jarl son 4
Hákonar gamla með ráði Haralds konungs ens hárfagra ok vildi drepa Hallstein. Við þetta stökk Hallsteinn undan, ok út til Íslands, fyrir þessum úfriði, sem þá gerðu margir gildir menn, at

þeir flýðu óðul sín fyrir ofríki Haralds konungs ok unnu áðr stórvirki nokkur. Hallsteinn skaut setstokkum fyrir borð í hafi til heilla sér eptir fornum sið. Þeim sveif á land þar sem síðan heitir Stokkseyrr, en skipit kom í Hallsteinssund fyrir austan Stokkseyri ok braut þar. [Setstokkarnir kómu fyrir dyrr á Stálfjöru fram frá Stokkseyri.[1] Víða höfðu menn þá land numit. Hallsteinn nam land milli Rauðár ok Ölfusár upp allt til Fúlalækjar[2] Breiðamýri alla upp at Holtum ok bjó at Stjörnusteinum. Hallsteinn átti Þóru Ölvisdóttur; Atli ok Ölvir vóru synir þeirra. Hallsteinssund er fyrir austan Stokkseyri þar sem braut skip Hallsteins.[3] Öllum mönnum þótti mikils vert um Hallstein, sagðist hann skyldu hér í lendast; var mönnum mikil öfusa á því þeim er í nánd honum vóru, ok þótti mikill höfutburðr at honum sakir ættar hans, varð Hallsteinn mikilmenni ok andaðist hann í elli sinni; ok eptir andlát hans skiptu þeir bræðr með sér erfðum, bjó Ölvir at Stjörnusteinum, þat heita nú Ölvistóptir; hafði Atli í móti allt landnám milli Rauðár ok Ölvusár, Traðarholt ok Baugsstaði. Ölvir andaðist ungr; tók Atli þá allan arf eptir hann ok gerðist mikilhæfr maðr. Þræll hans hét Brattr, hann var honum hollr í sýslu sinni; honum gaf Atli frelsi, hann bjó í Brattsholti; slíkt sama gerði hann við annan er Leiðólfr hét, hann bjó á Leiðólfsstöðum. Þeir vóru mikilhæfir menn ok vel vingaðir ok hollir mjök Atla.

5 Hallsteinn hét maðr, hann fór ór Sogni til Íslands, hann var mágr Hallsteins Atlasonar, honum gaf hann enn ytra hlut Eyrarbakka, hann bjó á Framnesi, hans son var Þorsteinn er veginn var at fauskagreptri[4], hans son var Þorbjörn er bjó á Framnesi. Í þenna tíma kom út Loptr son Orms Fróðasonar. — Nú er at segja frá Atla at hann var ríkr maðr ok hlutdeilinn ok líkr í mörgu lagi frændum sínum. —Loptr fór af Gaulum til Íslands ungr at aldri ok nam land á milli Þjórsár ok Rauðár upp til Skúfslækjar, Breiða-

---

[1] [*fehlt in* AM. 515. [2] Fyllarlækjar Lndn. V, 9. [3] en setstokkar hans kómu á Stallfjöru, ok vóru hafðir fyrir dyribranda á Stokkseyri, *fügt zu* AM. 515. [4] *So* Lndn. V, 9; fálkagreptri *Hds. unrichtig.*

mýri upp til Súluholts, ok bjó í Gaulverjabæ ok Oddný móðir hans dóttir Þorbjarnar ens gaulverska. Loptr fór utan et þriðja hvert sumar fyrir hönd þeirra Flosa beggja móðurbróður síns, at blóta at hofi því er Þorbjörn móðurfaðir hans hafði varðveitt at Gaulum. Frá Lopti er mart stórmenni komit. Þá kom út Þorviðr [1] bróðir hans af Vörs. Loptr gaf honum land á Breiðamýri ok bjó hann í Ossabæ. Hans börn vóru þau Hrafn ok Hallveig. Þessir menn vóru nú allir samtíða.

Flosi Þorbjarnarson móðurbróðir Eyrar - Lopts drap þrjá 6
sýslumenn fyrir Haraldi konungi hárfagra ok fór eptir þat til Íslands; hann nam land fyrir austan Þjórsá, Rangárvöllu alla ena eystri austr frá Rangá, hans dóttir var Ásný, [2] móðir Þuríðar, er átti Valla-Brandr; son þeirra var [Flosi, faðir Kolbeins, föður Guðrúnar [3], móður Lopts prests, föður Jóns, föður Sæmundar, föður Margrétar, móður Brands, föður Kálfs. — Özurr hét maðr hinn hvíti son Þorleifs or Sogni. Özurr vá víg í véum á Upplöndum þá er hann var í brúðferð með Sigurði hrísa; fyrir þat varð hann landflótti til Íslands, ok nam fyrst öll Holtalönd á milli Þjórsár ok Hraunslækjar; þá var hann XV vetra, er hann vá vígit; hann fékk Hallveigar dóttur Þórviðar; þeirra son var Þorgrímr kampi, hann var faðir Özurar, föður Þorbjarnar, föður Þórarins, föður Gríms Jórusonar [4]. Özurr bjó i Kampholti, hann andaðist þá er Þorgrímr var ungr, þá tók við fjárvarðveizlu Rafn móðurbróðir hans. Böðvarr hét maðr, hann var leysingi Özurar, hann bjó á Böðvarsstöðum við Víðiskóg; honum gaf Özurr hlut nokkurn í skóginum, mælti svá fyrir, at hann skildi sér skóginn ef misdauði þeirra yrði ok ætti Böðvarr öngan erfingja eptir. Örn hét maðr, hann bjó í Vælugerði, hann átti Þorgerði Baugsdóttur systur Ste[i]na snjalla í Snjallshöfða. Erni varð vant um haustið LX geldinga, ok hefir eigi góðan róm á Böðvari, ok berr á brýn

---

[1] *So* Lndn. V, 8; *vgl. cap.* 6. Þormóðr *Hds.* [2] *So* Lndn V, 7; Þórunn *Hds.* [3] *emendirt nach* Lndn. V, 7; [Kolbeinn faðir Þórunnar, *Hds.* [4] Tófusonar, Lndn. V, 10.

honum, at hann muni tekit hafa. Böðvarr duldi þess ok unni honum öngra bóta fyrir, þóttist sitja í trausti ríkra manna, er Rafn var Þorviðarson, frændi Eyrar-Lopts. Um várit stefnir Örn Böðvari um stuld; þikkist Böðvarr sér nú eigi einhlítr um varnir málsins, ok sækir at Atla Hallsteinsson, þvíat hann var honum nærr en Rafn, ok tjár honum málit. Atli segir at eigi sé örvænt at menn finni gagnsakir í máli Arnar. Eptir þat tók Atli við öllu fé Böðvars með handsölum; stendr nú svá til þings. Á þingi er mál búit til sóknar á hendr Böðvari, ok kom málit í dóm. Þá gékk at dómum Atli með fjölmenni ok bað Örn fella niðr málit, elligar mun ek únýta þat fyrir þér. Örn kvaðst ætla at eigi mundi únýtt verða nema með ofríki; má vera, segir Örn, at torsótt verði at eiga við jarlborna menn sem þú ert, Atli; hygg ek meirr eyðir þú málit fyrir fégirni þína en réttindi, sem frændr þínir hafa gert. Við þessi orð varð Atli reiðr mjök, ok eyðir málit fyrir Erni, ok hrekr hann sem mest af málinu.

7 Litlu síðarr andast Böðvarr. Eptir andlát hans kallaði Rafn til Víðiskógsins fyrir hönd Þorgríms kampa, ok bannar Atla afneyzlu skógarins, ok sagði honum máldaga þeirra Özurar ok Böðvars ok leiddi vitni um. Atli kvaðst ætla at láta eigi sitt fyrir Rafni, kvað hann lítt minnast á þat er faðir hans gaf honum sitt land. Rafn kvað þat fyrir löngu aptr bætt, ok kvaðst vilja hafa sitt. Atli varnaði honum skógarins, ok skildu at því. Einhvern dag býr Atli ferð sína til Víðiskógar; Leiðólfr leysingi hans var í ferð með honum ok húskarlar tveir; þeir hjuggu skóginn. Þat er sagt at sauðamaðr Rafns hafði gengit at fé um daginn, hann getr at líta hvar þeir eru í skóginum; hann hleypr heim sem skjótast, ok segir Rafni at Atli mun nú hafa nytjar af skóginum slíkar sem honum sýnist, höggva þeir þar sem beztr er skógrinn, ok er þat at vánum, at ekki hafir þú þrek við jarlbornum mönnum. Rafn varð mjök reiðr við þessu sögu, ok býr ferð sína þegar ok ferr við enn átta mann þar til er þeir kvómu í dal þann er síðan er kallaðr Orrustudalr, ok þar finnast þeir Atli. Þá mælti Atli: við liðsmun viltu nú etja, Rafn. Þat skal fyrirfurða um burðamuni,

segir Rafn. þegar slær í bardaga með þeim, ok sækjast þeir Atli ok Rafn, ok verða þeirra viðskipti harðfeng. Leiðólfr verst ok vel, ok vill nú launa frelsisgjöfina [1], ok um síðir vill hann flýja ok féll hann þá ok hafði þó mann fyrir sik. Atli drap einn húskarl Rafns ok sótti Rafn hann þó; tveir féllu menn Rafns en [Atli] var þá særðr til úlífis.

Önundr [2] bíldr hét maðr ok var landnámsmaðr, hann nam 8
land fyrir austan Hróarslæk ok bjó í Önundarholti, hann átti þorgerði dóttur Sigmundar Sighvats sonar rauða. Sigmundr var faðir Marðar gígju. Önundr [3] kom nú at skilja þá Atla ok Rafn, ok fylgði Atla heim ok bað hann til sín fara, ok skal ek veita þér öll hægindi. Atli kvað þat vel boðit, en heim kvaðst hann vilja í Traðarholt, ok lét eigi örvænt, at þat fylgði nafni, at hann dæi af sárum sem Atli jarl föðurfaðir hans. þórðr hét son Atla, hann var IX vetra er þetta var tíðinda. Atli heimti hann til sín, ok kvaðst ætla, at hann mundi af sárum deyja; áttu, segir hann, allt fé eptir mik, ok ef þú ert þínum frændum líkr, þá muntu hefna föður þíns, ok svá segir mér hugr um at þú munir verða mikill fyrir þér ok þínir ættmenn. Eptir þat andaðist Atli heima í Traðarholti, ok var hann heygðr sem þá var siðvenja til. þórðr tók við fé öllu ok ráðum eptir föður sinn; hann var fríðr sýnum, bráðþroskaðr ok mikill fyrir sér. Ölvir hét son Atla annarr ok kallaðr Ölvir mjófi. þeir bræðr vóru úskaplíkir. þórðr varðveitti bú í Traðarholti, en Ölvir réðst í kaupferðir þegar á unga aldri ok var áburðarmaðr mikill; síðan réðst hann í hernað, ok var hinn mesti víkingr. At lyktum settist hann at búum í Sogni ok kom aldri til Íslands. þá réð fyrir Noregi Eirekr blóðöx.

þá var þórðr XV vetra gamall er hann hugsar um föður- 9
hefndir. Rafn var garpr mikill en þórðr þóttist ungr. Svá er sagt eitthvert sinn, at þórðr frétti at Rafn var riðinn út í Einarshöfn til skips, ok var einn í reið ok ætlaði heim um kveldit. Rafn

[1] ‚*Membr.* lífgjöfina *sed prave*,‘ Árni Magnússon *am Rande*. [2] u. [3] ‚Amdr‘ Árni Magnússon *am Rande*.

var í blárri kápu ok gyrðr sverði ok hafði spjót mikit í hendi ok gullrekinn á falrinn. Þeir feðgar höfðu átt spjót þat; hann hafði eigi við bardaga búizt. Þórðr sitr fyrir Rafni [hjá Haugavaði[1] ofan frá Traðarholti einn samt; hann hafði spjót í hendi, ok vill nú annathvárt hefna föður síns eðr fá bana. Ok um kveldit er Rafn ríðr heim, hljóp Þórðr at honum úvörum ok lagði á honum spjótinu. Rafn féll af baki, ok skildi Þórðr við hann dauðan, ok er þar haugr hans fyrir austan götuna, en fyrir vestan er Atla haugr ok Ölvishaugr ok Hallsteinshaugr. Þórðr ferr nú heim ok þikkir hann vaxit hafa af þessu verki. Síðan er leitað um sættir við Þórð af mágum Rafns ok frændum. Þórðr kvaðst þat mundu sýna, at hann er eingi újafnaðarmaðr, en kvað sik nauðsyn til reka at hefna föður síns, kvað þat skyldu sína sætt, at í faðma féllist allt þat er í hafði gerzt. Þessi sætt játtuðu frændr Rafns, því þeim þótti þetta eingi újafnaðr, ok sættust heilum sáttum. Þórðr gerðist ágætr maðr; hann fékk Þórunnar dóttur Ásgeirs austmannaskelfis; var hann af því svá kallaðr, at hann drap skipshöfn í Grímsárosi, fyrir þat er hann var áðr ræntr af þeim. Ásgeirr var hit mesta mikilmenni. Þórunn var ok skörungr mikill. Þórðr eignaðist skóg þann er þeir höfðu deilt um. Þá er Þórðr hafði II vetr ok XX, þá keypti hann skip í Knarrarsundi, ok vildi utan fara ok heimta erfðir sínar þær er frændr hans höfðu átt í Sogni, ok konungr hélt, ok kvað Þórunni fara skyldu, en hon kvaðst vilja eptir vera ok kvað þat ráðligra. Þórðr reiddist við þessi orð ok tók mikit fé er hann átti ok fal í jörðu. Þórunn mælti þá: þat máttu gera at fela féit, en svá segir mér hugr um, at litlar nytjar munir þú hafa fjár þess, er þú átt í Noregi ok svá hér. Síðan tók hon við öllum eignum þeirra.

10 Þorgils hét son þeirra, hann var tvævetr er Þórðr fór utan. Þat skip hvarf ok spurðist ekki til síðan, ok vetri síðarr kom út Þorgrímr örrabeinn í Knarrarsundi,[2] hann var Þormóðarson; hans

---

[1] *So* Lndn. V, 10; [í Hagavági *Hds. unrichtig.* [2] *So* Lndn. V, 10; Bjarnarsundi *Hds.* (*sieh Zeile* 21)

móðir var þuríðr Ketilbjarnardóttir at Mosfelli. þorgrímr var hraustmenni mikit; hann var í Traðarholti um vetrinn með þórunni, ok var henni hit mesta traust at honum, ok líkaði henni vel við hann ok bað hann með sér dveljast ok ráða sjálfan kaupi; hann kvaðst þat vilja ok mælti til samfara við hana, kvaðst elligar eigi þar vera mundu hjá henni nema hon giptist honum; hon hugsar þetta með ráði vina sinna ok frænda; þat var [1] þrem vetrum síðarr, þvíat hon vildi reynast hugum við hann ok skap sitt. þá er III vetr vóru liðnir fékk hann þórunnar, ok vóru samfarar góðar þeirra í milli. þorgrímr þótti enn mesti garpr ok heldr údæll, hafði hann verit víkingr, ok víða af því örróttr, ok af því var hann kallaðr örrabeinn, en þorgils stjúpson hans var kallaðr örrabeinsstjúpr. þorgrímr var góðr forstjóri heraðsins, hann var vel til þórunnar ok sonar hennar þorgils. þar stóð mikit fé saman er þau áttu öll. — þat er sagt eitt sumar, er menn kvómu til mannamóts í fjörbaugsgarð til Lóns. [2] þá var þorgils fimm vetra er hann fór þangat, ok vildi vera at sveinaleik; markar sér völl ok kvaðst vilja at vera. Sveinar sögðust hafa sammælzt á, at sá einn skyldi at leiknum vera, er nokkru kvikindi hefði at bana vorðit; réðst þorgils þá frá leikinum, ok þótti þó illa, er hann var fráskila gerr. Um kveldit fara menn heim. þorgrímr var at öllu fé auðigr, hann átti mart kvikfé, bæði sauði ok naut. Einn hestr hét Illingr, er hann átti, þat var klárr úkostigr; ok er menn vóru sofnaðir um nóttina, þá vakir þorgils, ok íhugar sitt mál, ok vildi eigi optarr or leikinum gerr vera; hann stóð upp ok tekr sér beils [3] ok gékk út síðan ok sá hross hjá garði; hann snýst þangat til ok tekr hestinn Illing ok leiðir til húss nökkurs, síðan tekr hann spjót í hönd sér ok gengr at hestinum ok rekr spjótið í kviðinn ok fellr hann dauðr niðr. þorgils legst niðr síðan. Um morguninn er mönnum var til verks skipat, bað þorgrímr heim reka Illing, en

---

[1] *Hier scheinen einige Wörter ausgefallen zu sein.* [2] *So hat es ohne Zweifel auch in der Membrane gestanden; viele von den Abschriften haben dies fälschlich in* Jóns *oder* leika *umgeändert.* [3] *So hat in der Membrane gestanden*; *sieh Seite* 62

hann fanst eigi; var Þorgrími sagt þetta, hann kvað hestinn þar verit hafa um kveldit ok bað enn leita; fara þeir ok finna dauðan hestinn, segja Þorgrími, hann kvaðst eigi sjá mann til þess at girnast at eiga illt við hann. Þorgils svarar: ek veldr því at hestrinn er dauðr. Þorgrímr spurði hví hann gerði þat. Þorgils sagði hver sök til var. Ekki munum vit eiga skap saman, segir Þorgrímr; far þú nú til Lopts vinar þíns, því[at] eigi verðum vit samlyndir.

11 Eptir þat fór Þorgils í brott enn sama dag ok til Lopts ok tók hann við honum ágæta vel. Svá er sagt at Þorgils var fríðr maðr sýnum ok drengiligr í viðbragði ok skýrligr, hár á vöxt ok réttvaxinn, sterkr at afli, harðgerr ok skjótráðr, gegn ok öruggr, örðigr ok allra manna bezt vígr, ok enn hraustasti í öllum mannraunum þegar honum drógst aldr, sem frá mun verða sagt; hann var stórlyndr ok þó stöðugr, hjartaprúðr ok hugstórr, stóðst vel margar mannraunir er hann hlaut at bera. Þat er sagt [at] þá er Þorgils var IX vetra gamall, beiddist hann at róa á sjó með húskörlum Lopts ok var þat eptir honum látið sem mart annat. Þorgils kastaði færi sínu fyrir borð ok dró einn mikinn flatan fisk, en engi annarr veiddi um daginn; ok er hreggit tók at vaxa, reyndist þat at Þorgils hafði numit at róa þótt hann væri ungr; síðan lögðu þeir at landi. Loptr kvað í slíku marka mega hverr hann mundi verða; ganga nú heim ok dró Þorgils eptir sér fiskinn. Er hann gékk eptir götunni, þá losnaði moldin þar er hann dró fiskinn, ok kendi, er varð fyrir nokkut hart; lítr hann þá til oksér at þar liggr silfrbaugr. Nú fara þeir heim ok selr Þorgils Lopti bauginn fóstra sínum til varðveizlu.

12 Vetri síðarr varð sá atburðr at þrælar nokkurir brutu haug til fjár sér, en Þorgils kom at þeim, ok kvað þat ekki vera þeirra fé, ok tók af þeim III merkr ok hrakti þá sjálfa; hann fékk Lopti fé þetta ok svá allt annat þat er hann aflaði; varð hann nú frægr mjök þótt hann væri ungr. Þá er Þorgils var XV [1] vetra, fýstist

---

[1] *So hat in der Membr. gestanden; nicht* XX, *wie fälschlich in vielen Abschriften.*

hann utan at fara, var hann vel þroskaðr bæði at viti ok afli; hann beiddist fjárskiptis af Þorgrími stjúpfeðr sínum. Loptr bað hann dveljast hjá sér enn um vetrinn ok kvað hann mundu síðarr at öllu meira fram koma. Hann gerði svá, ok er hann var XVI vetra, beiddist hann enn fjárskiptis. Þorgrímr kvað þess enn eigi kost, því úsvinni lízt mér þín fjárvarðveizla en mín. Þorgils kvaðst nú hafa vilja féit, en ef ek fær nú eigi þá mun ek fá í þriðja sinn, er ek heimti, ok ferr síðan ok segir Lopti. Loptr kvað þat hug sinn, at Þorgrímr mundi eigi fyrir standa þá er Þorgils heimti næst, fékk Loptr honum þá fé til utanferðar. Þorgils kvaðst lítið fé hafa vilja at sinni; ok er hann er búinn til ferðar, kallaði hann til sín leiksveina ok kvaðst vilja launa þeim gleði ok góða fylgð; skulu þér hér taka III merkr silfrs, er ek tók af þrælunum, en Loptr fóstri minn skal hafa bauginn ok vingan mína. Eptir þat fór Þorgils utan í Knarrarsundi með lítið fé ok kom til Noregs um haustið ok var með þeim manni um vetrinn er Ólafr hét, hann bjó á Hörðalandi, hann var ríkr maðr ok vel vitr. Í þenna tíma réð Haraldr gráfeldr Noregi með öðrum bræðrum sínum ok Gunnhildr konungamóðir; þau fóru at veizlum um vetrinn sem þá var siðr til. Ólafr bjó veizlu í móti konungi ok móður hans með mikilli vegsemd; ok er þau höfðu at veizlunni verit um hríð, þá spurðu þau hverr sá væri enn mikli maðr ok enn ungligi er þar var. Ólafr svarar: hann er íslenzkr. Konungr sagði at hann mundi vera mikillar ættar, því hann hefir þesshàttar yfirbragð. Þorgils var í leikum með konungi, ok þótti honum mikit gaman at honum, ok géngu Þorgilsi allir leikar vel. Þá mælti konungr: þik mun ek kalla Þorgils kappa minn. Þorgils sagði þá konungi at hann [kvaðst] eiga stórar erfðir í Sogni eptir göfga frændr sína. Konungr svarar: móðir mín hefir nú bú á jörðum þeim ok hon hefir á þeim allt forræði, því hylstu hana at ok mun þér þá vel duga. Þorgils kemr nú á þetta mál við Gunnhildi; hon svarar þessu vel ok bauð honum hirðvist með konungi. Þorgils kvaðst lítt viðlátinn at vera með konungshirð, ok kvað nei við því. Drottning varð reið ok spyrndi fæti sínum til hans ok hratt honum frá hásætinu

ok varnaði honum þá fjárins, ok sagði hann eigi kunna at þiggja sóma sinn. Konungr var vel til hans ok gaf honum silfr á laun svá at þat var góðr kaupeyrir; má hér af græðast, segir konungr, ef gæfa vill til, ok vitja mín kunnliga ok allra helzt ef móðir mín er eigi nær. Síðan fór konungr frá veizlunni.

13 Um várit segir Þorgils Ólafi at hann vill fara kaupferð um sumarit, ok leita svá undan újafnaði Gunnhildar. Ólafr lét vel yfir því; var Þorgils nú í kaupferð um sumarit ok tókst þat vel, en um haustið kom hann í Vestr-Víkina ok ferr til konu einnar er Gyða hét, hon var ekkja. Son átti hon er Auðunn hét; þau veittu honum bæði af enni mestu dygð. Gyða var margkunnandi á fyrnsk[u] ok fróðleik. Auðunn var vel til Þorgils ok mælti til vináttu er hann fór í brott. Eptir þat fór Þorgils til eins ríks manns, er Björn hét ok var þar vel haldinn. Þar vóru góð híbýli ok heldr snemma háttað. Þorgils spurði hverju þat gegndi; honum var sagt, at faðir Bjarnar hafði fyrir litlu andazt, ok þat með, at hann géngi aptr; vóru menn ok hræddir við hann. Þorgils gerðist ramr at afli. Þat var opt um vetrinn, at Þorgils heyrði lamit úti um þekjuna; ok eina nótt var þat at hann stóð upp, tók öxi í hönd sér ok gékk út; hann sá draug fyrir dyrum standa mikinn ok illiligan. Þorgils færir upp öxina, en þessi snýr undan ok til haugsins, ok sem þeir koma þar, snýr draugrinn á móti, takast þeir fangbrögðum, þvíat Þorgils hafði slept öxinni; var þeirra atgangr bæði harðr ok grimmligr svá upp gékk jörðin undir fótum þeim; en at lyktum varð svá, með því at Þorgilsi var lengra líf ætlað, at draugrinn fellr á bak aptr, en Þorgils ofan á hann; tekr hann þar þá hvíld, ok náir síðan öxi sinni, höggr Þorgils þá af honum höfuð, ok mælir síðan yfir honum, at hann skuli engum manni at meini verða; varð ok aldrigi vart við hann síðan. Björn virði Þorgils mikils, er hann hafði gert þar svá mikla híbýlabót. Eina nótt bar þat til, at lostið var högg á dyrr; gengr Þorgils út; er þar kominn Auðunn Gyðuson vinr hans; Þorgils heilsar honum vel ok spyrr hvat hann vill. Auðunn kvaðst þurfa hans liðsinnis, sagði móður sína Gyðu andaða, ok nokkut vorðit hafa kynliga

um hennar dauða. Stukku ok allir menn á brottu, þvíat engir þorðu við at vera; nú vilda ek fara með hana til greptrar ok fylgðir þú mér. Þat skal vera, kvað Þorgils. Síðan ferr hann með Auðunni at úvitanda Birni; koma þeir til bæjar Auðunnar; finna þar húsfreyju dauða, búa nú um líkit; skaltu, Þorgils, segir Auðunn, gera kistu at móður minni ok undān[1] knakka, reka síðan á kistuna sterkar henkr, þvíat þurfa mun þess alls við ef hlýða skal. Er nú þetta allt saman gert. Auðunn sagðist nú mundu gera ráð fyrir kistunni; skulum vit nú draga hana í brottu, færa niðr í jörð, ok bera á ofan sem mestan þunga. Fara nú síðan, ok sem þeir hafa farit um hríð, tekr at braka mjök í kistunni, ok því næst bresta af hankarnir, ok kemst Gyða ór kistunni. Þá fara þeir til báðir, ok tóku hana ok þurfti[2] þó alls við, ok vóru þeir báðir sterkir menn. Þat taka þeir bragða, at þeir flytja hana til báls er Auðunn hafði búit, síðan kasta þeir henni á bálit, ok vóru hjá meðan hon brann. Þá mælti Auðunn: mikla vingan hefir þú mér nú sýnt, Þorgils, ok góða karlmensku, sem þú munt í öllum stöðum. Sverð ok kyrtil vil ek gefa þér, en ef svá verðr at ek kalla síðarr til sverðsins, þá vilda ek at þú létir laust, en ek mun fá þér annat vápn þat er gott er. Nú skilja þeir við svá búit; ferr Þorgils aptr til Bjarnar. Nú er þar til at taka, at Björn saknar Þorgils; fær hann af þessu mikla úgleði ok kveðst þar mist hafa góðs manns, ok er þat illa, at tröll eðr úvættir hafa tekit hann; skulum vér þat þó gera í heiðr við hann, at drekka erfi hans, ok uggir mik, at eigi megi fagnaðaröl heita, þvíat vér hafim[3] nú leitað hans marga daga. En um veizlu þessa kom Þorgils heim ok verðr Björn honum harðla feginn, ok eykr þá af nýju[4] veizluna, ok eptir hana fóru menn heim. —

Í þenna tíma tók Hákon Hlaðajarl ríki í Noregi, þá sagði 14
Þorgils Birni, at hann vildi leita eptir eignum sínum í Sogni. Björn svarar: réttligt væri þat, en uggir mik, at Hákon jarl kalli

---

[1] undn *hat in der Membr. gestanden.* [2] þyrfti *Hds.* [3] *So hat in der Membr. gestanden.* [4] *Conjectur;* vina *Hds.*

sér bæði þat ok annat, því hann er mjök fégjarn, ok er úvænligt um at hann vili til láta við þik, en flytja vil ek þitt mál þá er hann kemr hér til mín. Nú kemr jarl at ákveðnu til veizlunnar, ok flytr Björn fyrir honum mál Þorgils, ok sagði mikit frá vaskleik hans ok atgerfi. Hákon jarl kvað þat nú vera sína eign, en kvaðst þó vilja sjá manninn; ok er Þorgils kom fyrir jarl, mælti Hákon til hans: mikill maðr ertu ok sterkligr, fríðr sýnum ok líkligr til giptu, ok vil ek bjóða þér til mín; lítum síðan á þitt mál. Þorgils kvaðst þat þiggja vilja.

15 Þorsteinn hét maðr ok var kallaðr enn hvíti, hann var lendr maðr Hákonar jarls, hann var vinsæll ok átti eignir nær jörðum Þorgils; þeir lögðu mikla vingan saman ok vóru með jarli báðir. Þorgils gaf Þorsteini kyrtilinn Auðunarnaut, hann var af nýju skarlati. Þá var ok með Hákoni jarli Eirekr rauðr íslenzkr maðr, er síðan fann ok bygði Grænland, hann var ungr maðr ok kurteiss ok enn mesti vin Þorgils. Þat var enn einn dag at Þorgils vekr við jarl sitt mál um jarðirnar. Hákon jarl svarar: vel gezt mér at framferð þinni, en eigi em [ek] viss í at vita hverr framkvæmdarmaðr þú munt verða, mun ek ok þessar eignir eigi upp gefa utan þú sýnir mér nokkurn frama í gerðum þínum, ok skaltu heimta skatta mína af Suðreyjum, er ek hefir mist um þrjá vetr. Þorgils biðr hann fá höfðingja til ferðarinnar, en ek mun fylgja honum sem manndómr minn er til. Þú skalt formaðr vera, segir jarl, fyrir ferð þessi, því þú reynir þeim mun meirr þína dáð ok karlmensku. Þorgils mælti: lát fara með mér Þorstein hvíta. Hann skal því ráða, sagði jarl. Þorsteinn kvaðst fara mundu ef Þorgils vildi. Nú búast þeir ok höfðu tvau skip ok ekki mjök skipuð. En er þeir koma til Eyjanna beiða þeir skatta ok féngu lítið af. Um haustið héldu þeir til Kataness, ok brutu skip sín en týndu fjárhlut; menn héldust allir. Ólafr hét jarl er réð fyrir ríki því; hann frétti til manna Hákonar jarls ok bað þá til sín fara; þat þiggja þeir ok vóru þar um vetrinn. — Sv[a]rtr járnhauss hét maðr, víkingr mikill ok enn mesti illgerðamaðr, hann lá úti löngum um Vestrlönd. Þat var einn háttr hans, ef

konur vóru fríðar ok vel at sér, at hann tók þær at sér um hríðar sakir, en menn þorðu eigi í móti honum at standa. Systir Ólafs jarls hét Guðrún, hon var fríð kona sýnum ok vel at kvennligum listum búin. Svartr járnhauss finnr Ólaf þenna vetr ok vill fá systur hans til frillu ella til eiginorðs. Ólafr svarar: þat væri mér lítill styrkr, þó at þú gerðir sem bezt mættir þú, en þá allra sízt ef þú ert ráðinn til illa at gera, ok mun ek níta þessu gjaforði. Víkingrinn mælti þá: gakk á hólm við mik, ella berst við lið mitt ok safna liði í móti. Jarl mælti: betra er at deyja virðuliga en lifa skammsamliga. [Svartr svarar:] þann kost kýss þú nú, er þér gegnir verr ok þér mun minnisamr verða, ok ver níðingr ef þú kemr eigi. At vísu skal ek koma, segir jarl, í móti þér, eðr annarr maðr ella; ok skildu við svá búit. Eptir þat kvaddi jarl þings ok sagði þar fyrir hverju áfelli hann var vorðinn; vil ek þeim manni gipta Guðrúnu systur mína, er Svarti verðr at bana, þvíat ek veit at sá einn mun til þess ráðast at mér mun engi úsæmd í því verða. Engir urðu til at svara jarli þótt ráðit þætti fýsiligt, því mönnum þótti ills ván af Svarti járnhaus. Þeir Þorgils ok Þorsteinn ræddust við, ok þótti Þorsteini fýsiligt en Þorgilsi fanst fátt um. Þorsteinn mælti: viltu þenna kost, vinr? Þorgils svarar fá um. Síðan sagði Þorsteinn jarli at hann mundi til ráða. Jarl tekr því vel. Um nóttina eptir dreymdi Þorgils, at Auðunn vin hans kæmi at honum ok mælti: þú sefr, en jafnt mun vera sem þú vakir, þú skalt á hólm ganga við berserk þenna, því þér unnum vér sæmdar, en Svartr þessi er bróðir minn ok er hann mér þó ekki þarfr, er hann ok et mesta illmenni. Þess spyrr hann jafnan þá er hann hefir hátt hólmgöngur, þann er hann skal berjast við, hvárt hann hafi sverðit Blaðni, en ek gaf þér þat, en þú skalt fela þat í sandi, ok seg honum, at þú vitir eigi hjölt þess sverðs fyrir ofan jörð. Eptir þat hvarf Auðunn í brot. Þorgils vaknar ok sagði Þorsteini vin sínum drauminn.

Um morguninn fóru þeir Þorgils ok Þorsteinn með jarli 16
til hólmstefnu ok er Þorgils búinn til hólmgöngu. Víkingrinn spurði um sverðit Blaðni. Þorgils kvaðst eigi vita hans hjölt

fyrir ofan mold. Þorgils dró nú sverðit upp ór sandinum ok börðust síðan, ok er þeir hafa barizt um stund, höggr Þorgils sporðinn af skildi Svarts ok undan honum fótinn; en þat vóru þá lög, at menn vógu til arfs þess er féll á hólmi. Eptir þat hjó Þorgils höfuð af Svarti, tók síðan öll skip hans ok fé, ok fékk síðan Guðrúnar systur Ólafs jarls; skorti Þorgils nú eigi menn ok penninga. Um várit segja þeir jarli at þeir vili herja um sumarit. Nú halda þeir at Suðreyjum, ok gera þeim kost, hvárt þeir vilja þola hernað ok manndráp eðr gjalda skatt Hákoni jarli; en þeir kjöru at gjalda slíkt sem á var lagit. Síðan var allt lukt. Eptir þat fóru þeir austr til Noregs ok hitta Hákon jarl, fagnar hann þeim vel. Þeir greiða honum féit ok gefa honum þó at auki sæmiligar gjafir. Jarl játtir Þorgilsi nú öllum eignum sínum, vóru þeir með jarli um vetrinn í góðu yfirlæti. At sumri vilja þeir í hernað en ætla til jarls at vetri. Eina nótt kom Auðunn at Þorgilsi ok heimti at honum sverðit Blaðni, en ek mun fá þér fyrst öxi en innan lítils tíma gott sverð. Þorgils kvað hann víst hafa skyldu sverðit. Auðunn bað hann hafa þökk fyrir ok gaf honum fingrgull; en er Þorgils vaknaði var sverðit brottu, ok þótti honum svipr at. Síðan herja þeir um sumarit. Gyrðr hét víkingr er þeir fundu um sumarit undir ey einni. Um morguninn fór skúta frá skipum Gyrðs til þeirra Þorgils ok kvaðst Gyrðr vilja gera félag við þá. Þetta fór fram, ok skal Gyrðr hafa jafnmörg skip ok at helmingi allt hlutskipti; herja nú um sumarit ok varð þeim gott til fjár, eyddu mjök illþýði ok hernaðarmönnum en létu bændr ok kaupmenn fara í friði. Þeir kvómu til Írlands um sumarit, var þar skógr fyrir, er þeir kvómu at, géngu síðan upp í skóginn, ok í einum stað sá þeir fallit lauf af tré. Þeir kippa upp eikinni ok finna þar jarðhús undir. Þeir sjá menn með vápnum niðri í húsinu. Þorgils gerir sínum mönnum kost, at sá skal eignast III kostgripi, er fyrstr gengr í húsit, en allir játta því nema Gyrðr. Eptir þat hljóp Þorgils í húsit ok varð þar engin mótstaða; þar lá klæði blátt ok á tveir gullhringar ok sverð gott. Þar vóru ok tvær konur, var önnur ung ok fríð en önnur gömul ok þó fríð.

Þorgils gékk um húsit ok var víða berg undir; hann hafði í hendi eina rótakylfu ok barði henni á báðar hendr, ok stökk flest undan. Þorsteinn fór með honum, ok er þeir géngu ór jarðhúsinu, tóku þeir konu þá ena yngri ok fluttu með sér til skipa ok svá ena ellri. Nú sækir liðit fast eptir þeim, en þeir Þorgils komast til skipa ok láta þegar frá landi. Nú gékk maðr ór liðinu því er eptir sótti ok mælti langt erendi. Þeir skildu eigi hans mál. Þá mælti kvinnan[1] á norrænu ok sagði þeim at hann vildi upp gefa þat er þeir höfðu fengit af fénu, ef þér látið okkr lausar. Þessi maðr er jarl ok son minn, en ek em víkversk at móðurkyni, munu þér þá ok bezt njóta gripanna er svá er gert, þvíat þungi fylgir sverðinu. Son minn heitir Hugi, hann býðr þér, Þorgils, fé heldr en þér takit mik brottu; er yðr ok ekki happ í okkr brott at taka. Þorgils hlýðir þeirra ráðum ok flytr þær til lands. Hugi jarl gékk með fagnaði á móti Þorgilsi ok gaf honum hring einn, annan móðir hans, mærin enn þriðja, ok mæltu síðan vel fyrir honum.

Eptir þetta vilja þeir Þorgils ok Þorsteinn hætta hernaðinum 17
ok skipta fjárhlut. Gyrðr kallaði til gripanna. Þorgils kvað þar marga vitnismenn til vera hvat skilit var um. Gyrðr kvaðst aldri játtað hafa, ok vill heldr berjast en missa gripanna. Þorgils kvað ráðligra at leggja eigi allt lið í hættu, ok reynum heldr tveir. Því játtar Gyrðr. Síðan berjast þeir, hafði Þorgils sverðit Jarðhússnaut ok höggr til Gyrðs ok undan honum fótinn fyrir neðan ökla, skildu við svá búit; lifði Gyrðr síðan, ok var kallaðr Gyrðr enn halti. Eptir þat fóru þeir til Noregs ok vóru með Hákoni jarli um vetrinn. Guðrún kona Þorgils fæddi þá sveinbarn, hann var Þorleifr nefndr. En er várar vill Þorgils út til Íslands til eigna sinna; gaf Hákon jarl Þorgilsi aptr allar eignir sínar þær er hann átti í Sogni ok skildu þeir jarl með vináttu; sat hann nú at búum sínum um sumarit ok svá um vetrinn. Þorgils sagði Þorsteini, at hann vill vitja eigna sinna á Íslandi, því þeir varðveita er mér er ekki um, hefi ek nú látið skip búa ok flutt þangat til mikit fé, en

[1] *So* q'nnan *hat in der Membr. gestanden.*

jarðir þessar er ek á hér skaltu varðveita til handa Þorleifi syni mínum; hefi ek þik reynt góðan dreng, mun ek nú ok launa þér með einni gjöf; skal ek gefa þér Guðrúnu konu mína, því þat hefir ek fundit at þú hefir lagt ástarþokka til hennar þótt þú hafir vel með því farit. Þorsteinn þakkaði Þorgilsi gjöfina ok þótti mönnum mikils um þetta vert. Þorgils fór kaupferð eina á Upplönd ok Svíþjóð ok var um vetrinn hjá bónda þeim er Þrándr hét, hann var auðigr maðr ok átti dóttur þá er Sigríðr hét, hana vildi eiga sá maðr er Randviðr hét, hann var illmenni ok kappi mikill. Þrándr synjaði honum ráðsins, þá bauð Randviðr Þrándi hólmgöngu þá er köllut er kerganga; skal þar berjast í keri ok byrgja yfir ofan ok hafa kefli í hendi. Þrándr vildi heldr berjast en gipta dóttur sína svá illum manni. Þorgils mælti þá til Þrándar: vel hefir þú mér vist veitt, ok skal ek þat góðu launa ok mun ek berjast við Randvið fyrir þik. Þrándr kvaðst þat þiggja mundu. Þorgils hafði sverðit Jarðhússnaut. Randviðr hafði álnarkefli ok digrt mjök. Var byrgt yfir kerit. Randviðr bað Þorgils leggja fyrst, þvíat á hann var skorat; hann gerði svá, ok kemr í keflit ok sprakk þat í sundr, ok hljóp sverðit í kviðinn á Randvið. Hann mælti þá· fá þú mér nú sverðit, en þú haf keflit ok mun ek leggja til þín með sverðinu. Mér þikkir nú, segir Þorgils, þetta vera spænir en eigi kefli. Litlu síðarr dó Randviðr, hafði hann treyst fjölkyngi sinni, þvíat hann hafði margan mann felt með þessi hólmgöngu. Þorgils drap tvá aðra víkinga, Snækoll ok Snæbjörn. Þrándr launaði Þorgilsi vel, fékk hann virðing mikla af þessu verki; hann bjóst síðan út til Íslands um sumarit eptir.

18 Ólafr tvennumbrúni hét maðr, hann kom til Íslands, ok nam öll Skeið á milli Þjórsár ok Sandlækjar, hann var hamramr mjök. Ólafr bjó á Ólafsvöllum; hann liggr i Brúnahaugi undir Vörðufelli. Ólafr átti Áshildi ok vóru synir þeirra Helgi ok Þórðr faðir Þorkels[1] gullkárs, föður Orms, föður Helgu, móður Odds Hallvarðssonar. Þorgrímr örrabeinn lagði hug á Áshildi þá er Ólafr var dauðr, en Helgi trausti son hennar vandaði um, ok fór frá

[1] *So* Lndn. V, 10; föður *fügt Hds. zu.*

búi sínu til hennar ok kvaðst eigi vilja fíflingar hennar, ok kvað úvirðing í vera bæði henni ok frændum hennar. Hon bað hann sik eigi reiðan gera, kvað eigi hans færi at keppa við Þorgrím. Hann svarar: auðsætt er þat, at maðrinn hugnar þér vel, en ek mun eigi at síðr ekki sitja honum slíka svívirðing. Skilja þau nú tal sitt. Þorgrímr gistir á Ólafsvöllum. Áshildr gerði honum góðan beina ok fóru mjök saman hugir þeirra. Hon sagði Þorgrími hvárt tal þeirra Helga hafði verit. Helgi ræðir ok um kvámur Þorgríms, kvaðst illa við una, bað hann af láta. Þorgrímr kvaðst eigi hirða um hans þokka eðr hót, ef hennar vili væri til. Nú leiðir hon Þorgrím á götu, ok gaf honum mikit fingrgull áðr þau skildu. Áshildi kvaðst grunr á, at þau mundi eigi optarr sjást. Þorgrímr kvaðst ætla at finna hana brátt; hon kvað vel ef svá væri; skilja við svá búit. Þorgrímr reið nú leið sína fyrir neðan Áshildarmýri. Helgi sat fyrir honum hjá gatnamóti, ok er þeir fundust bað Helgi hann af láta kvámum ok gera sér eigi skapraun í þessu. Þorgrímr kvaðst eigi hafa barnaskap, kvaðst búinn at reyna alla hluti við hann. Helgi kvaðst ætla, at at málefnum mundi ganga, ok er vel at vit reynim okkr. Síðan börðust þeir snarpliga ok lengi. Þorgrímr var þá á enum efra aldri ok mæddist skjótt ok varð sárr mjök. Helgi sækir at fast er hann sér at Þorgrími latar, ok lýkr svá með þeim, at Þorgrímr fellr fyrir Helga. Um kveldit kom Helgi heim, spurði Áshildr hann tíðinda; hann sagði slík sem vóru. Hon svarar: mikit hefir þú at gert, ok vaxit muntu þikkjast hafa af þessu verki, en ek kann segja þér, at þetta er þinn höfuðbani. Helgi tók sér fari í Einarshöfn ok ætlar utan. Þessi tíðindi spyrjast nú. Hæringr son Þorgríms var þá XVII vetra. Hann reið í Höfða til Teits Ketilbjarnarsonar[1] frænda síns við þriðja mann. Þeir Teitr ríða þá XV saman út á Eyrar í Einarshöfn ok banna Helga farit; eptir þat ríða þeir í brottu. Litlu síðarr fundust þeir á förnum vegi upp frá Mörk við Helgahvál. Þeir Helgi vóru þrír saman komnir af Eyrum

[1] *So hat in der Membr. gestanden*, Kolbiarnar *Hds.*, Gizurar son Lndn.

sunnan. Ok er þeir Helgi sjá reið þeirra, hlaupa þeir á hólinn ok vörðust drengiliga; áttu þeir harða hríð; en fyrir fjölmennis sakir féll Helgi ok maðr með honum, ok einn maðr af hinna liði. Var síðan sæzt á málit ok féllust vígin í faðma. Þorgils kom út á Eyrum. Loptr fóstri hans sat í búi sínu. Margt hafði tíðinda vorðit meðan Þorgils var utan. Þórunn móðir hans var önduð. Þorgils fór heim í Traðarholt, tók bróðir hans vel við honum, ok búa þeir bræðr nú báðir saman þessi misseri. Þórey hét kona, hon var Þorvarðsdóttir. Þorfinna hét móðir hennar, hon bjó í Odda. Þorvarðr var andaðr. Þórey var at fóstri á þeim bæ er heitir í Kálfholti með þeim manni er Jósteinn hét, gildr bóndi. Jósteinn átti systur[1] Þorvarðar í Odda er Þorgerðr hét; þau vóru börn Þórðar Freysgoða; Kolr ok Starkaðr vóru fóstbræðr Þóreyjar. Guðrún hét systir þeirra ok var hon fóst[r]systir Þóreyjar. Þorgils bað Þóreyjar ok var hon honum gipt, vóru þeirra samjarar góðar.

19 Sörli hét maðr, hann bjó skamt í brott frá Kálfholti, hann venr kvámur sínar til Guðrúnar systur þeirra Starkaðar ok Kols. Einn tíma ferr Kolr á leið Sörla, ok bað hann af láta kvámum til systur sinnar. Sörli kvaðst þat mundu gera eptir hugþokka sínum en hirða ekki um orð hans. Þú munt ráða, segir Kolr. Annan dag kom Sörli ok sat á tali við Guðrúnu; ok um kveldit ferr hann seint heim; ok er hann kemr skamt frá bænum, sprettr Kolr upp fyrir honum; verðr ekki af kveðjum; höggr Kolr Sörla banahögg, ok fór heim ok sagði Guðrúnu, at stöðvaðar vóru kvámur Sörla. Hon kvaðst eigi þat lasta mundu, en kvað eigi svá búit hlýða mundu, þvíat hann var þingmaðr Ásgríms Elliða-Grímssonar; far nú ok hitt Þorgils, þvíat hann þikki mér líkligastr til at veita þér nokkut skjól. Kolr kemr í Traðarholt; þat var síð um kveld; menn vóru at mat. Þórey gékk fram til dyra ok bauð fóstra sínum þar at vera; hann sagði henni tíðindi. Þú skalt,[1] segir Þórey, vita við Þorgils, hvárt hann vill nokkut traust veita þér

[1] dottur systur *Hds.*; *d. Schreiber der Membr., nachdem er das richtige* systur *geschrieben, vergass das falsche* dottur *auszustreichen.* [2] þat *fügt Hds. zu.*

eðr ekki ok láttu hljótt um þik. Hon leiddi hann í skot eitt; síðan gékk hon til stofu. Þorgils mælti: hví skulu menn svá lengi bíða matar í kveld, enda hefir þú fengit rauðan lit. Þórey svarar: satt er hit fornkveðna, at ‚spakir menn henda á mörgu mið', mús hljóp áðan á kinn mér, en mér er hon harðla úþekk. Svá má vera, segir Þorgils; en er þau kvómu í rekkju um kveldit, kvaðst Þorgils vilja vita, hvat í framgöngunni hafði verit um kveldit.[x] Hon sagði honum allan atburðinn ok kvaðst ásjá vilja veita Kol, ok muntu ok svá gera fyrir mína skyld. Þorgils kvaðst svá gera mundu. Um morgininn fór Þorgils til bús Kols, ok lét fara á brott fé allt með sér ok Guðrúnu, en lét eptir úmegð aðra. En er þeir vóru brott farnir, kom Ásgrímr; ætlar hann at taka upp fyrir Kol fé allt ok hafði hann ekki. Kolr sitr hjá Þorgilsi um vetrinn. Ok um várit býr Ásgrímr mál til á hendr Kol, lætr Þorgils eigi sem hann viti, verðr Kolr sekr skógarmaðr. Þorgils ríðr sem áðr um heraðit ok Kolr með honum, sækja mannamót, ok verðr nú úþokki mikill manna á milli. Höfðingjum þikkir mein á þessu, ok leita um sættir. Þorgils býðr eigi sættir. Eitt sinn ríðr hann til hestaþings ok Svartr verkstjóri hans með honum; var þá góð gleði um daginn. Ásgrímr talar mart við Svart um daginn, ok at kveldi ríðr Þorgils heim. Svartr reið nær Þorgilsi. Þorgils fann at hann vildi ríða seinna, grunar hann hann þá ok gefr honum færi á sér; ok er Þorgils varir minst, höggr Svartr til hans. Þorgils kastar sér ór söðlinum ok klauf Svartr söðulinn. Þorgils þrífr Svart, ok spyrr hverju gegnir. Hann segir honum at Ásgrímr bauð honum þetta. En þá er hann svipti honum Svarti, féll fésjóðr undan yfirhöfn hans; segir hann þá, at Ásgrímr hafi gefit honum féit til höfuðs Þorgilsi. Hann drepr Svart þegar í stað. Eptir þat ríðr Þorgils fram ok segir sínum mönnum hversu farit hafði; en hvárt sinn er hann kemr á mannamót, sýnir hann þar sjóðinn; vóru þar í þrjár merkr silfrs, ok gékk enginn við at ætti.

Nú kom kristni á Ísland, ok tók Þorgils í fyrra lagi við trú. 20
Hann dreymdi eina nótt, at Þórr kæmi at honum með illu yfirbragði ok kvað hann sér brugðizt hafa, hefir þú illa ór haft við

mik, segir hann, valit mér þat er þú áttir verst til, en kastað silfri því í fúla tjörn er ek átta, ok skal ek þér í móti koma. Guð mun mér hjálpa, segir Þorgils, ok em ek þess sæll er okkat félag sleit. Ok er Þorgils vaknar, sá hann at töðugöltr hans var dauðr. Hann lét grafa hann hjá tóptum nokkurum ok lét ekki af nýta. Enn barst Þórr í drauma Þorgilsi ok sagði at honum væri eigi meira fyrir at taka fyrir nasar honum en galta hans. Þorgils kvað guð mundu því ráða. Þórr heitaðist at gera honum fjárskaða. Þorgils kvaðst eigi hirða um þat. Aðra nótt eptir dó uxi gamall fyrir Þorgilsi; þá sat hann sjálfr hjá nautum um náttina eptir, en um morguninn er hann kom heim var hann víða blár. Hafa menn þat fyrir satt at þeir Þórr muni þá fundizt hafa. Eptir þat tók af fallit. Þorgils var hit mesta mikilmenni; honum kvómu orðsendingar af Grænlandi, at Eirekr rauði býðr honum til sín, ok at hafa þá kosti, er bezta hefir hann til. Þorgils áhlýddist lítt við þat; hann hafði þá verit hér XIII vetr. Skip kom af hafi, var þar á Þorleifr son hans ok hafði góða gripi at færa honum. Þorleifr var þá tvítugr. Þorgils talar við konu sína, ef hon vildi fara til Grænlands; hon kvað vanbreytt um. Hann sagði [at] Eirekr hafði sent sér orð um, má ok at þú sér eptir ef þú vill þat. Misráðit mun, sagði hon, at þangat sé farit, en þó skal ek fara ef þú ferr. Hæringr tók við gózum Þorgils. Þórný hét dóttir þeirra Þorgils ok Þóreyjar, hon var VIII vetra. Þorleifr skal fara með þeim, Kolr, ok bróðir hans Starkaðr ok [Guðrún] systir þeirra, Snækollr ok Özurr þrælar hans, ok X aðrir þrælar, ok ráðsmaðr hans Þórarinn, þvíat Þorgils ætlaði bæ at reisa þá er [hann] kæmi til Grænlands. Jósteinn ór Kálfholti réðst til ferðar með Þorgilsi við XII menn, Þorgerðr kona hans, ok sonr. Þorgils kaupir nú skip í Leiruvági. Þórólfr hét maðr er Þorgils fékk bú í hendr, en Hæringi fékk hann LX hundraða mórent VI álna aura, annat en staðfestur. Þorgils gisti at Þórodds at Hjalla, með honum var í ferð Þórný dóttir hans; þar tók hon sótt ok beið Þorgils þar III nætr; sagði hann at þat stæði ekki fyrir ferð hans þó hon væri sjúk; má vera at hér sé hennar forlög. Þóroddr

kvaðst ætla hon mundi giptudrjúg verða ok langlíf; lét hann hana eptir ok gaf henni LX hundraða ef hon þyrfti. Þorgilsi kvaðst nú fyrir þikkja at fara, en lézt eigi nenna aptr at setjast.

Þorgils bíðr nú byrjar, ok dreymir at maðr kæmi at honum 21
mikill ok rauðskeggjaðr ok mælti: ferð hefir þú ætlat fyrir þér ok mun hon erfið verða. Draummaðrinn sýndist honum heldr grepp-ligr. Illa mun yðr farast, segir hann, nema þú hverfir aptr til míns átrúnaðar, mun ek þá enn til sjá með þér. Þorgils kvaðst aldri hans umsjá hafa vilja, ok bað hann brott dragast sem skjótast frá sér, en mín ferð tekst sem almáttigr guð vill. Síðan þótti honum Þórr leiða sik á hamra nokkura þar sem sjófarstraumr brast í björgum. Í slíkum bylgjum skaltu vera, ok aldri ór komast, utan þú hverfir til mín. Nei, sagði Þorgils, far á brott, enn leidi fjándi, sá mun mér hjálpa, sem alla leysti með sínum dreyra. Síðan vaknar hann ok segir drauminn konu sinni. Aptr munda ek setjast, segir hon, ef mik hefði svá dreymt, ok eigi vil ek segja Jósteini draum þenna ok eigi öðrum mönnum. Nú kemr byrr, ok sigla þau út ór firði; hafði Jósteinn skip fyrir framan siglu; ok sem þau koma ór landsýn tekst af byrr allr, ok velkjast þau úti lengi svá at bæði varð matfátt ok drykkjarfátt. Þorgils dreymdi at enn sami maðr kæmi at honum ok mælti: fór eigi sem ek sagða þér? Þórr talaði þá enn mart við Þorgils, en Þorgils rak hann frá sér með hörðum orðum. Tekr nú at hausta, ok mæltu sumir menn, at þeir skyldi heita á Þór. Þorgils bannaði þat, ok sagði at menn skyldi missmíði á finna ef nokkurr maðr blótaði þar í skipi. Við þessi orð treystist engi á Þór at kalla. Eptir þetta dreymdi Þorgils, at sami maðr kom at honum ok mælti: enn sýndist þat hversu trúr þú vart mér, er menn vildu á mik kalla, en ek hefir beint nú fyrir þínum mönnnm, ok eru nú komnir at þrotum allir, ef ek dugi þeim eigi, en nú muntu taka höfn á sjau nátta fresti, ef þú hverfr til mín með nokkurri alvöru. Þó ek taka aldri höfn, sagði Þorgils, þá skal ek þér ekki gott gera. Þórr svarar: þótt þú gerir mér aldri gott, þá gjalt þú mér þó góz mitt. Þorgils hugsar hvat um þetta er, ok veit nú, at þetta er

einn uxi, ok var þetta þá kálfr er hann gaf honum. Nú vaknar Þorgils ok ætlar nú at kasta útanborðs uxanum. En er Þorgerðr verðr víss, falar hon uxann, því henni var vistafátt. Þorgils sagðist vilja únýta uxann ok engum selja. Þorgerði þótti nú illa; hann lét kasta uxanum útbyrðis ok kvað eigi kynligt þó illa færist, er fé Þórs var innbyrðis.

22 Þau eru nú úti um hríð ok höfðu harða réttu. Þórarinn var knástr maðr annarr en Þorgils, hann var tvítugr at aldri. Þat er sagt at þeir brutu skipit undir Grænlandsjöklum í vík nokkurri við sandmöl; tók skipit í sundr í efra rúmi; menn héldust allir ok svá fé; bátr var ok heill; stafn rak upp við syðra land. Þá var vika til vetrar. Jöklar miklir géngu tveimmegin víkrinnar. Þeir gera sér nú skála, ok í þverþili; búa nú sínummegin hvárir. Mjöl nokkut höfðu þeir til atvinnu sér; henda ok af selum ok eiga þat allir saman. Dautt var fé þeirra flest. Þorgils mönnum varð betri hluti af veiðifangi, varð hann lengrum hlutsælli. Hann bað sína menn vera hljóðláta ok siðsama á kveldum ok halda vel trú sína. Þórey var mjök þúngut. Þat er sagt at Jósteinn ok hans menn gerðu mikit um sik ok höfðu náttleika með háreysti. Nær vetrnóttum varð Þórey léttari at sveinbarni ok hét Þorfinnr; hon bjargaðist lítt við þá fæðu er til var. Þorgils hafði útróðrarmenn með þrælum Jósteins. Líðr nú á vetrinn ok dregr at jólum. Þorgils biðr menn hljóða vera ok fara snemma í rekkju. Jólamorgin var veðr gott, ok vóru menn úti um daginn ok heyrðu óp mikit í útnorðr, ok kemr annarr dagr í jólum. Þorgils háttar snemma, ok er þau höfðu sofit svefn, kom Jósteinn inn ok hans menn, ok er heldr mikit um þá, ok er þeir vóru niðr lagztir, er drepit högg mikit á dyrr. Þá mælti einn þeirra: góð tíðindi munu nú vera, ok hljóp út, ok varð hann þegar ærr, en um morguninn deyr hann. Svá ferr annan aptan, at maðr ærist, ok kallast sjá hinn hlaupa at sér er áðr dó. Eptir þat kom sótt í lið Jósteins ok deyja VI menn. Þá tekr Jósteinn sótt ok deyr hann. Síðan eru þeir kasaðir í mjöllinni. Þorgils ræðir um við sína menn, ok bað þá við sjá slíkum fádæmum. Á bak jólum géngu þessir menn

allir aptr. Þá tók Þorgerðr sótt ok andast, ok þar næst hverr at öðrum þeirra manna er með Jósteini höfðu verit. Þórarinn lézt síðast; vóru nú allmiklar aptrgöngur, ok sóttu mest [at] Þorgilsi. Öll vóru þau dauð í miðja Gói. Ekki mátti Þorgils ok hans menn í brot færast meðan aptrgöngur vóru sem mestar. Í þenna hluta skálans géngu þau mest aptr er þau höfðu átt. Þorgils lét brenna þau öll á báli ok varð þaðan af ekki mein at aptrgöngum. Nú líðr á vetrinn ok máttu þeir eigi brott leita fyrir ísum ok féngu sér vistir um sumarit. Annan vetr andaðist Guðrún systir Kols, ok gref[r] Þorgils hana undir rúmi sínu, ok er várar, megu þau ekki í brott komast.

Þat er eitthvert sinn at Þórey sagði draum sinn Þorgilsi, at 23
hon kvaðst sjá fögr heruð ok menn bjarta, ok get ek at vér leysimst brott ór þessum vandræðum. Þorgils svarar: góðr er draumr þinn, ok þó eigi úlíkast at viti til annars heims ok munir þú eiga gott fyrir höndum, ok munu helgir menn hjálpa þér fyrir hreint líf ok mannraunir. Hon bað hann brott leita ór úbygðum ef þeir mætti. Þorgils kvaðst eigi yfir þat sjá. Hon lá í rekkju löngum, ok einn góðan veðrdag segir Þorgils at þeir muni ganga á jökla ok vita ef þeir sæi nokkut leysast ísinn. Þórey kvaðst þess úfús at hann færi frá henni; hann kvaðst skamt fara mundu. Þrælarnir skulu róa at veiðifangi, en Þórarinn bryti skal ýta ok vera síðan hjá Þóreyju. Þeir Þorleifr, Kolr ok Starkaðr beiddust at fara með honum. Þorgils kvað þá forystulaust heima, en kvaðst eigi vel trúa þrælum. Þeir fóru allir á jökla. Þorgils hafði bolöxi í hendi ok gyrðr sverðinu Jarðhússnaut. At nóni dags snéru þeir aptr, gerði þá á veðr hart; Þorgils fór fyrir ok hitti vel leiðina, koma til skálans, ok sá ekki skipit, géngu í skálann; vóru í brottu allar kistur ok svá menn. Þorgils mælti: nú munu ill efni í. En er þeir kvómu innarr í skálann, heyrðu þeir snörgl nokkurt til rekkju Þóreyjar, ok er þeir kvómu þar, sjá þeir at hon var önduð en sveinninn saug hana dauða. Leituðu þeir um hana ok fundu ben litla undir hendinni sem mjófum knífsoddi hefði stungit verit; mjök var þar allt blóðugt. Þessa sýn hafði Þorgils svá sét, at

honum þótti mestr harmr í vera. Brott var sópat öllum vistum. Um nóttina vill Þorgils vaka yfir sveininum, ok kvaðst eigi sjá at hann mætti álengðar lifa, ok þikki mér þat allmikit, ef ek má eigi honum hjálpa; skal þat nú fyrst taka bragða, at skera af mér geirvörtuna, ok svá var gert; fór fyrst ór blóð, síðan blanda, ok lét eigi fyrr af en ór fór mjólk, ok þar fæddist sveinninn upp við þat. Þeir Þorgils sóttu fast at veiðifangi, ok gerðu sér einn húðkeip ok bjuggu innan með viðum.

24 Einn morgin er Þorgils einn úti, ok sér í vök rekald mikit, ok þar hjá tröllkonur *tvær* ok bundu byrðar miklar. Þorgils hleypr til þangat, ok hafði sverðit Jarðhússnaut, ok höggr til annarrar með sverðinu í því er hon færist undir byrðina, ok rekr af henni höndina; byrðrin fellr niðr en hon hljóp í brott. Síðan taka þeir rekaldit ok eru þá vistir nógar. Síðan losnar íssinn ok leitar Þorgils ok hans menn þá í brott ok komast til Seleyra um sumarit ok vóru þar um vetrinn. At sumarmálum fóru þeir þaðan ok fundu ey litla. Hálfum mánaði síðarr fundu þeir svartbaksegg ok gáfu sveininum; hann át hálft eggit. Þeir spurðu hví hann át eigi. Hann svarar: því spari ek minn mat at þér sparit yðvarn mat. Þeir dragast nú fram með jöklinum ok kvómu at björgum bröttum, brýna upp skipinu, reisa þar tjald, ok um morgininn gengr Kolr út ok sér eigi skipit ok legst síðan niðr ok vill eigi segja Þorgilsi. Litlu síðarr kom Þorleifr út ok getr eigi um. Þorgils kom út ok sér at skipit er á brautu ok sagði þeim hvarf skipsins; sér ek nú ekki annat til, kvað Þorgils, en at tapa verði sveininum. Þorleifr svarar: eigi er þat til. Hann bað þó þat skyldi gera. Taka þeir nú sveininn, ok biðr Þorleifr Kol tapa piltinum. Eigi mun ek þat gera, segir Kolr, því ek veit, at þegar af líðr Þorgilsi þetta, þá er honnm þat enn mesti harmr, en ek ætta Þorgilsi gott at launa. Síðan fara þeir inn, ok láta úti eptir sveininn. Þorgils spurði þá hvárt þeir hefði drepit sveininn. Þeir kváðu þat eigi vera. Hann þakkaði þeim fagrliga er þeir höfðu svá gert; var þá sóttr sveinninn ok var hann hjá Þorgilsi um nóttina. Þá sagði Þorgils draum sinn. Ek þóttumst á þingi vera

á Íslandi: þótti mér sem vit Ásgrímr Elliða-Grímsson togaðim [eina hönk[1] ok misti hann. Þorleifr svarar: þar muntu enn koma til Íslands ok skipta málum við hann ok mun þér þat betr ganga. Svá má vera, segir Þorgils. Aðra nótt dreymdi hann, ok sagði: ek þóttumst heima vera í Traðarholti ok var þar fjölment; ek sá álpt eina ganga eptir gólfinu ok var blíðari við aðra en mik. Þá hristi ek hana ok var hon þaðan af miklu betr til mín. Þorleifr svarar: þar muntu kvángast, faðir, ok muntu lítt í fyrstu njóta ástar hennar ok mun þat þó vel dragast. Enn dreymdi mik, segir Þorgils, at ek væra heima í Traðarholti; ek sá á kné mínu enu [h]ægra, þar vóru vaxnir fimm hjálmlaukar saman ok kvísluðust þar af margir laukar, ok ofarliga yfir höfuð mér bar einn laukinn, en svá var hann fagr sem hann hefði gullslit. Þorleifr svarar: sé ek draum þinn, þar muntu eiga fimm börn, frá þeim munu kvíslast margar ættir á Íslandi, en ek mun eigi þar aldr ala ok mun ek auka ætt mína annarsstaðar. En hinn fagri laukrinn mun merkja þat, at einhverr maðr mun frá þér koma sá er ágætr mun verða; ok þat gékk eptir síðan, því frá Þorgilsi er kominn Thorlákr biskup enn helgi. Þorleifr mælti þá: þat dreymdi mik, faðir, at mér þótti Þórný systir mín gefa mér ost[h]leif ok vóru af bárurnar. Þorgils mælti: þar mun af it harðasta af kostum okkrum, er af vóru bárurnar. Þá heyrðu þeir óp mikit; var þá kallat at Íslendingar skyldi taka skip sitt. Þeir ganga út skjótt, ok sjá tvær konur, þær hurfu skjótt. Björn einn brauzt um í vök ok var brotinn í hrammrinn. Þorgils hleypr til ok leggr björninn með sverði, dó dýrit af því lagi. Þorgils hrífr þá til hlustanna ok vill eigi at sökkvi dýrit; draga upp síðan ok gera til. Þorgils deildi þá stykki sérhverjum þeirra, ok má af slíku marka hversu þungan matarafla þeir áttu. Þorleifr mælti: matsparr ertu nú, faðir. Já, son minn, þat hæfir at svá sé. Síðan snúa þeir til hafs ok róa fyrir framan margar víkr, ok er þeir kvómu fyrir eitt fjarðarminni gékk, þeim þá með mikilli mæði; tekr þá nú at þyrsta fast;

---

[1] *emendirt;* [einn hautt *hat in der Membr. gestanden.*

þeir vóru fimm saman með sveininum, þeir gerðust þá mjök máttfarnir af þorsta en var hvergi nær vatn. Þá mælti Starkaðr: þat hefi ek vitað menn hafa gert, ef líf þeirra hefir við legit, at menn hafa blandat saman sjó ok hlandi. Þeir taka nú auskerit ok míga í, ok blönduðu við sjó, ok báðu Þorgils leyfis at drekka. Hann kvað várkunn á, en kvaðst þó hvárki banna né lofa. En er þeir ætluðu at drekka, bað Þorgils þá fá sér ok kvaðst skyldu mæla fyrir minni. Hann tók við ok mælti svá: þú it argasta dýr, er ferð vára dvelr, skal[t] eigi því ráða, at ek né aðrir drekki sinn þarfagang. Í því fló fugl því líkastr sém álkuungi brott frá skipinu ok skrækti við. Þorgils helti síðan útbyrðis ór auskerinu. Síðan róa þeir ok taka sér vatn, ok var þat síð dags. Þessi fugl flaug í norðrætt frá skipinu. Þorgils mælti: seint hefir fugl þessi við oss skilit, ok taki nú allar gramir við honum; en við þat megum vér una at hann kom eigi því á leið sem hann vildi. At þrim nóttum liðnum sá þeir tjald af lérepti; þeir kendu, at þat var tjald Þóreyjar; fundu þar brytja Þorgils ok spyrja hann með hverri[1] faraldi hann hafði þar komit. Hann sagði þá kostaboð þeirra Snækolls við sik, ef hann vildi eigi fara, at þeir mundi drepa hann. Snækollr stakk mjófu járni á Þóreyju. Þorgils svarar: eigi veit ek hvers þú ert af verðr, en úsannlig þikki mér þín sögn ok skaltu eigi lifa lengi; þar var hann drepinn ok grófu hann þar, fara síðan í brott. Nú tekr at hausta ok koma þá í fjörð einn, láta at landi, ok sjá at þar var naust, brýna þar upp skipinu ok ganga frá sjó ok koma at bæ, þar var maðr úti ok heilsar á þá ok spyrr at nafni ok þeir hann. Þessi kvaðst Hrólfr heita ok bauð þeim þar at vera. Þat þiggja þeir, ok er Þorfinnr fenginn konum til geymslu ok er honum mjólk gefin; sagði hann mjólk föður síns ekki svá lita; eru þeir þar um vetrinn. Um várit býðr Hrólfr Þorgilsi þar at vera með sínum mönnum, en þá bauð hann honum skip sitt ef hann vildi brottu fara. Þorgils þakkar honum, en kvaðst skipit hafa vilja; væri ok skylt at launa þér góðu. Hrólfr kvaðst ætla at hann

[1] ‚hv'ri *Mbr.*‘ Árni Magnússon.

mundi gott af honum hljóta, þvíat þú munt í mikla virðing koma, ok ef svá væri, þá mættir þú mik í frið kaupa við bygðarmenn, því ek em í úfriði við þá Þorgils játtar því, ok mæla þar hvárir vel fyrir öðrum; fara suðr fyrir land, ok koma í fjörð, ok lögðu í lægi; síðan tjölduðu þeir, ok í því bili sá þeir skip ok var þat kaupskip; sigldu þeir á fjörðinn, ok höfðu eitt veðr hvárirtveggi, ok kvómu at einni lendingu. Þorgils mælti: þetta eru góð tíðindi, fari þit Þorleifr ok Kolr, ok vitið hverir þessir eru; síðan fóru þeir, ok kvómu at skipinu, ok ganga út á þat. Aptr við lyptingina sat maðr í rauðum kyrtli, ok sprettr upp þegar ok fagnar Þorleifi; var þar kominn Þorsteinn hvíti fóstri hans ok stjúpfaðir[!]; hann spyrr at Þorgilsi; þeir sögðu [at] hann var þar. Þorsteinn fór til fundar við Þorgils, varð þar fagnafundr, kvaðst Þorsteinn koma af Íslandi, ok kvað ráð hans standa heilt, kvaðst ekki þar til hans frétt hafa á fjórum vetrum; sagði Þornýju dóttur hans vera gipta Bjarna í Gröf Þorsteins syni goða[1] landnámamanns; ok er Þorleifr kom eigi aptr til Noregs, bjó ek skip mitt ok fór ek til Íslands ok var ek þar tvá vetr, ok frétta ek ekki þar til þín; fór ek þá hingat at leita þín. Góðs þótti mér at þér ván, segir Þorgils. Menn kvómu brátt til þeirra. Bóndi sá er þar bjó næst hét Þórir; hann bauð Þorsteini til sín ok þangat fór hann. Eirekr rauði bauð Þorgilsi til sín, ok þat þektist hann; þangat fóru XII menn með honum. Þorgilsi er skipat gagnvart Eireki ok þar utar frá sat Þorleifr, þá Kolr, þá Starkaðr. Þorfinni var fengin fóstra, ok vill hann ekki mjólk drekka fyrr en myrkt var, þá var hann af brjósti vaninn. Ekki var Eireki margt til Þorgils, ok var vistin með minna þokka veitt en Þorgils hugði. Þat frétti Þorgils at þrælarnir vóru þar í landi ok lét eigi sem hann vissi.

Þat bar til um vetrinn at bjarndýr lagðist á fé manna ok 25
gerði mikinn skaða. Þat var einn tíma at menn kvómu til kaupa við Þorgils, ok vóru menn margir í útibúri, því er varningrinn var í; þar var Þorfinnr. Hann mælti við föður sinn: hér er úti,

[1] *emendirt nach* Lndn.*;* rauða *Hds. und* AM. 445b; *siehe Anhang.*

faðir, rakki fagr ok mikill. Þorgils svarar: hirð eigi um þat, ok hlaup eigi út. Sveinninn hljóp út sem áðr ok var þar bjarndýrit fyrir; þat svipti honum undir sik. Sveinninn kvað við hátt. Þorgils hljóp út með sverðit Jarðhússnaut. Dýrit hafði leikit við sveininn. Þorgils höggr á milli hlustanna í dýrinu, ok klýfr hausinn ok fellr þat niðr dautt, en hann tekr sveininn ok var hann lítt sakaðr; verðr Þorgils nú ágætr af þessu verki ok þótti stór heill til hans horfit hafa. Ekki fanst Eireki til þessa verks, en lét þó til gera dýrit; sögðu þat sumir menn at Eirekr hefði haft á því fornan átrúnað. Þat er sagt um vetrinn, at menn sátu í náðahúsi í Brattahlíð, ok þó eigi allir senn, því sumir stóðu fram í húsinu; þar var Kolr ok Starkaðr. Þat var tal þeirra at þeir fóru í mannjöfnuð ok töluðu um Þorgils ok Eirek, sagði Kolr Þorgils mörg afreksverk gert hafa. Þá svarar sá maðr er Hallr hét, hann var heimamaðr Eireks: þat er újafnt, segir hann, því Eirekr er höfðingi mikill ok frægr, en Þorgils þessi hefir verit í vesöld ok ánauð, ok úvíst er mér hvárt hann er heldr karlmaðr eðr kona. Kolr svarar: mæl þú manna armastr, ok leggr í gegnum hann með spjóti; fékk hann þegar bana. Eirekr bað menn sína upp standa ok taka Kol. Kaupmenn allir hlaupa til ok veita Kol. Þorgils mælti þá: þat er næst, Eirekr, at þú hefnir sjálfr heimamanns þíns. Nú eiga hlut í beggja vinir, þikkir eigi auðsóttligt at fara at þeim. Nú sættast þeir með því, at þeir Þorgils ok Eirekr skulu gera. Þeir verða vel ásáttir um gerðina, en þó fækkaðist síðan með þeim, ok ætlar Þorgils þar ekki langvistum at vera.

Um vetrinn bar þat til at mein mikit var at útilegumönnum. Þorsteinn hét sá er fyrir þeim var; þeir vóru XXX ok sekir allir; urðu menn af þeim fyrir ránum miklum ok sögðu til Eireki. Þeir lágu í eyjum nokkurum í Eireksfirði. Eirekr berr upp mál þetta fyrir Þorgilsi ok kvaðst vilja hans liðsinni til hafa. Þorgils kvaðst eigi til þess farit hafa til Grænlands at leggja sik í hættu við illmenni, kvaðst illt hlotið hafa af Eireki, ok kvaðst þó eigi nenna at synja ferðarinnar fyrir nauðsyn landsmanna, ok kvaðst búinn þá er Eirekr vildi fara, en kvaðst vilja gera til lykta áðr sín

erindi, ok vertu þá búinn, er ek geri þér orð. Eptir þat fóru þeir til skips, ok ætluðu at fara um ena vestri bygð, því menn höfðu eigi goldit Þorgilsi bjarngjöldin. Þorgils færir fram sýknu Hrólfs, svá at hann skyldi vera friðheilagr. En er Þorgils kom í vestri bygð tók við honum sá maðr er Bjálfi hét. Hann kvaðst mikla þökk kunna hans þarkvámu, skal ek taka saman fé þitt, þvíat þú ert frægr maðr ok muntu mér at liði verða, því ek em í nauðum staddr. Hér liggja fyrir eyjar þær er ránsmenninir eru í, ok ætlar höfðingi þeirra hingat ok taka á brott dóttur mína, vil ek at þú sér hér til trausts ok varnar. Þorgils kvaðst þat gera mundu. Bóndi ferr nú, ok tekr saman féit ok koma eigi víkingarnir. Bóndi kemr heim. Þorgils mælti þá: þú hefir kostað oss, bóndi, en vér höfum gert þér ekki til gagns svá búit. Nú mun ek fara til móts við víkingana, þvíat úsýnt er um þinn frið þegar vér erum brottu. Bóndi þakkar honum, en kvað þó mikit í hættu þar er Þorgils var ok hans menn.

Nú býr Þorgils skip sitt ok ferr með XXX manna; hann 26
sendi orð Eireki at hann kæmi með jafnmarga menn. Ok er Eireki kvómu orðin, kvaðst hann mundu koma ok verða eigi seinni til eyjanna en þeir. Þeir Þorgils koma nú við eyna ok var Eirekr eigi þar kominn. Þorgils gerir þá ráð við menn sína: leitt er mér, segir hann, frá at hverfa, en sjá þikkjumst ek Eirek í gegnum, hann ætlar at vísa oss á illmenni þessi, ok hyggr at vér munim eigi nenna frá at hverfa þó hann komi eigi. Ekki höfðu víkingar til lands komit síðan Þorgils kom í vestri bygð. Sá maðr var á Grænlandi er Án hinn heimski hét, hann hljóp um allt land kunnr öllum mönnum. Þorgils lá í einum leynivági ok hafnleysu. Eitthvert sinn stígr Þorgils á bát ok rær frá skipinu; hann sér matsveina á landi ok höfðu graut í kötlum. Þorgils hafði vánd klæði er hann kom til þeirra. Þeir spurðu hverr hann var. Þorgils svarar: ek heitir Án. Þeir hlógu at honum, enda lét hann heimskliga. Hann spyrr hvar höfðingi þeirra er; þeir sögðu hann vera á eyjunni skamt í brott ok þangat ván til þeirra um kveldit. Þeir færðu hann í reikuð. Ferr Þorgils nú til báts síns ok hvelfir

honum undir sér; þeir hlógu at honum ok mæltu: undarliga bregðr nú við, sagði annarr. Hvat er þat? sagði félagi hans. Maðr er kominn í bygðina sá er Þorgils heitir, mikill ok frægr, ok því kemr höfðingi várr eigi til lands, ok heillabrigði er nú vorðit. Ek heyrða í morgin er ek kom út þetta mæla skipin. Þat skip er Stakanhöfði hét mælti þetta: veiztu þat, Vinagautr, at Þorgils skal eiga okkr? Veit ek þat, sagði annat skipit, ok þikki mér þat vel; ok ætla ek, segir hann, slíkt fyrir tíðindum. Nú ferr Þorgils aptr til skips síns. Í þat mund róa víkingarnir at lægi. Þorgils leggr þá at þeim; vóru víkingarnir komnir til skála; koma þeir Þorgils þá á úvart, ok lætr hann þegar leggja eld í skálann; varð lítil vörn af víkingunum; gefa þeir sik upp ok beiða griða. Þorgils kvað þess enga ván fyrir mörg illvirki er þeir höfðu unnit; var lið þeirra allt drepit utan þeir buðu formanni þeirra grið. Hann kvaðst eigi þat þiggja vilja, þvíat ek verðr yðr aldri trúr; hann var þá högginn. Þeir tóku þar fé mikit ok höfðu þat með sér ok svá skipin Stakanhöfða ok Vinagaut; fóru nú til lands; tók Bjálfi vel við þeim. Þorgils gaf mörgum mönnum fé þeim er mist höfðu fyrir víkingunum, ok hefir þó mikit sjálfr; verðr hann nú vinsæll af þessum verkum. Hrólfr var þá norðan kominn ok í frið tekinn. Þorgilsi líkar illa við Eirek. Þorgils spyrr til Snækolls ok kvaðst vilja finna hann. Þorsteinn hvíti kvað betr fallit, at hann seldi Snækoll við verði en dræpi hann. Þat gerði Þorgils. Þrælarnir höfðu fengit góð kvánföng. Þorgils tekr fé allt af þrælunum en seldi þá í þrældóm. Eptir þetta fór Þorgils brott með góðri sæmd ok virðing; láta í haf; berr þá at Írlandi, koma vestan at landinu, tala nú um hvárt þeir skulu þar vera um vetrinn eðr brott halda. Þorsteinn kvað úráðligt brott at halda, er sumar var mjök á liðit. Tóku menn sér þá vistir nær skipi. Þorgils var á vist með þeim manni, er Anakol hét, var honum þar blíðliga veitt. Nú líðr á vetrinn. Anakol var vanr at drekka í brottu um hálf jól. Hann bauð Þorgilsi at fara með sér, hann þá þat. Þeir Kolr ok Starkaðr vóru heima meðan til umsjár við Þorfinn. Giparr hét þræll Anakols, hann bað Kol drekka karlmannliga, er þat auðsætt, sagði

hann, at þér þikkist mikils verðir. Kolr kvaðst ætla at ráða drykkju sinni en hann eggjan sinni. Giparr ámælti honum mjök, ok þar kom at hann laust Kol með horni, ok bað hann þat hafa fyrst ok bíða svá hins verra. Starkaðr gékk á milli, ok vildi eigi hefna láta fyrr en Þorgils kæmi heim. Nú koma þeir Þorgils ok bóndi heim, ok er þeim sagðr þessi atburðr. Þorgils kvað þat vel vera þó eigi hefði hefnt verit; höfum vér þegit góða vist í vetr hjá bónda; nú vil ek til bóta mæla, ok svá gerði hann. Bóndi kvaðst ekki þræla mundu mun gera þótt þeir hnippist. Þorgils kvað eigi vel svarat; ok er boðsmenn vóru brottu farnir, þeir er drukkit höfðu þar efra hlut jólanna, tóku þeir Þorgils Gipar ok drepa hann eptir jólin. Síðan fóru þeir Þorsteinn til skips ok bjuggust til varnar. Þeir sá lið mikit fara með skjöldum, eigi færa en C manns. Þá mælti Þorgils: má vera at oss sé skjótt fullliða. Þá berr brátt at, ok tók höfðingi þeirra til orða: þat var mér þá í hug, er Þorgils þessi gaf í mitt vald systur mína, at eigi munda ek efla flokk í móti honum. Þar var kominn Hugi jarl ok bauð þeim með sér at vera, ok þat þágu þeir. Hugi lét bæta skip þeirra, ok vóru þeir með honum þat eptir var vetrar. Systir Huga lifði ok fagnaði þeim vel. Móðir hennar var önduð. Jarl lét heimta saman fé Þorgils, ok til skips færa, ok setti málum þeirra svá at þeim hugnaði vel, ok gaf þeim gjafir áðr þeir fóru brott.

Síðan létu þeir í haf ok velktust úti lengi ok kvómu við Hál- 27
ogaland um haustið, ok brotnaði kjölrinn undan skipinu. Björn hét góðr bóndi, hann tók við Þorgilsi, Þorfinni ok Kol, en Þorsteinn, Þorleifr ok Starkaðr vistuðust þar í nánd. Snemmendis bættu þeir skip sitt. Sá maðr hvarflaði þar um land er Randviðr hét, hann var illmenni mikit. Hann kom til Bjarnar bónda ok kvaðst vilja taka við dóttur hans, er Ynghildr hét, eðr berðist við hann ef hann vildi þat heldr. Þorsteinn vildi berjast við þenna mann. Eigi vildum vér, segir Þorgils, at þú hefðir þik í hættu fyrir illmenni þetta, ok vil ek heldr berjast við hann. Þorgils finnr Randvið ok bað hann láta bónda vera í friði gamlan mann. Hann kvaðst einskis mundu hans orð um þat virða. Þorgils mælti:

ek vil leysa bónda. Þorgils gengr á hólm við Randvið ok höggr þegar skjöld hans únýtan; því næst höggr hann kappann sundr í miðju, en við höggit skaut Randviðr sverðinu utan á kné Þorgilsi ok særði hann. Þat sár gréri svá, at fótr hans sá var skemri síðan, ok varð hann aldri úhaltr. Björn þakkar honum vel ok bauð Þorgilsi fé, en hann kvaðst þat eigi til fjár gert hafa; skildu þeir vinir.

28 Eptir þat létu þeir í haf ok höfðu harða útivist þar til er þeir sá land, þá tók af byrina ok kom á norðanveðr hvast ok rak þá undan XII daga. Síðan kom sunnan veðr hvast, ok sigldu tvau dægr at landinu; þá vildi Þorgils eigi lengr sigla láta. Hann var þá tvau dægr í austri. Þá höfðu gengit átta áföll. Starkaðr bauð honum at fara frá austri. Þá kom áfall et níunda ok var þat mest, þat rak Þorgils af austrbitanum ok sló sveininn Þorfinn ór knjám honum ok utanborðs. Þá mælti Þorgils: sú bylgja gékk nú yfir at eigi þarf at ausa. Báran kastaði inn aptr sveininum lifanda. Hann mælti þá: stórum stauplar nú yfir, faðir minn. Þorgils mælti þá: ausi hverr sem má. Þeir gerðu svá, ok gátu upp ausit. Samdægris kom blóðspýja at sveininum ok andaðist hann. Tveim náttum síðarr þá sá þeir Hjörleifshöfða. Þeir kvómu í Arnarbælisós. Nú vildu þeir fara með lík Þorfinns til kirkju. Þorgils kvað þá lengi fylgzt hafa, sagði þá ok eigi at svá búnu skilja mundu. Þorsteinn spurði Starkað, hvárt hann vildi heldr tey[g]ja Þorgils á land eðr fara með líkit til graptrar.

29 Sigmundr hét maðr, hann heimti skiptoll at Þorsteini þvíat hann átti land at annast þar er þeir vóru komnir. Nú gerðu þeir Þorsteinn ok Sigmundr þat ráð at þeir hniptust við. Þá sagði Kolr Þorgilsi at Þorsteinn þyrfti manna við. Þorgils hleypr þegar á land ok beit þetta ráð; urðu þeir Sigmundr ok Þorsteinn vel sáttir. Kolr tók lík Þorfinns ok gróf í kirkjugarði, ok er Þorgils verðr varr við hvat Kolr hafði gert, varð hann reiðr mjök ok hét honum bana. Kolr kvað þat til vinnanda ef Þorgils raknar við þá heldr en áðr. Ok við umtölur Þorsteins sættust þeir. Fjögr dægr hafði Þorgils hvárki mat né svefn. Þorgils kvaðst mundu

várkynna konunum þótt þær ynni brjóstbörnunum meira en öðrum mönnum. Litlu eptir þing kvómu þeir Þorgils út ok fór hann heim í Traðarholt ok Þorsteinn með honum ok aðrir félagar. Hæringr bróðir hans tók við honum vel, ok vildi at Þorgils tæki við fjám sínum. Þorgils kvaðst eigi vilja við taka fyrr enn at vári. Þorleifr[1] fór utan samsumars; skildu þeir Þorgils vel sitt félag. Þorgils var í Traðarholti um vetrinn ok þeir bræðr með honum, Kolr ok Starkaðr, með honum vóru fleiri menn þótt eigi sé nefndir. Hæringr veitti þeim vel. Þorgils mælti eitt sinn við bróður sinn: einn hlutr þikki mér at við þik, frændi, er þú lézt svá mikit fé fylgja dóttur minni Þórnýju þá er þú giptir hana Bjarna í Gröf. Hæringr svarar: vel þótti þá sét fyrir kosti hennar, er hon hafði hundrað hundraða, en ef þér þikkir nokkut oftekit þá haf af mínu fé slíkt er þér vel líkar. Þorgils vildi þat með engu móti.

At liðnum vetri tekr Þorgils við búi sínu ok öðrum fjárhlutum; 30
feldu menn þegar mikla virðing til Þorgils. Hann var heldr fár við Bjarna mág sinn. Um várit kom fjölment til Árnessþings, kom þar Þorgils ok Bjarni mágr hans ok Þórný dóttir hans Þorgils gékk einn morgin til búðar Bjarna ok tók sverðit Jarðhússnaut í hönd sér, ok er hann kemr í búðardyrnar, sér Þórný dóttir hans at hann er kominn, ok bað Bjarna upp standa, kvað honum eigi hlýða svá búit, sagði föður sinn reiðan. Bjarni spratt upp þegar, þvíat hann var vitr maðr, ok gékk í móti Þorgilsi ok fagnar honum vel ok bauð honum þar at vera, ok allt mitt góz er þér heimolt til þess at þér megi þá betr líka við mik heldr en áðr. Þetta er allvel mælt, segir Þorgils, ok skal þetta þiggja, ella úvíst hversu farit hefði. Bjarni bauð honum þá til heimboðs. Þorgils kvaðst fara mundu af þinginu með honum ok hafa brott fé slíkt er honum líkaði. Bjarni bað hann því ráða, ok koma þeir í Gröf ok lítr Þorgils á féit ok kvaðst brott mundu hafa XX kýr ok C ásauðar. Þórný bað hann [hafa] slíkt er hann vildi, ok sagði þat mundu bezt

---

[1] *Soll wohl sein* Þorsteinn.

gegna at hann réði fyrir. Maðr hét Þórólfr, hann hafði verit Þórði föður Þorgils, hann átti fé at Þorgilsi, ok beiddi Þorgils at hann mundi gjalda Þórólfi XL hundraða. Bjarni hét at hann skyldi ráða; skildu við svá búit, ok er Þorgils kom heim, kom þar Þórný dóttir hans. Þorgils spyrr hvat hon vill; hon sagðist vilja fylgja fé sínu, ef honum þætti þat meiri sómi at skilja með þeim Bjarna, ok ráða þess manns traust undan mér, er þér er mestr bati í, ok þér er sjálfrátt at láta þinn hlut fyrir neinum manni, ef þit erut at einu ráði báðir. Þorgils svarar: vel ferr þér, dóttir, ok vel ferr ykkr báðum; nú skaltu heim fara, ok vil ek eigi skilja ráðahag með ykkr Bjarna, ok leggr þeim nú svá penninga at þeim vel líkar. Ok um sumarit býðr Þorgils Bjarna ok báðum þeim heim í Traðarholt, ok þágu þar góðar viðtökur ok miklar gjafir, ok er nú góð vinátta með þeim Bjarna. Einnhvern tíma segir Þorgils Bjarna, at hann vill leita sér kvánfangs. Bjarni kvaðst þat gjarna vilja. Þú skalt biðja Helgu, dóttur Þórodds goða í Ölfusi Eyvindarsonar, frænda míns, en þar var svá farit frændsemi, at móðir Þórodds var Þórvör dóttir Þormóðar, en Þórvé [1] var móðir Þorsteins goða, föður Bjarna spaka. Þorgils vekr nú bónorðit. Skapti tók því seint ok svá Helga sjálf, þótti maðr stórlyndr ok þó heldr gamall. Annarr maðr bað ok Helgu var þat Ásgrímr Elliða-Grímsson; svarar Skapti þar vel til, en Þóroddr vill heldr gipta Þorgilsi. Nú var þetta talat á þingi, ok var ekki at gert. Líða nú þau misseri, ok annat sumar eptir ríðr Þorgils til skips í Einarshöfn; hann fréttir til ferða Skapta, ok vildi fyrir víst finna hann. Þorgils reið til Flóagafls við VI. mann; þeir vóru með honum bræðr, Kolr ok Starkaðr ok Þórólfr frændi hans ok tveir húskarlar; þeir vóru í hrísum nokkurum, ok bíða svá Skapta. Þetta var nær Kallaðarnesi. Skapti sá frá ferjunni at hestar með söðlum géngu með ánni. Skapti sagði at þeir mundi aptr snúa, kvaðst frétt hafa at síðarr mundi betri kaupin ok fóru þeir heim. Þóroddr spurði hví hann færi svá skjótt aptr, eðr hræddist þú

---

[1] *emendirt nach* Lndn. V, 11; Þórey *Hds.*

hann, hraunskeggjann, Þorgils, ok þætti mér þat betra at ríða úhræddum um heraðit ok gipta honum Helgu, en vera hvergi úhræddr um þik. Á þingi um sumarit var talat um gjaforð Helgu, dregr Þóroddr fram með Þorgilsi, en Skapti með Ásgrími. Þóroddr mælti þá: ek kann sjá hversu fara mun, ef Þorgilsi er synjat konunnar, þá mun þat margra manna vandræði, en ek væntir með vingjöfum góðum, at Ásgrímr láti úhappalaust. Nú við þessi atkvæði Þórodds var þat af ráðit at Þorgilsi var föstnuð Helga, ok var brúðhlaup at Hjalla; þá var Þorgils hálfsextugr; ferr hann nú heim í Traðarholt með Helgu ok var hon mjök fálát; ok eitt sinn er Þorgils var á brottu at byggja jarðir sínar kveðst Helga vilja fara til Hjalla ok heim um kveldit, ok bað húskarl einn fara með sér. Ok er þau koma til Hjalla, kvað Helga húskarlinn eigi þurfa sín at bíða. Skapti tók vel við Helgu en Þóroddr illa; er hon þar margar nætr. Þorgils kemr heim ok lætr sem hann viti eigi. Ok einn dag býr hann ferð sína ok ríðr til Hjalla ok vóru menn at mat. Þorgils gengr með borðum alvápnaðr ok at Helgu, tekr í hönd henni ok leiðir hana út, ok sýndist þeim maðrinn, sem inni sátu, eigi dælligr. Skapti biðr menn eptir sækja. Þóroddr svarar: Þorgils sækir eptir sínu, ok skal mönnum eigi hlýða at fara eptir honum. Þorgils ríðr nú heim, ok sendir hann orð Skapta at þeir hittist; er nú svá gert; sættast nú [við umstilli[1] Þórodds ok gerðist vinátta með þeim, ok varð Þorgils höfðingi ok virðingamaðr mikill.

Frá því er sagt eitthvert sinn at þau Þorgils ok Helga sátu 31
úti ok hrein hænan við hananum, en haninn leggr at henni ok berr hana þar til er hon mæðist. Þorgils mælti: sér þú, Helga, sameign þeirra hana ok hænu? Helga svarar: hvers er þat vert, segir hon. Svá má vera, segir Þorgils, annarra viðreign. Gerast nú góðar samfarar þeirra. Son áttu þau Þorgils ok Helga, er Grímr glömmuðr hét. Þorgils var nú gamall ok þó hraustr. Sá maðr bjó skamt frá Þorgilsi er Sámr hét, kona hans hét Þorfinna. Sá

1 [v̄stilli *Membrane.*

maðr var þar í sveit, er Bjálfi hét, úeirðar maðr, hann glapti konu Sáms ok settist í bú hans löngum, en heitaðist við bónda. Honum líkar þetta illa. Bjálfi bauð bónda hólmgöngu, ella gef upp konu þína. Sámr ferr nú at finna Þorgils, ok segir honum at Bjálfi bauð honum einvígi. Ek skal hjálpa við þínu máli, segir Þorgils; ferr Sámr nú glaðr heim. Annan dag ferr Þorgils ok hittir Sám, hann fagnar honum vel, ok litlu síðarr kom Bjálfi ok spurði hví hann væri þar ok kvaðst enga þökk kunna hans kvámu. Eigi ferr ek at því, segir Þorgils, þvíat vel má ek þar koma sem þú kemr, ok þar sem þú hefir boðit Sámi einvígi skaltu mér mæta en eigi honum. Bjálfi svarar: þat kemr til þess, at Sámr, greyit, þorir eigi at berjast við mik. Nú ganga þeir á hólm, ok er eigi sagt frá viðskiptum annat en Þorgils drepr Bjálfa, ok frelsti svá bónda, ok nauztu þess at, segir Þorgils, at þú vart svá nær mér. Ásgrímr Elliða-Grímsson var höfðingi mikill ok framr, ok átti skip í ferðum, hann átti tvá sonu ok hét hvárrtveggi Þórhallr. Hinn ellri Þórhallr var þroskaðr mjök þá er þetta var. Gunnvör hét dóttir Bjarna í Gröf, hon var eigi dóttir Þórnýjar. Gizorr hvíti bjó þá í Höfða ok átti Þórdísi dóttur Þórodds. Móðir Ásgríms var Jórunn Teitsdóttir. Þorgils[1] átti land nær skipa lægi, ok lá þar á hafnartollr, ok heimti sá maðr skiptollinn, er á landinu bjó, ok galt Ásgrímr aldri toll þeim er á landi Þorgils bjó.

32 Eitthvert sinn hittir [Þorgils Ásgrím[2] ok biðr at hann minnist í nokkuru um tollinn. Ásgrímr segir, at skip koma þar sem auðit verðr, en kvaðst eigi vanr at gjalda skiptolla sem smábændr, ok bað hann eigi heimta slíkt. Þorgils kvaðst þat fyrir annars hönd gera, en eigi fyrir sína, ok skilja þeir nú við svá búit. Um várit vóru menn kvaddir af Ásgrími til skipsdráttar ok kom fjöldi manns. Pyttar vóru um sandana víða ok vóru fullir með vatni, þóat fjaran væri. Ásgrímr tók á festum í fremra lagi, ok

---

[1] *So von* Árni Magnússon *am Rande emendirt;* Ásgrímr *Hds.* [2] *So von* Árni Magnússon *am Rande emendirt;* [Ásgrímr Þorgils *Hds. und so hat in der Membrane gestanden.*

vóru þar mest konur hjá honum; hann var í litklæðum; tóku nú fast á. Maðr reið á landinu fyrir ofan mikill vexti ok hafði boløxi í hendi, hann horfir á skipdráttinn. Ásgrímr eggjar nú fast at menn herði sik vel. Ok er Þorgils var kominn at flæðarpyttinum, sá hann at Ásgrímr hélt á strenginum; hleypr hann þá til, ok höggr strenginn, ok verðr aptrhlaupit hart, ok hrapar Ásgrímr í pyttinn, ok konurnar á hann ofan; vurðu öll klæði Ásgríms vát ok þrekkótt ok svá hann sjálfr. Þetta þikkir honum mikil svívirðing ger til sín; verðr nú viss hverr gert hefir, ok kvað þá Þorgils varla mega við svá búit skilja. Þórhallr bað hann utan fara, ok megi þá sjatna þessi úþokki, er í millum ykkar er. Ásgrímr kvaðst mundu ráða sjálfr ferðum sínum.

Þat var einhvern tíma, at Þórhallr bað Ásgrím föður sinn fara með sér til kvánbæna til móts við Bjarna bónda í Gröf. Ásgrímr segir, at þat var í mörgu lagi góðr kostr, en illt þikki mér, at Þorgils er þar nokkut við riðinn. At Þorgilsi er ekki mein, segir Þórhallr. Síðan fara þeir. Bjarni svarar vel, ok er þessum ráðum ráðit. Ásgrímr biðr at Þorgilsi skuli eigi bjóða til boðsins. Bjarni svarar, ok kvaðst honum mundu allvel fagna ef hann kæmi, en gera eigi mann til hans fyrir bæn þína. Bjarni býst nú við brúðhlaupinu. Einn dag kemr Þórný inn, og segir at maðr reið ór skógum neðan, ok er líkr föður mínum. Bjarni gékk út ok var Þorgils kominn, ok þræll hans með honum. Bjarni fagnaði honum vel. Þorgils mælti: hví bautt þú mér eigi til boðsins, mágr. Þér er jafnan sjálfboðit, segir Bjarni, ok þá velkominn, er þú vill verit hafa. Ásgrímr kom um kveldit ok gékk Bjarni í móti honum ok fagnaði honum vel. Þá spurði Ásgrímr hvárt Þorgils væri þar; hann kvað hann þar vera, ok mun hann hér dveljast; gerða ek nú sem þú mæltir, at ek bauð honum eigi, en ávalt skal hann vera hér hjá mér, er hann vill. Ásgrímr verðr óðr við, ok vill ríða heim. Þórhallr biðr hann eigi þat gera, ok þat verðr at hann er þar, ok er heldr úglatt um boðit; ok er menn búast frá boðinu, sjá menn, at þeir fara húsa á milli, Ásgrímr ok Kolr þræll, ok töluðu. Nú ríða menn um kveldit heim. Þorgils

bóndi ok þræll hans Kolr riðu síð um kveldit ofan hjá húsatóptum. Ásgrímr hafði fengit þrælnum þrjár merkr silfrs til höfuðs Þorgilsi. Kolr hafði hest latan, ok hinkaði hestrinn undir honum, Þorgils laust þrælinn, ok féll fésjóðrinn undan yfirhöfn hans. Þorgils spyrr hvaðan féit kom at. Þrællinn sagði sem var. Síðan drap hann þrælinn þar sem nú heitir Kolslækr. Nú þikkir Þorgilsi Ásgrímr sannr at fjörráðum við sik; lætr nú safna mönnum, ok verða vel XL, ætlar nú at fara stefnuför til móts við Ásgrím. Nú hittir Gizurr hvíti Þorgils, ok spyrr hversu hann ætlar til um ferðir sínar, hann kvaðst ætla at sækja heim Ásgrím Elliða-Grímsson. Gizurr svarar: þat er úráðligt, þvíat hann er miklu fjölmennari en þú. Þorgils kvaðst eigi hirða um fjölmenni hans. Nú letr Gizurr ferðarinnar, ok at bæn hans reið hann í Eyna[1], ok kvaddi IX búa. Eptir þat fara þeir í brott, ok þikkir sem lögfult sé.

33 Nú koma menn til þings fjölmennt. Skapti spyrr mág sinn Þorgils hvern málatilbúnað hann hefði haft; hann kvaðst hafa IX búa kvadda. Skapti svarar: ‚varat af vöru,‘ sleikti um þ[v]öru, sæll mágrinn, láttu niðr detta, engu er nýtt. Hví mun þat sæta? segir Þorgils. Skapti svarar: kunnig eru mér lög, mágr, sagði hann, svá at ek sé gerla at engu er nýtt til búit, ok er betr at niðr falli, því at svá hafa farit skipti ykkur, at þú hefir vanvirðu enga af fengit. Sefast Þorgils nú við umtölur mága sinna; ríða menn nú af þingi ok falla niðr þessi mál öll.

34 Helgi hét austmaðr er út kom í Einarshöfn ok átti ferð upp í herað, ok fór með varning sinn upp í Þrándarholt. Þorgils reið at ór Gröf. Þeir riðust á móti Helgi ok Þorgils ok riðu hart. Ok er þeir riðust á víxl stakaði Þorg[ils] mjök svá af baki, ok hló at honum við austmaðrinn, en Þorgils var allbjúgr á baki þvíat veðr var kalt. Helgi mælti þá: lítt sér þat nú á þér, Þorgils, at þú hefir verit kallaðr garpr mikill, enda ertu nú gamall. Þorgils svarar: ekki hafa menn þat mjök plagat hér til at gabba mik; en svá hæðiligr ok gamall sem þér þikkir ek vera, þá býð ek þér

[1] *D. i. die Dingstelle in* Árnesþing.

þegar í stað einvígi, ok er þá fullreynt hvárr af öðrum berr. Helgi kvað enga ván í at hann hrykki eigi við, ok mun lítill frami í at bera af fretkarli þínum. Austmaðrinn hafði bolöxi í hendi. Þorgils mælti: hvassara vápn muntu hafa þurfa, ef bíta skal höfuðbein mín. Þorgils hafði sverðit Jarðhússnaut ok alvápnaðr, ok hljóp geyst at honum, ok höggr til hans með sverðinu, ok kom á öxlina, ok vanst honum þat skjótt til bana. Þorgils var þá sjautugr, ok kvað þetta verit hafa et mesta glappaverk, ok kvaðst þetta mundu bæta. — Tveim vetrum síðarr kvómu tveir bræðr Helga út, ok varð eigi vart við skipkvámuna; hét annarr Einarr en annarr Sigurðr. Þeir fóru þegar í Traðarholt, ok var þat um kveld, ok vóru eigi í almenningshúsum. Ok um morgininn er verkmenn vóru farnir til starfs, fóru þeir bræðr heim í bæinn ok námu staðar við skáladyrr, ok töluðust við [1] um hríð hversu þeir skyldu með fara. Eigi þikkir mér gott at drepa gamlan mann, [segir Einarr]. Þorgils heyrir nú þeirra umræðu, ok sprettr upp þegar ok tekr sverðit Jarðhússnaut, ok bað þá at ganga ef þeir vildi. Einarr mælti: ekki þarf at eggja okkr til bróðurhefnda, því fullvel megum vit þik yfirvinna ef vit viljum, en eigi skal þér nú, bóndi, nokkurn úfrið gera, ok skal nú vera annat erindi okkat bræðra. Þorgils tók þessu vel ok svarar: ek em ok þess miklu fúsari, þvíat ek þikkjumst sjá gerla, at þú munt vera góðr [drengr], ok þar sem ek drap bróður ykkarn, þá vil ek þat fullu bæta, ok vil ek, Einarr, gefa þér nú sverðit Jarðhússnaut, því mér lízt svá á þik, at þú megir þat vel bera. Bróður þínum vil ek fá fimm merkr silfrs. Síðan skildu þeir með góðum vinskap, ok fóru þeir bræðr utan eptir þat.

Þat var einn tíma at þau Þorgils ok Helga fóru til Hjalla til 35
heimboðs, ok eptir þat tók Þorgils bóndi sótt, hann var þá hálfníræðr; hann lá viku, ok andaðist síðan. Þessu nærri andaðist Þóroddr bóndi ok Bjarni bóndi enn spaki; vóru þeir allir jarðaðir at þeirri kirkju er Skapti lét gera fyrir utan lækinn, en síðan

---

[1] með *Hds.*

vóru færð bein þeirra í þann stað, er nú stendr kirkjan, þvíat Skapti hét at gera kirkju þá er Þóra braut fót sinn þá [er] hon var at léreptum sínum. — Þorgils örrabeinsstjúpr þótti hinn mesti merkismaðr, vinfastr ok vel stiltr, þrautgóðr, djarfr ok þó stórráðr, ef honum var í móti gert; þoldi vel ok karlmannliga stórar mannraunir. Frá honum er kominn mikill ættbogi. — *Börn þeirra Þorgils ok Helgu vóru þau Grímr glömmuðr, [Illugi ok Þórðr.*[1] *Þorlákr biskup var Þórhallsson, móðir hans*[2] *var Eyvör; móðir Eyvarar var Jórunn, dóttir Þorgils örrabeinsstjúps ok Helgu. Oddr*[3] *hét son þeirra*[4], *hann var faðir Jóns, föður Gizurar, föður Gríms, föður Guðlaugar, móður Jörundar biskups. Sonr Gríms glammaðar Þorgilssonar var Ingjaldr faðir Gríms, föður Einars, föður Hallkötlu, móður Steinunnar, móður Herdísar,*[5] *móður Bjarnar, föður Gizurar galla, föður Hákonar, föður Jóns.*[6]

---

1 *Statt dieser zwei Namen geben die* Biskupaættir, Ísl. I. (1843) *s.* 359: Einarr fóstri Knúts hins ríka. 2 *d. h.* Þórhalls. 3 Hallvarðr *genannt in* Biskapaættir *ebd.* 4 *soll heissen:* hét son Jörunnar, *siehe ebd.* 5 *Vgl.* Rafnssaga *cap.* 4 *u.* 20. Biskupa sög. I, 643, 676 *und* Hauksbók Lndn. V, 9. 6 *Der Schluss* (*Z.* 6—14) *ist ohne Zweifel ein Zusatz des Abschreibers.*

# BEILAGEN

## MEMBRANFRAGMENT von VATNSDÆLASAGA

Cod. AM. 445b, 4⁰

. . . . koma, ok væri eigi illa þótt slíkir menn væri af ráðnir. [19] Oddr kveðst ætla, at annan veg mundi honum þikkja ef svá yrði, en þar er þó sá maðr er við alla vill illt eiga, ok virða menn þik til, at eigi eru stórar atgerðir hafðar. Oddr fór heim ok undu þeir feðgar illa við sinn hlut. Uni mælti: Oddr frændi, sagði hann, mjök kemr þetta til þín, at þú ert nú maðr ungr ok til alls vel færr, en ek er nú örvasi fyrir aldrs sakir ok má ek ekki. Nú þótt hann sé harðr maðr en móðir hans margkunnig, þá má þó eigi svá búit vera. Oddr segir, ok kveðst í mundu leita nokkurs. Eitt kveld bjóst Oddr við V. mann í fyrirsát við Hrolleif, en þeir fóru II samt, þá var Ljótr frændi hans með honum; ok er fundi þeirra bar saman þá spratt Oddr upp ok mælti: nú má vera at stöðvist ferð þín, Hrolleifr, at sinni, ok setist nú ilska þín, ok vefist þér um höfuð. Hann kvað enn úsynt hvárr þeirra mest mætti fagna at þeirra skilnaði, þótt þér sét nú fjölmennari en ek, ok ekki ætla ek nú undir þótt nokkurum blæði. Síðan hlupust þeir at ok börðust. Hrolleifr var harðr maðr ok afreyndr at afli, hann hafði ok kyrtil þann er móðir hans hafði gert honum ok eigi festi vápn á. Nú er frá þeim at segja, at Oddr vá Ljót en gékk síðan í mót Hrolleifi ok mælti, illa bíta nú vopnin, Hrolleifr, ok alls konar er þér illa farit, bæði fjölkyngi ok þó at öðru illa siðaðr. Síðan slæmdi Oddr á fót Hrolleifi, ok beit þar er kyrtillinn tók

eigi. Oddr mælti: eigi hlífði nú gerningakyrtillinn. Síðan hjó Hrolleifr til Odds, ok veitti honum banasár ok enn annan mann drap hann, en III kvómust á flótta. Þat var síð um kveld upp frá bæ Una. Hrolleifr kom heim ok sagði móður sinni, at illa hafði vegnat þeim er í mót honum höfðu verit; hon lét vel yfir því at eigi réði búkarlar eðr synir þeirra ferðum hans þeir er sættu illyrðum við hann. Hrolleifr kveðst nú hafa launat Oddi þat, er hann hrakti mik mest, ok kvað mik at öllu úsamjafnan duganda manni, en ek spáða honum þat sem nú er fram komit, at vaxa mundi hans svívirðing af okkrum fundi, sem nú gafst honum. Uni fór á fund Höfða-Þórðar, ok sagði honum sín vandræði um víg Odds sonar síns, ok vilda ek hafa liðsinni þitt at rétta mitt mál, liggr þar ok við mjök þín sæmd, at úreiðumenn hefist eigi hér í heraði. Þórðr kvað hann satt segja, ok mikill vandi er oss á hendr kominn, en þó er Sæmundr skyldastr at leysa úhæfu frænda síns ok færa hann or heraði. Síðan fóru þeir á fund Sæmundar, ok báðu hann rétta málit, ok sagði Þórðr eigi honum sama annat. Sæmundr kvað svá vera skyldu. Var þá tekin upp bygð hans. Hrolleifr fór til Sæmundar ok móðir hans en menn fengnir til at varðveita bú hans. En á sáttarfundi um várit lukust svá málin at Uni tók við landi hans Hrolleifs at sakabótum en Hrolleifr var gerr heraðssekr svá víða sem vötn féllu til Skagafjarðar. Sæmundr minnist nú á fornt vinfengi þeirra Ingimundar, ok finnast þeir ok kvöddust vel. Sæmundr mælti: svá er til farit, fóstbróðir, at maðr sá er kominn er til mín er eigi þikkir hægr í skaplyndi, en hann er frændi minn ok heitir Hrolleifr, nú vilda ek at þú tækir við honum ok móður hans ok fáir þeim þar ráðstafa í þinni sveit. Ingimundr segir: ekki hafa þau góða orðheill ok er ek úfúss at taka við þeim, en synsemi mun þér í þikkja ok eigi stórmannligt ef ek synja, en í meðallagi er oss fallit, þvíat ek á sonu suma ekki skaphæga. Sæmundr segir ok kvað hann hamingjudrjúgan ok alla farsælast af honum. Ingimundr lét þat þá reynt er . . .[1]

[1] *Lücken in der Membr.*

ek . . . Síðan fór Hrolleifr út þangat ok móðir hans Ljót með honum . . . nú tók Ingimundr við þeim ok vóru þau með honum 21
II vetr eðr III . . . skiptu ekki skapi. Hrolleifr var glettinn viðr sonu Ingimundar, en þeir stóð[ust] illa ok varð þar mest at er Jökull var. Þeir áttu svo leika saman, at við meiðingar hélt. Jökull kvað illa vorðna sendingina Sæmundar, ok sætir þó hófi, sagði hann, ef eigi verðr meira at, ok kvað aldri þann mannfjánda skyldu yfir þá ganga. Eingi var munr þeirra á vöxt eðr afl, hvárrtveggja var ærit sterkr. Ingimundr mælti: illa gerir þú, Hrolleifr, at þú stillir eigi skap þitt, ok launar eigi góðu gott; nú sé ek at eigi má svá búit endast, ok mun ek fá þér bústað hér í Ási. Hrolleifr kvað þat eigi mundu sér úvinveittara en vera þar viðr illvilja sona hans. Ingimundr mælti: leitt er mér at segja þik afhendan, þvíat þat hefi [ek] aldri gert ef ek hefi við manni tekit. Þorsteinn kveðst ætla at síðarr mundi verra. Ingimundr bygði Hrolleifi ok Ljót móður hans í Oddsási nokkuru sunnar en Hofsbær, ok bjoggu þau þar lengi síðan, ok hélt hann í öllu til jafns við sonu Ingimundar. Í þenna tíma kvómu út bræðr II Hallormr ok Þórormr, ok vóru auðigir menn; þeir vóru með Ingimundi um vetrinn. Þórormr hefir upp orð sín ok biðr Þórdísar dóttur Ingimundar; honum var vel svarat, kvað Ingimundr sér at honum mikit traust ok styrk. Ingimundr lét fylgja heiman dóttur sinni Karsnesland. Þeirra son var Þorgrímr, en Þórormr bjó í Tungu hinni neðri í Víðidal ok var síðan köllut Þórormstunga.

Þess er getið at veiðr var mikil í Vatnsdalsá ok gékk stór lax 22
í ána. Þeir skiptu með sér verkum bræðr synir Ingimundar, þvíat þat var siðr ríkra manna sona í þenna tíma at hafa nokkura iðn fyrir hendi. At þessu vóru IIII bræðr, Þorsteinn ok Jökull Þórir ok Högni, en Smiðr hafðist annat at. Þeir bræðr fóru í ána ok féngu mikit af. Hrolleifr hafði venju sína ok hafði illar búsifjar við alla þá er í nánd vóru, hafði þat ok ekki verit vinaráð er Ingimundr tók við honum. Synir Ingimundar kunnu því stórilla er Hrolleifr sat yfir kostum þeirra en miðlaði illt eina af sér, ok kölluðu þat mest orðit hafa feðr sínum at taka hann til

sín. Þeir áttu veiði allir samt Hofsmenn ok Hrolleifr, en svá var mælt at Hrolleifr skyldi hafa veiði ef eigi kæmi synir Ingimundar til eðr þeirra menn, en skyldi hann ór ganga ánni fyrir þeim ok þeirra mönnum, en at því gaf hann eigi mikinn gaum, þvíat hann virði meira vatnfiska, at heim kæmi sem flestir, en manndáð ok makligleika. Ok eitt sinn er húskarlar kvómu til árinnar, mæltu þeir til hans, at hann skyldi rýma netlögin fyrir þeim; hann kveðst gefa at því engan gaum hvat sem þeir segði. Þeir svöruðu ok sögðu honum þat betr sama at halda eigi til kapps við þá Hofverja ok kvóðu honum þat eigi mundu endast við sonu Ingimundar þótt hann kæmi því fram við þá. Hrolleifr bað þá dragast í burt illa þræla ok arma ok hæta ekki sér mönnum. Hann keyrði þá í burt hrakliga ok . . . akliga. [Þeir] svöruðu: illa er þér farit, svo mikils góðs sem [Ingimundr er ma]kligr, er hann tók viðr þér, ok gaf þér veiðina, ok veitti [þér mart] annat gott, þar er áðr þóttir þú eigi hæfr með d[ugandi] mönnum. Hrolleifr kvað sik eigi skyldan at ganga or ánni fyrir illum þrælum; hann lætr vaða stein til eins þeirra svá at sá liggr [í svím]a, ok lét þeim eigi skyldu hlýða at vera allfjölorðir. Þeir koma heim ok sátu menn undir borðum. Þeir fóru flaumósa. Ingimundr spurði hví þeir fara svá hrapaliga. Þeir kvóðust reknir brott ór ánni með meiðingum ok svívirðingu af Hrolleifi. Jökull segir: hann mun vilja gerast Vatnsdælagoði ok búa við oss sem við þræla, en þat skal aldri verða at sá manndjöfull gangi yfir oss. Þorsteinn kvað of mikit bragð at vera, en þó . . . . . gæta til með stillingu, ok kvað þó úsýnju vorðit um vist hans. Of mikit er til haft, sagði Ingimundr, en þó gerit svá vel, at þér gætið ráðs, þvíat þér eigit eigi jöfnu til at verja, hann er heljarmaðr, ok ván at illt leiði af. Jökull kveðst reyna skyldu hvárt hann géngi ór ánni ok hljóp upp undan borðinu ok út. Ingimundr mælti: þér trúi ek bezt til, Þorsteinn frændi, um alla stillingina, ok far þú með bræðrum þínum. Þorsteinn kveðst eigi vita hversu hægt vera mundi at halda Jökul aptr, en ek mun eigi standa hjá ef hann berst við Hrolleif. En er þeir bræðr kvómu . . . þá sá þeir at maðr var í ánni ok kendu þar Hrolleif. Jökull mælti:

dragst þú ór ánni, fjándinn, ok dirf þik eigi at þreyta, en vér skulum elligar reyna með oss til fulls. Hrolleifr mælti: eigi at síðr þótt þér sét bræðr IIII þá mun ek fram halda minni sýslu fyrir blóti þínu. Jökull mælti: þinn skelmir treystir töfrum móður þinnar ef þu ætlar at vera oss vandrengr með öllu; réðst þá Jökull út í ána at honum. Hrolleifr fór eigi í burt. Þorsteinn mælti: þú er þrályndr, er vér nám eigi réttu ok mun nú öngu móti þess at leita at láta allt þá allt vefjast svábúit sem þá var komit. Jökull mælti: drepum þá fjánda þenna. Þá lætr Hrolleifr hefjast at landi þar sem grjótið skorti eigi, ok grýtti at þeim ok þeir í móti um ána þvera, ok sumir skutu ok varð Hrolleifi ekki skeinusamt. Jökull vill ráðast at honum annars staðar yfir ána, ok kvað eigi meðalskömm í vera ef þeir bera eigi af honum. Þorsteinn segir: hitt mundi mitt ráð at víkja aptr hingat ok eiga heldr undir oss en ganga í greipr þeim mæðginum, þvíat ek hygg hana skamt frá hefjast, ok er eigi sem [vér] eigim við dándimenn þótt vér eigim við gerningavættir þvílíkar. Jökull kveðst aldri þat hirða, ok leitar af ánni en bræðr hans grýta ok skjóta at Hrolleifi, ok eigast hart við. Nú kom maðr heim hlaupandi ok segir Ingimundi at í úefni var komit, ok þeir börðust um ána þvera, ok er sjá fæstum líkr búi þinn. Ingimundr svarar: tak hest minn ok vil ek til ríða. Hann var gamall ok nærr blindr, hafði þá ok af höndum látið öll fjárforræði ok svá bú. Sveinn var honum fenginn til fylgðar. Ingimundr var í blárri kápu. Sveinninn leiddi hestinn undir honum; ok er þeir koma á árbakkann þá sá synir hans. Þorsteinn mælti: kominn er faðir várr, ok látum hefjast undan, ok mun hann ætla at vér munum gera vilja hans, en hræddr er ek um kvómu hans, ok bað Jökul hepta sik [. . . . . . . . . . . . .
. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . [1]
sá hann skaut hann spjóti til hans ok kom á hann miðjan, ok er hann fékk lagit reið hann aptr at bakkanum ok mælti: þú sveinn fylg mér heim. Hann hitti ekki sonu sína, ok er þeir kvómu heim

---

[1] *unlesbar.*

var mjök áliðit á aptaninn, ok er hann skyldi af baki fara þá mælti hann: stirðr er ek nú, ok verðum vér lausir á fótum hinir gömlu mennirnir. Ok er sveinninn tók við honum slaxaði[!] í sárinu; sá sveinninn þá at spjótið stóð í gegnum hann. Ingimundr mælti: þú hefir mér lengi trúr verit, ger nú sem ek býð, meiri ván at ek krefi þik fás héðan af; far nú ok seg Hrolleifi, at áðr morgin kemr get ek at synir mínir muni þikkjast eiga þangat at sjá eptir föðurhefndum, ok gæti hann svá síns ráðs at hann fari á brott áðr dagr komi, mín er ekki at hefndara þótt hann sé drepinn, en mér samir þó betr at skjóta skjóli yfir þann er ek hefir áðr á hendr tekit, meðan ek má um mæla, hversu sem síðarr ferr. Hann braut spjótið af skapti ok gékk inn með fulltingi sveinsins ok settist í öndvegi sitt, ok bað hann ekki ljós gera áðr synir hans kæmi heim. Sveinninn kom til árinnar ok sá þar laxa marga er Hrolleifr hafði veitt. Sveinninn mælti: þat er sannmæli at þú ert mestr mannhundr. Nú hefir þú þat gert, er vér munum aldri bætr bíða. Hverr hefir þat veitt honum, sagði Hrolleifr? Þú, sagði sveinninn, ok bað hann mik svá segja þér, at þú skyldir eigi morgins heima bíða, kvezt ætla at synir hans mundu þangat eiga eptir föðurhefndum at leita. Nú gerða ek þetta meirr at bæn hans en hitt at mér værir þú svá sparr undir öxi. Hrolleifr segir: trúi ek því, ok skamt rynnir þú héðan, ef þú hefðir eigi þetta sagt
23 mér. Nú er at segja frá Ingimundarsonum at þeir fóru heim um kveldit ok ræddu með sér at Hrolleifr væri endemismaðr. Þorsteinn mælti: enn vitum vér eigi gerla hversu illt vér munum af honum hlotið hafa, ok segir mér ekki létt hugr um ferð föður várs. Þeir kómu heim við kveldit; ok gékk Þorsteinn í eldaskálann, ok stakk niðr hendinni er hann hrataði ok mælti: því er vott, húsfreyja? Hon svaraði: þat ætla ek at runnit muni hafa ór klæðum Ingimundar. Þorsteinn segir: þetta er hált sem blóð, ok kveikit ljós skjótt. Svá var gert ok sat Ingimundr í öndvegi sínu ok var dauðr, stóð þar spjótið í gegnum hann. Jökull mælti: illt er slíkt at vita um svá göfgan mann at slík mannfýla yrði at bana, förum þegar ok drepum hann. Þorsteinn mælti: eigi kantu

góðgirnd föður várs ef hann hefir honum eigi undan komið, eðr hvar er nú sveinn sá, er honum fylgði. Nú fanst hann eigi. Þorsteinn mælti: eigi get ek nú hans heima at vitja, munum vér með ráðum verða eptir at leita en eigi með áhlaupum, en viðr þat munum vér huggast hversu mikill mannamunr er orðinn með þeim Hrolleifi ok njóta mun hann þess af . . . . . . . . . .

## FRAGMENT DER AUSFÜHRLICHEN FLÓAMANNA SAGA

Cod. AM. 515, 4° *und* Cod. AM. MEMBR. 445b, 4°

Þórey hét kona ok var Þorvarðsdóttir; Þorfinna hét móðir 18
hennar, hon bjó í Odda. Þorvarðr var andaðr. Þórey var á fóstri í Kálfaholti með þeim manni er Jósteinn hét, gildr bóndi. Jósteinn átti systur Þorvarðs í Odda er Þorgerðr hét, þau vóru börn Þórðar Freysgoða; Kolr ok Starkaðr vóru fóstbræðr Þóreyjar; Guðrún hét systir þeirra, ok var hon líka fóstrsystir Þóreyjar. Þórey var skörungr mikill ok fríð sýnum. Þeirrar konu biðr Þorgils örrabeinsstjúpr ok þann kost fær hann, ok gerði brullaup til hennar; samfarir þeirra vóru góðar. Hæringr bjó nú á Stokkseyri. Þorgils bjó í Traðarholti, ok gerðist hann ríkr maðr, svá at Ásgrímr Elliða-Grímsson bar ekki af honum á þingum.

Sörli hét maðr, hann bjó skamt frá Kálfaholti, hann venr 19
kvámur sínar í Kálfaholt á fund Guðrúnar, systur þeirra Starkaðar ok Kols; einn tíma ferr Kolr á leið til Sörla ok biðr hann láta af kvámum til Guðrúnar systur þeirra; Sörli kvað mundu þat gera eptir hugþokka sínum en hirða ekki um orð hans. Þú munt ráða, segir Kolr. Annan dag eptir ferr Sörli samt á tal til Guðrúnar; ok um kveldit ferr hann seint heim, ok er hann kemr skamt frá bænum, sprettr Kolr upp fyrir honum; verðr ekki af

kveðjum; höggr Kolr hann banahögg, ferr síðan heim ok segir Guðrúnu at stöðvast muni um kvámur Sörla upp héðan; hon kvað ei þat lasta, en kvað ei svá búit hlýða mundu, þvíat hann var gjafvinr ok þingmaðr Ásgríms Elliða-Grímssonar; far nú ok hitt Þorgils, hann þikki mér líkligastr at veita þér nokkut lið.

Kolr kemr í Traðarholt, þat var síð um kveld, menn sátu yfir borðum, en Þórey húsfreyja bar mat í stofu, þá var barit á dyr, ok gékk hon til hurðar ok heilsar vel Kol fóstbróður sínum, ok býðr honum þar at vera. Hann vill ei þàr svá vera, at ei viti hon tíðindi, er í hans ferðum vóru, ok segir henni síðan vígit, hon lastar lítt, ok kvaðst: við skulu leita at veita honum ásjá, en þó er nokkut vanstilt til við Þorgils, en ærit er traust ef hann vill veita þér, ok mun ek fylgja þér í skot er hér er um skálann, ok heyrðu þaðan á viðræður okkar Þorgils. Hann gerir svá, ok eptir þat ferr hon í stofuna. Þorgils mælti: hví skulum vér svá lengi bíða matar í kveld, ok gott hefir þér orðit til fjár í framgöngunni, klæði rautt hefir þú fengit. Ei veit ek þat, segir hon, en satt er hit fornkveðna, at ‚spakir menn henda á mörgu mið,‘ mús hljóp áðan á kinn mér, en hon er mér harla úþekk. — Svá má vera, segir Þorgils. En er þau kvómu í rekkju, þá kvaðst Þorgils vita vilja, hvat í framgöngunni hafði gerzt; hon segir honum allan atburðinn, ok kvaðst hon ásjá vilja veita Kol, ok muntu svá gera fyrir mína skuld. Þorgils kvaðst svá gera mundu, hefi ek góða vináttu haft af Kol, segir hann. Um morguninn eptir fór Þorgils austr til bús Kols, hann átti bú austr hjá Kálfaholti, ok tók upp féit allt ok lét fara Guðrúnu með sér, en lét eptir úmegð aðra, en er þeir vóru burt farnir kom Ásgrímr ok ætlar upp at taka fé Kols, ok hafði hann ekki. Kolr sitr hjá Þorgilsi um vetrinn, en um várit eptir býr Ásgrímr málit á hendr Kol; lætr Þorgils sem hann viti ei; verðr Kolr sekr um vígsmálit. Þorgils ríðr allt at einu um heraðit ok Kolr með honum, sækja mannamót, ok gerist af því úþokki millum heraðshöfðingja. Heraðsmönnum þikkir mein at ok leita um sættir, en Þorgils býðr engar bætr fyrir Kol, heraðsmenn leggja nú fund til, ok leggja allir fé til við Ásgrím ok bæta víg Sörla,

gefa ok fé til sýknu honum, ok var þetta gert án ráðs Þorgils. Sýkna Kols var færð annat sumar á þingi, ok er þó fátt um með þeim höfðingjunum.

Eitt sinn ríðr Þorgils til hestaþings austr í herað ok Svartr verkstjóri hans með honum, var þá góð gleði um daginn. Ásgrímr var þar ok talar mart við Svart. At kveldi ríðr Þorgils heim, en Svartr reið nær honum, ok fann Þorgils at hann vill ætíð ríða seinna; grunar hann þá, ok gefr honum færi á sér. Ok er Þorgils varir minst, höggr Svartr til hans, en Þorgils kastar sér ór söðlinum. Þorgils þrífr Svart ok spyrr hverju gegnir; hann segir at Ásgrímr bauð honum þetta, en þá er hann svipti Svarti, féll fésjóðr undan yfirhöfn hans; segir hann þá at Ásgrímr hafi gefit honum fé til höfuðs Þorgilsi. Hann drepr Svart þegar í stað; eptir þat ríðr Þorgils fram at sínum mönnum, ok segir þeim hversu farit hefði; en hvert sumar er hann kemr á mannamót sýnir hann fésjóðinn ok vóru þar í III merkr silfrs þess er bezt var, ok gékk eingi við at ætti. Þorgils kvaðst þat fé hafa mundu, ok hafa sitt satt við, hvar Svartr hafði fengit.

Nú kom kristni á land, ok tók Þorgils í fyrra lagi sið 20
kristinn, ok hélt vel trú sína; ok er hann hafði viðr kristni tekit, þá dreymdi hann einhverja nátt, at Þórr kæmi at honum með illiligu yfirbragði, ok kvað hann sér brugðit hafa, ok hefir þú illa ór ráðit, valit mér þat ór þínu fé er þú áttir verst til, þú kastaðir silfri því í fúla tjörn er ek átta, ok skal ek þar í móti koma. Guð mun mér hjálpa, segir Þorgils, ok er ek þess sæll er okkar félag sleit. Ok er Þorgils vaknaði ok kom út, sá hann at töðugöltr hans var dauðr, ok lét hann grafa hann hjá topt nokkurri, ok vildi ei láta af neyta. Enn barst Þórr í draum Þorgilsi, ok segir sér yrði ei meira fyrir at taka fyrir nasir honum, en töðugelti hans. Þorgils segir: guð mun því ráða. Þórr hét þá at gera honum fjárskaða. Þorgils kvað ei um þat hirða. Aðra nótt eptir dó uxi gamall fyrir Þorgilsi. Þá sat hann sjálfr hjá um nóttina eptir yfir nautum sínum, ok er hann kom heim um morguninn, var hann víða blár; hafa menn þat fyrir satt, at þeir Þórr muni fundizt hafa; eptir þat

tók af fallit. Þorgils var et mesta mikilmenni, harðr maðr ok frækinn. Nú líða fram stundir; ok er skip ganga landa á milli, þá koma orðsendingar af Grænlandi, at Eirekr rauði býðr Þorgilsi út til Grænlands til þeirra kosta er beztra hefir hann föng á. Þorgils áhlýddist lítt. Ok er hann hafði búit hér XIII vetr, kom skip af hafi, þar var á Þorleifr sonr hans, ok hafði góða gripi at færa honum; Þorgils tók vel við honum. Þorgils talar við konu sína ef hon vill fara með til Grænlands; hon kvað vanbreytt um. Hann kvað Eirek hafa sent sér orð, ok máttu vera eptir ef þú vilt ok gæta bús okkar, en ek fari; hon kvað því mundu misráðit, at farit væri, en fara vil ek ef þú ferr. Þorgils fékk nú í hendr Hæringi bróður sínum fé sitt til varðveizlu, ok svá tók hann við goðorði því, er Þorgils haft hafði; hann vill at landit í Traðarholti sé eign erfingja hans ef hann kemr ei til. Þorný hét dóttir þeirra Þorgils ok Þóreyjar, var hon þá VIII vetra gömul. Þessi ráðabreytni Þorgils spurðist nú víða um sveitir. Þorleifr skal fara með honum, Kolr ok Starkaðr bróðir hans, ok Guðrún systir þeirra, Snækollr ok Özurr þrælar hans ok Þórarinn ráðsmaðr. Þrælarnir vóru alls X. Þorgils hafði nefnda menn mest fyrir því ef hann vildi bæ láta reisa á Grænlandi. Þeir vóru allir öflgir menn. Þorgils hafði allskonar fé ef hann vildi þar staðfestast. Jósteinn bóndi ór Kálfaholti réðst ok til ferðar með honum ok brá búi sínu, hann var með XII. mann. Þorgerðr fór ok kona hans ok Þórarinn son þeirra, hann var hinn knásti maðr. Þorgils kaupir nú skip. Þórólfr hét maðr, er Þorgils fékk í hendr ómagabú, en Hæringi bróður sínum seldi hann í hendr XL hundraða III álna aura annat en staðfestu. Þorgils gisti ok þau á Hjalla í Ölvusi, þar var í ferð með honum Þorný dóttir hans, ok ætlaði hann at hon skyldi fara; þar tók hon sótt, ok beið Þorgils III nætr, ok kvað þat ei mundu standa fyrir ferð sinni, ok gaf henni XL$^{C}$ III [álna] aura, ef hon þyrfti til at taka, ok kvað vera mega at þar væri forlög hennar. Þóroddr kvaðst ætla at hon mundi giftudrjúg vera. Þorgils segir Þóroddi at hann kveðst mundu mjök treystast ummælum Eireks rauða. Þóroddr segir: opt verðr vant til manna

at ætla, ok ei at síðr at maðr leggi mikinn kost til. Þorgilsi kveðst nú fyrir þikkja mikit at fara, en kveðst nú ei nenna aptr at hverfa; skilja þeir nú þeir Þóroddr.

Þorgils bíðr nú byrjar, ok dreymir hann at maðr kemr at 21
honum mikill ok rauðskeggjaðr ok mælti: ferð hefir þú ætlat fyrir þér ok mun erfið verða. Draummaðrinn sýndist honum greppligr ok mælti til hans: alla stund hefir þú mér verit gagnstæðligr, þóttú værir heiðinn maðr, en oss er mikill missir orðinn at siðaskipti þínu; 'áðr var allt fólk leitandi til várs trausts ok fulltings, ok ertu sem þeir er oss vilja þyngst, ok mun illa farast, ef þú vilt ei aptr til mín hverfa um átrúnað, mun ek þá enn um sjá yðar ráð. Þorgils kvaðst aldri hans umsjá vilja hafa, bað hann burt dragast, ok skiljast við sik sem skjótast; tekst ferð mín sem guð vill, hugðist hann svara í svefninum. Síðan þótti honum Þórr færa sik á hamra nokkura, þar sem sjóvar stormr brast í björgum, ok nú segir Þórr: í slíkum stormi skaltu vera, ok þó lengi í válki vera, ok kveljast í vesöld ok háska nema þú gerist minn maðr. Nei, nei, segir Þorgils, far þú burt enn leiði fjándi! sá mun mér hjálpa, sem alla leysti með sínum dreyra, ok álíta ferð vára. Síðan vaknar hann, ok segir drauminn Þóreyju konu sinni, ok dvína munda ek láta ferðina, ef mik hefði fyrri þvílíkan draum dreymt, ok ei vil ek segja láta Jósteini né öðrum mönnum þenna draum. Hon kvað þetta ei góða furðu, ok kvað vel ráðit þótt[1] hann ætti fátt við Þór, ok aptr munda ek setjast, ef mik hefði þvílíkan draum dreymt.

Nú kemr byrr ok sigla þeir út eptir firði á haf góðan byr, hafði Jósteinn skip fyrir framan siglu; ok er þeir koma ór landsýn, þá tekr af byri alla ok velkjast þeir úti lengi, þar til er bæði verðr átfátt ok drykkfátt á skipi þeirra. Eina nótt dreymir Þorgils at sá sami maðr kæmi at honum, ok mælti: fór ei sem ek gat? þvíat þú hefir neitað mínu fulltingi ok ásjá, má enn vera at betrist um

---

[1] því *Hds.*

hag þinn, ef þú vill mik þýðast; hann kveðst þat aldri vilja, þótt líf hans lægi við, bað úvin á brott dragast ok koma aldri optarr, ok vaknar hann eptir þat. Útivistin harðnar mjök, tekr nú at hausta; mæltu sumir menn at þeir mundu blóta þar til byrjar, kvóðu betr þá farit hafa ráð manna er þeir blótuðu hann, ok kvóðu ráð at fella þangat hugi sína. Þorgils segir: ef ek verð varr við þat, at nokkurr maðr blótar ok gerist guðníðingr, þá skal ek þat harðliga hefna. En við þessi orð hans treystist eingi at kalla á Þór. Þá dreymdi Þorgils enn eina nótt, at hinn sami maðr kæmi at honum ok mælti svá: enn sýndir þú hverr þú vart mér, þar er menn vildu mik þýðast, hefi ek nú beint fyrir yðr, þvíat margir eru skipverjar þínir at bana komnir, ok enn muntu höfn taka á VII nátta fresti, ef þú vilt mik athyllast. Þorgils segir: þótt ek taka aldri höfn skal ek þér aldri gott gera, ok ef þú kemr optarr, skal ek gera þér nokkura skömm. Hann segir: þótt þú gerir mér ekki gott, þá gjaltu mér þat [er] ek á, ok þú hefir mér heitið. Þorgils hrakti hann með mörgum orðum, ok við þat fór hann á brott. Þorgils vaknar ok hugsar hvat hann muni þar eiga, ok nú man hann, at hann gaf fyrir löngu Þór kálf einn. Þorgils segir þetta Þóreyju, ok var þetta þá gamall öxi, ok kvað alldri þat skyldu innanborðs er hans kanna væri á, ok segir hann því þar hverfa mundu um skipit. Hon kvað þat vel fundit. En er Þorgerðr vissi þetta, at Þorgils ætlar at kasta út oxanum, þá falar hon oxann er þeim var vistafátt. Þorgils afsvaraði ok vil únýta oxann. Hon reiddist við orð hans, ok er ei undarligt þó illa takizt, er Þórr várr er svá svívirðr, ok mikit munu nú menn verr kunna fyrir sér en þá menn sæmdu hann í mörgum hlutum. Þorgils hirðir ekki um orð hennar ok lét skjóta útbyrðis oxanum, ok kvað ei kynligt
22 þó illa færist er fé Þórs var innanborðs. Ok eru þeir nú enn úti um hríð. III mánuði vóru þeir í hafi ok höfðu harða réttu ok litla byri. Þórarinn son Jósteins var knástr maðr annarr en Þorgils, hann var þá tvítugr at aldri. Þat er sagt at þeir brutu skip sitt síð dags undir Grænlands jöklum í vík nokkurri við sandmöl; skipit tók í sundr í efra rúmi; menn héldust allir ok fé; bátr

komst ok heill á land. Stafninn rak upp við hit syðra landit, þá var vika til vetrar. Jöklar miklir géngu fram II megin víkrinnar, en til vestrættar væntu þeir bygðar; gera sér nú skála allir saman, ok í þverþili, búa nú sínumegin hvárir þilsins, hafa mjöl nokkut sér til atvinnu, henda af rekum slíkt er þeir féngu ok eiga allir saman; fé þeirra var dautt flestallt; hirzlur þeirra vóru í skála þeirra. Þorgils manna hlutr var jafnan betri af veiðifangi, varð hann um flest hlutsælli. Þorgils beiddi at menn vildu vera hljóðlátir síð á kveldum ok siðsamir ok héldi vel trú sína. Þóreyju húsfreyju var mikit framat ok var lítt heil. Þat er sagt at Jósteinn ok hans menn vóru löngum úti síð á kveldum, ok gerðu mikit um sik ok höfðu náttleiki. Jósteinn mælti eitthvert sinn við Þorgils, kvað sér þikkja mikinn mun veiðifang sins. Þorgils kvað þá ei einnveg rækja, þvíat þér haldit lengr við á kveldin, en vér erum at fyrri. Jósteinn vildi þá skipta láta öllu veiðifangi, ok svá var gert, ok varð Þorgils jafnan hlutsælli, ok skortir þá hváriga. Svá er sagt at fátt var með þeim, vóru þeir Þorgils spakir ok hljóðir, en hinir höfðu náttleika með miklu erfiði ok háreysti. Nær vetrnóttum varð Þórey léttari at sveini þeim er Þorfinnr hét, hon hjúkaðist lítt við þessa fæðu er til var. Þórarinn Jósteinsson hafði útiróðra með þrælum Jósteins. Líðr nú á vetrinn ok dregr at jólum, ok ræðir Þorgils um at hann vill menn sé hljóðlátir ok siðsamir ok færi snemma í rekkju. Jólamorgun var á veðr gott, ok vóru þeir þá lengi úti um daginn ok heyrðu óp mikit í útnorðr, ok nú kemr annarr aptan í jólum, þá náttar Þorgils snemma ok ferr í rekkju, ok er þau höfðu sofit svefn, þá koma þar Jósteins menn ok er mikit um lið þeirra, ok búast til matar. Þorgerðr var í öllu háreysti með þeim ok var hon sterk sem karlar, ok er þau eru at mat, þá er drepit á dyr mikit högg ok snjallt. Þá mælti einn þeirra: góð tíðindi munu nú í nánd vera. Sá hleypr út, ok þikkir þeim er inni vóru fresta innkvámu hans. Nú ganga þeir Jósteinn út, er sá þá ærr er úti var; ok um morguninn deyr hann. Mótlíkt ferr annan aptan, at maðr ærist ok deyr skjótt, ok þóttist sjá þann hlaupa at sér er fyrr dó. Nú kom sótt í lið Jósteins ok deyja VI menn, ok þá tekr Jósteinn sótt

hinn XII. dag jóla, en Þorgerðr sitr yfir honum, ok lýr hann sótt ok deyr hann, ok eru þeir nú kasaðir þar í mölinni. Þorgils hélt þá sínum mönnum öllum, ok ræðir jafnan um við þá at þeir sé hljóðlátir ok siðsamir, bað þá láta sér annars víti at varnaði verða, minnast á guðliga hluti ok fremja nú skynsemd um kristnihald sitt ok söngva. Á bak jólum ganga þau öll aptr ok einna mest Þorgerðr. Þórarinn lézt síðast af liði Jósteins, var hann grafinn undir skipshræinu, en öll vóru þau dauð í miðja gói, vóru þá miklar aptrgöngur ok sóttu öll at Þorgilsi. Þorgils segir þá at Þorgerðr hefði lið sitt allt, ok hon þyrfti þá ekki fleira at kalla, ok eptir þat léttir af sóttinni. Ekki máttu þeir Þorgils í brott hefjast meðan aptrgöngur vóru mestar. Í þeim hluta skálans géngu þau mest aptr, er þau höfðu áðr átt, en þó géngu þeir í hinn lut skálans, ok sótti Þorgerðr konur mest. Ok er svá hafði fram farit um hríð, þá lét Þorgils brenna þau öll á báli, ok var þá ekki mein at aptrgöngu þeirra síðan. Þeir Þorgils höfðu skip á stokka sett, ok mjök gert at öðru, ok höfðu hvárirtveggju at skipbúnaði verit. Nú líðr af vetrinn, ok máttu þeir þó eigi á brott komast fyrir ísum; þeir fá sér vistir um sumarit, ok annan vetr eptir þá andaðist Guðrún systir Kols. Kolr grefr hana undir rúmi sínu, ok er várar þá mega þeir ei brott komast.

23 Þat er enn eitthvert sinn sem optarr bar at, at Þórey segir draum sinn Þorgilsi, at hon þóttist sjá fögr heruð ok menn fagra ok bjarta, ok vænti ek, segir hún, at vér leysimst héðan í burt ór ánauð þessarri. Þorgils segir: góðr er draumr þinn ok þó eigi úlíkari at viti meir til annars heimshluta, ok muntu eiga fyrir höndum fagra staði ok munu dýrligir menn hjálpa þér fyrir gott líf þitt ok mannraunir; hon bað þá í burt leita ef þeir mætti. Þorgils kveðst ei yfir þat sjá. Hon lá í rekkju jafnan, ok einhvern góðan veðrdag ræðir Þorgils um at þeir muni ganga á jökla upp ok vita ef þeir sæi ísinn nokkurstaðar leysa. Þórey kveðst þess úfús, at hann gengi nokkurstaðar frá henni; hann kvaðst skamt fara mundu. Hon kvað hann ráða mundu enn sem fyrr. Þrælarnir skyldu róa at veiðifangi um daginn, ok Þórarinn

bryti skyldi ýta þeim ok vera hjá þóreyju, en þorgils ætlaði at ganga á jökulinn. þeir þorleifr ok Kolr ok Starkaðr beiddust at fara með honum, en þorgils kvað forystulaust heima, ef ei væri nokkrir þeirra hjá þóreyju, ok trúum vér ærit vel þrælunum í þessu. þeir fóru þó allir á jöklana. þorgils hafði bolöxi í hendi ok gyrðr sverðinu Jarðhússnaut. þeir géngu til eyktar, ok höfðu farit árla morguns, ok er nón var dags, þá snéru þeir aptr, ok gerði á veðr hart. þorgils gékk fyrir þeim ok hitti vel leiðina, kvómu at skálanum, ok sá ei skipit, kvómu inn, ok vóru á brott kisturnar allar ok svipt fénu ok mennirnir á burt. þorgils mælti: nú munu ill efni í; koma innarr í skálann ok var þar myrkt; þeir heyra til rekkju þóreyjar snörl, ok þat sér þorgils at hon er önduð, en sveinninn só hana dauða. þorgils leitar um hana, ok finnr einstaðar at harðnat var holdit ok ben lítil undir hendinni, sem mjófum hnífsoddi hefði stungit verit; mjök var þar allt blóðugt í rúminu. þetta hafði svá vorðit at þorgilsi var mestr harmr; grafa þeir hana hjá Guðrúnu. þorleifr leggr á alla stund at gleðja föður sinn. Á burt var ok sópat öllum vistum; hurðirnar höfðu þeir ok frá tekit húsunum ok hvílutjaldit var í brottu. Um nóttina vildi þorgils vaka yfir sveininum ok mintist þá drengiliga á karlmensku, ok kvaðst ei sjá mega at barn þat mætti lifa nema mikit væri til unnit, ok vill hann ei at þat deyi. Lætr hann nú saxa á geirvörtuna á sér, ok kemr þar blóð út; síðan lætr hann teygja þat, ok kom þar út blanda, ok ei lét hann af fyrr en þat var mjólk, ok þar fæddist sveinninn við, ok um nóttina trúði hann sér ei til vöku fyrr en hann lét glóð undir fætr sér. þat er sagt at þeir Snækollr ok aðrir þrælar höfðu skipit í brott tekit; ketil hinn meira höfðu þeir, en lítill ketill var eptir er þórey hafði átt ok flykkisstúfr einn ok svo nafrar; í burt vóru[1] . . . . . . . sem í tólakistunni höfðu verit. þórarinn bryti var ok á brott horfinn. þeir þorgils eru þar enn nokkura hríð ok sækja fast at veiðifõngum, ok verðr þeim mjök ekki mein at öðrum úvættum; leita þeir enn

[1] *Hier muss etwas fehlen*, tól öll?

við at gera sér farkost, ok eru nú smíðartól heldr fá; gerðu þeir sér einn húðkeip ok bjuggu innan með viðum; líðr nú á sumarit, ok sjá menn ekki um vistaföng brýnligt. Þeir bjuggu um húðkeipinn ok . . . . ok byrgðu ok lifðu nú viðr reka ok smádýri [ok] íkorna.

24 Um morguninn er Þorgils kom út sá hann rekald mikit í vök einni ok[1] þar [hjá] konur II í skinnkyrtlum ok bundu sér byrðar ákafliga miklar. Þorgils hleypr þagat til ok höggr þegar til annarrar með sverðinu Jarðhússnaut í því er hon færðist undir byrðina ok rekr af henni höndina uppi viðr öxlina. Byrðrin féll niðr en hon hljóp á brott. Þeir taka [rek]aldit undir sik, ok er þá eigi vistaskortr um vetrinn, ok er várar er mjök uppi vistin. Þorgils kvazt leiðast þar vistin, ok losnar nú íssinn, sagði hann, ok munu vér á brott leita. Þeir fara nú á brott, ok hafa með sér ketilinn; dragast nú með jöklunum fram ok á ísinn at öðru hverju, ok um sumarit kvómust þeir suðr til Seleyja á keipinum, en lítið máttu þeir hafa af föngum sínum. Þar féngu þeir sela nóga ok vóru þar um vetrinn. At sumarmálum fóru þeir þaðan ok kvómu þá við ey nokkura litla. Hálfum mánaði síðar þá fundu þeir svartbaksegg; þeir sjóða eggin ok etr sveinninn Þorfinnr eitt eggit ok eigi allt. Þeir spyrja hann því hann æti eigi allt. Hann segir: þér sparit yðvarn mat ok vil ek ok spara minn mat. Þeir vóru á skipi sínu á náttum en fóru á land um daga ok fá þó lítið fang, ok einn dag fundu þeir árarstúf einn ok vóru á rúnar þessar:

Vaskað[2] ek dasi
er ek þessa dró
opt úsjaldan
ár á borði;
sjá gerði mér
sára lófa
meðan heimdragi
hnauð at rauða,

[1] *Hier beginnt das erste Blatt des Membranfragmentes.* [2] *Emendirt;* vaskaði *Hds.*

þeir dragast nú enn fram fyrir jöklana, ok koma þá at björgum nokkurum bröttum ok brýna þar upp skipinu ok hafa þar dvöl ok reisa þar tjald, ok höfðu nær öngvar vistir; ok um morguninn gengr Kolr út ór tjaldi ok sér hvergi skipit, ok við þat legst hann niðr ok vill eigi segja þorgilsi, ok þikkir áðr ærinn harmr hans. Litlu síðarr gengr út þorleifr ok sér eigi skipit, getr hann ok eigi um. Síðan ríss þorgils upp ok litaðist um, ok sér eigi skipit, ok sagði þeim at skipit var í burt, ok má ek eigi sjá þat, at við sveininn megi leita[!], ok tapi honum. þorleifr segir: þat liggr ekki til. þorgils biðr þat þó gera. Eptir þat taka þeir við sveininum. Kolr bað þorleif tapa honum, þat samir mér eigi, sagði hann, ok skal ek þat eigi gera. þá er betr ok Kolr, sagði hann, fyrir því at eigi skal ek honum týna, hefi ek lengi verit með þorgilsi ok á ek honum margt gott at launa, ok ef týnt er sveininum, þá mun honum svá mikit þikkja, at eigi er sýnt at hann lifi eptir. Nú láta þeir sveininn úti eptir, en þeir ganga inn í tjaldit. þorgils spurði hvárt drepinn væri sveinninn, þeir kvóðu eigi þat vera. Hann þakkar þeim ok sagði úsýnt hversu hann bæri, ok er gott til góðra drengja at taka, ok hafi þit firt mik miklum glæp, ok mun ek aldri þikkja síðan dugandi maðr, ok svífr nú ýmsu á mik. Um nóttina eptir er sveinninn hjá þorgilsi, ok um morguninn segir þorgils draum sinn. Ek þóttumst vera, sagði hann, á Íslandi á alþingi, ok þótti mér sem vit Ásgrímr toguðum eina hönk ok allr lýðr horfði á, ok hann misti hankar[in]nar. þorleifr segir: þar muntu enn koma til Íslands, faðir minn, sagði hann, ok skipta málum við Ásgrím ok mun þat vel ganga. Slíkt má vera, sagði þorgils, þótt nú þikki eigi líkligt, ok er vel ráðit. Aðra nótt dreymdi hann enn, ok sagði enn þorleifi: ek þóttumst vera, segir hann, heima í Traðarholti, ok var þar fjölment mjök, ok sá ek álpt eina ganga eptir gólfinu, ok var hon blíð viðr aðra en mik, þá hrista ek hana, ok var þá betr. þar muntu, sagði þorleifr, kvángast, ok mun kona þín vera ung ok muntu í fyrstunni missa ástar hennar, ok mun þó vel dragast. Hina III. nátt dreymdi þorgils enn at hann þóttist vera heima í Traðarholti, ok kerti V

vóru á kné mér, sagði hann, ok fölski á hinu mesta; ok enn dreymdi mik at kona kæmi at mér, ok kvað mik kominn í tún sitt, ok þikki mér illa er þér hafit etið egg Þorfinns, ok hon segir mér at sveinar hennar hefði tekit skip várt. Þorleifr segir: þar munu vér í burtu komast. Enn dreymdi mik, sagði Þorgils, at ek væra heima í Traðarholti; ek sá á kné mér hinu hægra, at þar vóru vaxnir hálmlaukar V saman, ok þar af kvísluðust margir laukar ok ofarliga yfir höfuð mér bar einn laukrinn, svá var hann hár ok svá var hann fagr at hann hafði gullslit á sér. Þorleifr segir: sé ek draum þinn, þar muntu eiga V börn ok frá þér munu kvíslast margar ættir, ok útal manna mun frá þér koma, en ek mun eigi á Íslandi aldr ala, ok mun ek æxla ætt mína annarsstaðar; en hinn fagri laukr, þar mun nokkurr maðr sá frá þér koma, er ágætari maðr mun vera en allir aðrir þínir ættmenn. En þat gékk svá eptir, at frá honum er kominn hinn helgi Þorlákr biskup. Þorleif dreymdi enn draum, ok sagði föður sínum. Góðan draum hefir mik enn dreymt, ok héðan af mun batna ráð várt. Mér þótti sem Þórný systir mín gæfi mér osthleif ok væri af börurnar[!] Vera má, sagði Þorgils, at hon gæfi, ef hon mætti; ok nú heyra þeir kall mikit, ok biðja Íslendinga taka skip sitt, ok hafi þér illa við vorðit. Þeir ganga nú út ok sjá konur II, er tekit höfðu skipit. Þær hurfu skjótt, ok þá heyrðu þeir at björn einn brauzt um í vök einni, ok var brotinn á hrammrinn. Þorgils hleypr til bjarnarins, ok leggr til hans með sverði; björninn deyr viðr þat lag. Þorgils þrífr í hlustirnar, ok lætr eigi sökkva. Síðan drógu þeir hann á ísinn ok hlóðu skipit. Dýrit var kalit á fyrra fæti, ok má af slíku marka, hve mikinn háska þeir Þorgils höfðu af fjúki ok frosti í þessari ferð, er dýrit var örkumlat af kulda. Þat er sagt at Þorgils deildi stykki hverjum þeirra. Þeim þótti oflítið, ok ræddu um með sér, því hann væri svá harðbýll. Þorleifr mælti: matsparr þikkir þú nú faðir minn, sagði hann. Þorgils segir: svá vill vera son minn, þvíat eigi hæfir oss annat svá mjök, sem áðr erum vér þrekaðir. Róa nú fyrir fjörðinn fram, ok verðr sein förin, snúa nú til hafs meirr

ok róa af margar vikur, fóru gagnleiði. Þá rýmdist íssinn ok breiddust sundin, fóru utarliga fyrir fjörðu fram, drógu skipit stundum milli vakanna. Nú koma þeir á einn mikinn fjörð, stefna fyrir utan minnit til lægis. Ok um daginn gerðist mæði mikil á þeim. Þorgils var þó miklu hraustastr um allt, tekr þá nú at þyrsta mjök. Þeir vóru þá V með sveininum Þorfinni, Þorgils ok Þorleifr, Kolr ok Starkaðr bræðr. Vatnit var hvergi í nánd ok verðr þeim nærr farit af drykkleysi. Þá mælti Starkaðr: þess hefig vitað dæmi at menn hafa blandat allt saman, sjó ok hland; taka nú örskotuna ok míga í, ok kvóðu þat gert vera ef líf manna lægi vit, ok báðu Þorgils leyfis at; en hann kvað várkunn á, kvezt hvárki banna né leyfa, en eigi mun ek drekka, segir hann. Þeir gerðu drykkinn. Þorgils kvezt nú vilja taka við aurskotunni ok kvezt skyldu mæla fyrir minni, hann mælti svá: þú hit arga ok hit illa kykvendi er vára ferð dvelr skalt eigi því ráða, at ek skal hvárki drekka minn þarfagang né aðrir. Ok í því bili fló fugl því líkastr sem álku ungi ok skrækti við illiliga. Þorgils segir: þetta er enn lítil laun hjá því sem vert var, en þér firðut mik glæpnum, en hugstætt má oss verða þessi skömm ok hneisa, ok héðan af mun batna um várt ráð; róm nú at ísinum ok verum kátir ok glaðir, ok lagði oss nú nærr, ok vildi guð at vér forðaðimst þessa skömm; taka þeir nú vatn á ísinn[!] ok var þat síð um daginn. Þá segir Þorgils, at sjá mundi, af hvers völdum var, ok er þeir vóru á sjónum, þá fló fuglinn í norðrætt frá skipinu ok var stórum illiligr. Þorgils mælti: seint hefir þessi fugl við oss skilit ok taki nú allar gramir viðr honum, en við þat unum vér, at eigi kom hann því á leið sem hann vildi ok veldr guð sjálfr því sá er vér trúm á. Koma nú síðan viðr ey eina, ok vóru þar III nætr áðr en þeir sá tjald af lérepti, ok kendu þar líntjald Þóreyjar, ok fundu þar Þórarinn brytja sjúkan. Þeir spyrja hverju faraldi hann hafði þangat komit; hann sagði kostaboð þeirra Snækolls viðr sik ef hann vildi eigi fara, at þeir mundi drepa hann, ok þeir hefði verit skamt frá Seleyjum um vetrinn. Þeir spurðu hann margs, kvezt hann nauðigr allt gert hafa, ok hafa þeir fé allt, en Snækollr lagði járni á Þóreyju.

Þorgils segir: eigi veit ek hvers þú ert af verðr, en eigi skaltu hér vera; ok áðr þeir fari á brott, þá deyr hann, ok jarða þeir hann þar, fara [með] land fram, tekr nú at hausta, ok koma á fjörð einn ok inn í fjörðinn, ok kómu at nausti, brýndu þár upp skipi sínu, ok ganga upp frá sjó, ok sjá bæ lítinn, ok þar var maðr úti fyrir; hann heilsar þeim, ok spyrr hverir þeir væri, eðr hvaðan þeir væri at komnir. Þeir sögðu sem farit var ok spyrja hann at nafni. Hann kvezt Hrólfr heita, ok býðr þeim þar at vera, at þat þiggja þeir. Konur geyma Þorfinns ok var honum mjólk gefin, hann kvað ekki þannig lita mjólk föður síns. Þórólfr kvezt hafa stokkit fyrir víga sakir ór bygð, var hann hinn greiðasti við Þorgils, kvað skip farit hafa þar um sumarit ok komit ekki við land, en sagði leið vera svá langa sem torsótta, ok þar eru þeir um vetrinn; ok er várar býðr hann þeim þar at vera ok slíka kosti sem hann hefir til skips ef þeir vilja. Þorgils segir honum vel fara, ok kvezt skipit vilja þiggja, ok væri skylt at launa þér með góðu. Hrólfr kvazt ætla at hann mundi af honum giptu hljóta, þvíat ek væntir, at þú munt í góða virðing koma, ok ef svá verðr mættir þú mik í frið þiggja aptr í bygðina. Þorgils heitr honum því, ok mæla þar hvárir vel fyrir öðrum, fara nú suðr fyrir landit, ok gefr þeim vel fararleiði, ok haustar fyrir þeim, koma við vetr á Eireksfjörð, beita fyrir landit, héldu síðan inn í fjörðinn, ok lögðu í lægi ok tjölduðu, ok í [því] bili sá þeir kaupskip er utan sigldi í fjörðinn ok lögðu í lægi ok höfðu eitt veðr hvárirtveggju, kvómu at einni höfn ok lendingu. Þorgils mælti: þetta eru góð tíðindi, farit Þorleifr ok Kolr, sagði Þorgils, ok hittið mennina, ok munu þeir kunna at segja nokkur tíðindi. Fóru nú ok koma at kaupskipinu, ok géngu upp á skipit. Aptr viðr lyptingina sat maðr í rauðum kyrtli, ok sprettr upp þegar ok fagnar Þorleifi vel, þar var Þorsteinn hvíti, fóstri hans ok stjúpfaðir, hann spyrr at Þorgilsi, þeir segja honum at hann var þar. Þorsteinn ferr þegar til fundar viðr hann, ok varð þar fagnafundr, kvezt Þorsteinn kominn af Íslandi, ok kvað ráð hans standa heilt, ok höfðu ekki til hans spurt á IIII vetrum; sagði

Þórnýju dóttur[1] hans gipta Bjarna í Gröf Þorsteinssyni rauða [*sic*] landnámamanns, ok er Þorleifr kom eigi til, bjó ek skip af Noregi, ok fór ek út til Íslands ok var ek þar II vetr. Þá er ekki fréttist til yðvar, þá fýsti mik at leita yðvar higat, nú em ek feginn vorðinn yðrum fundi, ok allt mitt skal yðr jafnheimult sem mér. Þorgils kvað ekki mætti stórum betr í hald koma, sem at honum væri ván; halda nú um morguninn þangat, tjalda nú búðir á landi. Menn kvómu brátt til þeirra, ok bóndi sá er þar bjó næst hét Þórir, hann bauð Þorfinni til sín, ok þangat fór hann. Bóndi vísar þeim til hafnar, ryðja skip en bera af föng sín. Eirekr rauði býðr Þorgilsi til sín, ok þat þekist hann, ok öll[um] þeim er hann vildi at þagat færi; ok þangat fóru XII menn í Brattahlíð. Þorgilsi er skipat gagnvart Eireki á annan bekk, þá Þorsteini hit næsta honum utar frá, þá Þorleifi, Kol ok Starkaði. Þorfinni var fengin fóstra, ok vildi hann eigi mjólk drekka fyrr en myrkt var at, ok þá var hann af brjósti vandr. Ekki var Eirekr margr til þeirra, ok verðr vistin ekki meðr þvílíku bragði sem Þorgils ætlaði. Þorgils frétti at þrælarnir vóru þar í landi með mikla kosti, ok sögðu fátt satt frá ferðum sínum. Þorgils lét sem hann vissi eigi. Þat varð 25
þar um vetrinn at bjarndýr lagðist á fé manna, ok gerði mikinn skaða mörgum manni, eru þá stefnur at áttar ef þat mætti af ráðast, ok þar kom at fé var lagt til höfuðs dýrinu, ok gerðu menn ór hvárritveggju bygðinni. Fátt lét Eirekr sér til finnast. Ok um vetrinn er á líðr kvómu menn til kaupa viðr þá Þorgils ok Þorstein, ok eru menn margir í útibúri því er varningrinn var í, ok þar var sveinninn Þorfinnr. Hann mælti við föður sinn: hér er kominn úti rakki fagr, faðir minn, ok sá ek aldri slíkan fyrr, svá er hann mikill. Þorgils segir: hirð eigi um þat, ok gakk eigi út. Sveinninn hljóp þó út. Bjarndýrit var þar komit, ok hafði gengit af jöklum ok svipti undir sik sveininum; hann kvað við. Þorgils hljóp út þegar ok hafði brugðið sverðit Jarðhússnaut. Dýrit hafði leikit viðr sveininn. Þorgils höggr milli hlustanna af miklu afli ok

[1] s (*d. i.* systur) *Hds.*

reiði ok klýfr allan hausinn á dýrinu ok fellr þat dautt niðr. Þorgils tekr upp sveininn, var hann lítt sakaðr. Þorgils varð nú ágætr af þessu verki ok þótti stór heill til hans falla; lögðu margir góða þykkju til hans, ok færa margir honum bjarngjöldin. Ekki fanst Eireki mart um þetta verk, lét þó gera til dýrit. Sögðu sumir menn Eireki at Þorgils hefði haft til þessa verks [*sic*] illan átrúnað. — Frá því er sagt eitthvert sinn um vetrinn, at menn sátu í heimilis húsi þar í Brattahlíð, ok þó eigi allir senn, þvíat sumir stóðu fram í húsin, er mannmart var; þar var Kolr ok sveitungar hans. Þat er sagt frá tali þeirra, at þeir fóru í mannjöfnuð ok ræddu um Þorgils ok Eirek, sagði Kolr Þorgils mörg afreks . . . . .[1]

33 . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . [2]hann kvezt IX búa kvatt hafa. Skapti segir: varat af vöru, sleikti um þvöru, lát niðr falla, engu er nýtt. Þorgils segir: hví mun þat sæta? Skapti segir: kunnig eru mér svá lög, mágr, at ek veit at rangt er til búit, ok eru þau ein málaefni með ykkr Ásgrími at bezt er at niðr falli, hafa svá farit skipti ykkur Ásgríms flest, at þú ert ekki vanvirðr í þótt þit skilit við svá búit, unnum vér þér sæmdar ok hógsetu héðan af, ok má af þér margt tala þat er mikilmannligt er ok sköruligt. Ríða menn nú af þingi, ok sefast Þorgils við umtölur mága sinna ok vina.

34 Helgi hét austmaðr, er út kom í Einarshöfn ok átti ferð upp í herað, ok ferr með varning sinn upp i Þróndarholt. Þorgils reið at ofan ór Gröf ok riðust á móti. Helgi reið Þorgils næsta af baki, ok hló at honum er hann var bjúgr á baki, kvezt eigi þat mega á sjá at hann hefði verit garpr mikill. Þorgils reiddist við ok mælti: ekki hafa menn þat gert at færa spott at mér, en svá hæðiligr sem þér þikkir ek nú vera þá býð ek þér einvígi þegar í stað, ok er þá reynt hvárt þú berr skjótt af mér. Þeir hittust fyrir neðan gringarð[3] en veðr var á kalt í móti Þorgilsi ok sat hann því bjúgr á baki. Helgi kvað sér engan frama í at bera af

---

[1] *Hier schliesst das erste Membranblatt.* [2] *Hier beginnt das zweite Membranblatt.* [3] *So* g'ngd *Hds.*

fretkarli þínum, en kveðst þó eigi vilja undan ganga. Austmaðrinn hafði öxi í hendi, ok leit á öxina ok þótti sljó. Þorgils mælti: hvassara vápn muntu þurfa ef bíta skal mín höfuðbein, ok er vápn þitt úkarlmannligt. Þorgils hafði sverð sitt Jarðhússnaut ok var alvápnaðr sem hann var aldri öðruvís. Þorgils hljóp þegar geystr at honum austmanninum ok höggr til hans með sverðinu Jarðhússnaut ok kom sverðit á öxlina, ok var svá mikit sár at honum vanst þat skjótt til bana. Þá var Þorgils VIItugr. Þorgils kvað þetta vorðit glappaverk ok bráðræði ok kvezt þetta helzt bæta vilja. Ok II vetrum síðar kvómu út í Einarshöfn II bræðr Helga ok ætla til hefnda, hét annarr Einnarr en annarr Sigurðr ok varð ekki vart við skipkvámu. Þeir fóru þegar í Traðarholt, ok kvómu þar snemma dags ok var Þorgils í hvílu sinni, en verkmenn vóru á fótum ok konur. Ok er [þeir] bræðr kvómu at bænum þá töluðust þeir við hversu með skyldi fara. Einarr mælti: illt þikki mér at drepa gamlan mann frægjan ok vinsælan, ok er skaði mikill ef hann lætr af berast. Þorgils verðr nú varr við ok sprettr upp þegar ok tekr Jarðhússnaut ok bað þá at ganga ef þeir vildi, ok brást þó nokkut á fótinn halta. Einarr mælti: eigi viljum við bræðr gera þér úfrið ok skal annat verða eyrindi okkart ef ek ræð. Þorgils tók þessu vel ek hýrðist skjótt í viðbragði, ok sagði svá: ek er þess miklu fúsari, ok muntu vera góðr drengr, ok þar er ek drap Helga, bróður ykkarn, þá vil ek þat bæta, ok gefa vil ek þér, Einarr, sverðit Jarðhússnaut, þvíat þú ert verðr at bera; bróður þínum [gef ek] V merkr silfrs nema þit skiptið annan veg, ok skildu þeir vel ok drengiliga; fóru þeir utan eptir þat. — Eitt sinn er þau hjón 35
fóru til bús á Hjalla, tok Þorgils þar sótt, þá var hann hálfníræðr, hann lá viku ok andaðist þar, ok vóru þeir í eina gröf lagðir Þóroddr ok Þorgils ok Bjarni hinn spaki at þeirri kirkju er Skapti lét gera fyrir utan lækinn, en síðan vóru færð beinin í þann stað sem nú er kirkjan, þvíat Skapti hét at gera kirkju þá er Þóra kona hans braut fót sinn þá er hon var at léreptum sínum. Þorgils þótti hinn mesti merkismaðr, vinfastr ok vinveittr, þrautgóðr ok þróttigr, eljunnarmaðr ok úáleitinn, ok hélt sik við alla til jafns þó-

at miklir menn ok sterkir ætti í hlut, þótti hann ok hinn mesti sveitarhöfðingi, hann var sáttgjarn ok svinnr en móðugr ok mjök þungurkr við þá er eigi vildu sik vel siða. Hann var tryggr ok trúrækinn, guðhræddr ok góðr vinum sínum, er ok mart stórmenni frá honum komit ok víða dreifzt um land várt; munum vér nú hætta fyrst at segja frá Þorgils örrabeinsstjúpa, ok lýkr þar sögu þessi.

AUS

# LANDNÁMABÓK

## I. ZU VATNSDÆLASAGA

### 1. AUS LANDNÁMABÓK VERGL. MIT HAUKSBÓK

III, 2. Ketill þrymr [1] hét hersir ágætr í Raumsdal í Noregi, hann var son Orms skeljamola, Hross-Bjarnarsonar, Raumssonar, Jötun-Bjarnarsonar norðan ór Noregi. Ketill átti Mjöll dóttur Ánar bogsveigis. Þorsteinn hét son þeirra, hann vá á skóginum til Upplanda af áeggjun föður síns Jökul son Ingimundar jarls af Gautlandi [2]. Jökull gaf honum líf. Síðan fékk Þorsteinn Þórdísar systur hans, þeirra son var Ingimundr enn gamli, hann var fæddr í Hefni með Þóri föður Gríms ok Hrómundar. Heiðr völva spáði þeim öllum at byggja á því landi, er þá var ófundit vestr í haf, en Ingimundr kveðst við því skyldu gera. Völvan sagði hann þat eigi mundu mega, ok sagði þat til jartegna, at þá mundi horfinn hlutr ór pússi hans, ok mundi þá finnast er hann græfi fyrir öndvegissúlum sínum á landinu. Ingimundr var víkingr mikill, ok herjaði í vestrvíking jafnan. Sæmundr hét félagi hans suðr-

[1] *So* Hb.; raumr *Hds.* [2] ok Vigdísar *fügt hinzu* Hb.

eyskr. Þeir kvómu ór hernaði þann tíma er Haraldr konungr gékk til lands, ok lagði til orrostu í Hafrsfirði við þá Þóri haklang. Ingimundr vildi veita konungi en Sæmundr eigi, ok skildi þar félag þeirra. Eptir orrostuna gipti konungr Ingimundi Vígdísi dóttur Þóris jarls þegjanda, þau Jörundr háls vóru frillubörn hans. Ingimundr undi hvergi, því fýsti Haraldr konungr hann at leita forlaga sinna til Íslands. Ingimundr lézt þat ekki ætlað hafa, en þó sendi hann þá Finna tvá í hamförum til Íslands eptir hlut sínum; þat var Freyr ok gerr af silfri. Finnar kvómu aptr ok höfðu fundit hlutinn, ok náð eigi; vísuðu þeir Ingimundi til í dal einum milli holta tveggja, ok sögðu Ingimundi allt landsleg, hve háttað var, þar er hann skyldi byggja. Eptir þat byrjar Ingimundr för sína til Íslands, ok með honum Jörundr háls mágr hans ok Evindr sörkvir ok Ásmundr ok Hvati vinir hans, ok þrælar hans Friðmundr, Böðvarr, Þórir refskegg, Úlfkell. Þeir tóku [fyrir sunnan land [1] ok vóru allir um vetrinn á Hvanneyri með Grími fóstbróður Ingimundar, en um várit fóru þeir norðr um heiðar. Þeir kvómu í fjörð þann er þeir fundu hrúta tvá, þat kölluðu þeir Hrútafjörð. Síðan fóru þeir norðr um heruð ok gáfu víða örnefni. Hann var um vetr í Víðidal í Ingimundarholti; þeir sá þaðan fjöll snælaus í landsuðr, ok fóru þann veg um várit. Þar kendi Ingimundr lönd þau er honum var til vísat. Þórdís dóttir hans var alin í Þórdísarholti. Ingimundr nam Vatnsdal allan upp frá Helgavatni ok Urðarvatni fyrir austan, hann bjó at Hofi, ok fann hlut sinn þá er hann gróf fyrir öndvegissúlum sínum. Þorsteinn var son þeirra Vigdísar ok Jökull ok Þórir hafrsþjó ok Högni. Smiðr hét ambáttar son ok Ingimundar en dætr Jórunn ok Þórdís.

Jörundr nam út frá Urðarvatni til Mógilslækjar ok bjó á Grund undir Jörundarfelli, hans son var Már á Másstöðum. Hvati nam út frá Mógilslæk til Giljár ok bjó á Hvatastöðum. Ásmundr nam út frá Helgavatni um Þingeyrasveit ok bjó undir Gnúpi. Friðmundr nam Forsæludal. Eyvindr sörkvir nam Blöndudal, hans son var Hermundr ok Hrómundr enn halti. Ingimundr fann beru

[1] Grímsárós Hb.

ok húna tvá hvíta á Húnavatni. Eptir þat fór hann utan, ok gaf Haraldi konungi dýrin. Ekki höfðu menn í Noregi áðr sét hvíta björnu. Þá gaf Haraldr konungr Ingimundi [skip[1] með viðarfarmi, ok sigldi hann II skipum[2] fyrir norðan land [fystr manna fyrir Skaga[3] ok hélt upp í Húnavatn. Þar er Stíganda hróf hjá Þingeyrum. Eptir þat var Hrafn austmaðr með Ingimundi, hann hafði sverð gott, þat bar hann í hof, því tók Ingimundr af honum sverðit. Hallormr ok Þórormr bræðr kvómu út ok vóru með Ingimundi, þá fékk Hallormr Þórdísar dóttur hans ok fylgðu henni Karnsárlönd, þeirra son var Þorgrímr Karnsárgoði. Þórormr bjó í Þórormstungu. Ingimundi hurbu svín X ok fundust annat haust í Svínadal ok var þá C svína. Göltr hét Beigaðr, hann hljóp á Svínavatn, ok svam þar til er af géngu klaufirnar; hann sprakk á Beigaðarhváli.

Hrolleifr enn mikli ok Ljót móðir hans kómu út í Borgarfjörð; þau fóru norðr um sveitir ok féngu hvergi ráðstafa áðr þau kvómu í Skagafjörð til Sæmundar. Hrolleifr var son Arnhalls bróður Sæmundar, því vísaði hann þeim norðr á Höfðaströnd til Þórðar, en hann fékk honum land í Hrolleifsdal, bjó hann þar. Hrolleifr fifldi Hróðnýju dóttur Una ór Unadal. Oddr Unason sat fyrir honum ok vá Ljót systrung hans, en hann særði hann á fæti, þvíat kyrtil hans bitu eigi járn. Hrolleifr vá Odd ok II menn aðra en II kvómust undan. Fyrir þat gjörði Höfða-Þórðr hann heraðssekan svá vítt sem vatnföll deildu til sjófar í Skagafirði. Þá sendi Sæmundr Hrolleif til Ingimundar ens gamla. Ingimundr setti hann niðr í Oddsás gegnt Hofi, hann átti veiði í Vatnsdalsá við Ingimund, ok skyldi hann ganga ór á fyrir Hofsmönnum, en hann vildi eigi ór ganga fyrir sonum Ingimundar, ok börðust þeir um ána. Þá var sagt Ingimundi, hann var þá blindr, ok lét smalasvein leiða hestinn undir sér á ána milli þeirra. Hrolleifr skaut spjóti í gegnum hann, þeir fóru þá heim. Ingimundr sendi sveininn at segja Hrolleifi, en hann var dauðr í öndvegi, þá

---

[1] [skipit Stíganda Hb. [2] til Íslands ok sigldi *fügt hinzu* Hb.
[3] [vestr um Skaga fyrstr manna Hb.

er synir hans kvómu heim. Hrolleifr sagði móður sinni, hon kvað þá reyna mundu hvárt meira mætti gipta Ingimundarsona eðr kunnasta hennar ok bað hann fyrst á braut fara. Þorsteinn skyldi reyna eptir Hrolleifi ok hafa kostgrip af arfi. Eigi settust Ingimundarsynir í hásæti föður síns, þeir fóru norðr til Geirmundar ok gaf Þorsteinn honum LX silfrs til at hann skyti Hrolleifi á braut. Þeir röktu spor hans norðan um hálsa til Vatnsdals. Þorsteinn sendi húskarl sinn í Ás á njósn; hann kvað XII vísur áðr til dura var gengit, ok sá fatahrúgu á bröndum ok kom undan rauð klæði. Þorsteinn kvað þar verit hafa Hrolleif, ok mun Ljót hafa blótið til langlífis honum. Þeir fóru í Ás ok vildi Þorsteinn sitja yfir dyrum, ok náði eigi fyrir Jökli því at hann vildi þar vera. Maðr gékk út ok sást um, þá leiddi annarr Hrolleif eptir sér. Jökull brást við ok feldi ofan skíðahlaða en gat kastað kefli til bræðra sinna. Eptir þat rann hann á Hrolleif ok ultu þeir ofan fyrir brekkuna, ok varð Jökull efri. Þá kom Þorsteinn at ok neyttu þeir þá vápna. Þá var Ljót út komin, ok gékk öfug, hon hafði höfuðit millum fóta sér, en klæðin á baki sér. Jökull hjó höfuð af Hrolleifi, ok rak í andlit Ljótu. Þá kvaðst hon ofsein orðit hafa; nú mundi um snúast jörðin fyrir sjónum mínum en þér mundut allir ærzt hafa. Eptir þat kauss Þorsteinn Hofsland en Jökull hafði sverðit ok bjó í Tungu. Þórir hafði goðorð, ok bjó at Undunfelli [1] ok gékk berserksgang. Högni hafði Stíganda ok var farmaðr. Smiðr bjó á Smiðstöðum. Þorsteinn átti Þórríði Gyðju dóttur Sölmundar í Ásbjarnarnesi; þeirra son var Ingólfr hinn fagri ok Guðbrandr. Jökull var son Bárðar Jökuls sonar er Ólafr konungr hinn helgi lét drepa. Þat sagði Jökull stigamaðr, at lengi mundu glapvíg haldast í ætt þeirri.

III, 5. . . . Eyvindr sörkvir nam Blöndudal sem fyrr er ritat; hans son var Hrómundr en halti, er vá Högna Ingimundarson, þá er þeir Már ok Ingimundarsynir börðust um Deildarhjalla; því var hann gerr ór Norðlendinga fjórðungi. Hans synir vóru þeir Hásteinn ok Þorbjörn, er börðust við Sleitu-Helga í Hrútafirði. Annarr son

[1] *So Hds. und* Hb.

Eyvindar var Hermundr, faðir Hildar, er átti Ávaldi Ingjaldsson; þeirra börn vóru þau Kolfinna, er átti Gríss Semingsson, ok Brandr, er vá Galta Óttarsson á Húnavatnsþingi fyrir níð Hallfreðar . . .

Gautr bygði Gautsdal; hann var einhendr. Þeir Eyvindr sörkvir fóru sér sjálfir, ok vildu eigi lifa Ingimund enn gamla. Haukr bjó þar sem nú heita Hauksgrafir. Vefreyðr átti Gunnhildi, dóttur Eireks ór Guðdölum, systur Hólmgaungu-Starra. Þeirra synir vóru þeir Úlfhéðinn, er þeir Þjóstólfr vágu við Grindlæk, ok Skarphéðinn, er þeir Digr-Ormr vágu í Vatnsskarði, ok Húnrauðr, faðir Márs, föður Hafliða . . .

III, 6. . . . Sæmundr enn suðreyski, félagi Ingimundar ens gamla, sem ritat er, hann kom skipi sínu í Gaunguskarðsárós. Sæmundr nam Sæmundarhlíð alla til Vatnsskarðs, fyrir ofan Sæmundarlæk, ok bjó á Sæmundarstöðum; hans son var Geirmundr, er þar bjó síðan. Dóttir Sæmundar var Reginleif, er átti Þóroddr hjálmr; þeirra dóttir Hallbera, móðir Guðmundar ens ríka, föður Eyjólfs, föður Þóreyjar, móður Sæmundar ens fróða. Arnhalldr hét annarr son Sæmundar, faðir Rjúpu, er átti Þorgeirr, son Þórðar frá Höfða; þeirra son var Halldórr frá Hofi.

2. AUS MELABÓK (cod. AM. 106 fol.)

Ketill raumr hét hersir ágætr í Raumsdal í Noregi, hann var son Orms skeljamola Hrossbjarnarsonar norðan ór Noregi. Ketill átti Mjöll dóttur Ánar bogsveigis. Þorsteinn hét son þeirra; hann vá á skóginum til Upplanda af áeggjan föður síns Jökul son Ingimundar jarls af Gautlandi; Jökull gaf Þorsteini líf. Síðan fékk Þorsteinn Þórdísar systur hans, þeirra son var Ingimundr hinn gamli; hann var fæddr í Hefni á Hálogalandi með Ingjaldi[1] föður þeirra Gríms hins hvíta[!] háleyska ok Hrómundar í Þverárhlíð. Heiðr völva spáði þeim öllum at byggja á því landi, er þá var úfundit vestr í haf. Ingimundi þótti þat reiðimál, ok kveðst við því skyldu gera. Völvan sagði þat mundi eigi mega, ok kvað þat til jarteikna, at þá mundi hlutr hans [af gulli eðr silfri gerr eptir

[1] Þóri, segir önnur bók [*Hds. am Rande.*]

Freyr][1] horfinn ór pússi hans, ok hann mundi þá finna, er hann græfi fyrir öndvegissúlum sínum á landinu. Ingimundr var víkingr mikill ok herjaði í vestrveg jafnan. Sæmundr hét félagi hans suðreyskr. Þeir kómu ór hernaði í þann tíma er Haraldr konungr gékk til lands í Noregi, ok lagði til orrustu við þá Þóri hökulang í Hafrsfirði. Ingimundr vildi veita konungi en Sæmundr eigi, ok skildi þat félag þeirra. Eptir orrostuna gipti Haraldr konungr Ingimundi dóttur Þóris jarls þegjanda, er hét Vigdís, þeirra börn Þorsteinn, Jökull, Þórir hafrsþjó, Högni, Þórdís, Jórunn, Smiðr var þýborinn. Ingimundr undi hvargi, því fýsti Haraldr konungr hann at leita forlaga sinna til Íslands, en Ingimundr lézt þat eigi ætlað hafa, en þó sendi hann þá Finna tvá í hamförum til Íslands eptir hlut sínum. Finnarnir kvómu aptr ok höfðu fundit hlutinn en náð þó eigi; vísuðu þeir Ingimundi til í dal einum millum holta tveggja, ok sögðu honum greiniliga um allt landsleg ok heraða vöxt, þar er hann skyldi byggja. Eptir þat byrjar Ingimundr för sína til Íslands ok með honum Jörundr háls[2], mágr hans, ok Eyvindr sörkvir ok Ásmundr ok Hvati vinr hans ok þrælar hans Friðmundr, Þór[ir] refskeggr, Úlfkell, Böðvarr. — Þeir tóku Grímsárós fyrir sunnan land [hann kom skipi sínu í Leirivog, segir ein Landnáma] ok vóru allir um vetrinn á Hvanneyri með Grími fóstbróður Ingimundar, en um várit fór hann at leita sér bústaðar þess, er honum var til vísat. Þeir fóru norðr um heiðar, ok kvómu í fjörð þann, er þeir hittu hrúta II, þat köll-uðu þeir Hrútafjörð. Síðan fóru þeir norðr um heruð ok gáfu víða örnefni. At vetri kom Ingimundr í dal þann, er var víði vaxinn, ok kallaði þat Víðidal, ok var þar annan vetr, ok gerði sér þar skála, er nú heitir Ingimundarholt. Þaðan sá þeir fjöll snjólaus í landsuðr er þar var hríð mikil, ok fóru þeir þangat um várit ok kendi Ingimundr þar lönd þau, er honum var til vísat; en er þau kvómu at Vatnsenda, þá varð Vigdís léttari at mey, er Þórdís var nefnd, ok heitir þar Þórdísarholt síðan. — Ingi-

[1] Þat var Freyr ok gerr af silfri segir önnur bók [*Hds. am Rande.*]
[2] Hallzs. segir Landnáma.

mundr nam Vatnsdal allan fyrir ofan Helgavatn, en þormóðslækr fellr ór vatninu í ána [1], Forslækr fellr austan í Urðarvatn. Hann bjó at Hofi, ok reitti þar hof C fóta langt, en er hann gróf fyrir öndvegissúlum sínum, þá fann hann hlut sinn, sem honum var fyrir sagt. Ingimundr fann á vatni einu beru ok húna II hvíta með henni, því kallaði hann þat Húnavatn. Eptir þat fór Ingimundr utan, ok gaf Haraldi konungi dýrin; eigi höfðu menn í Noregi sét fyrir hvíta björnu. þá gaf Haraldr konungr Ingimundi skipit Stíganda með viðarfarmi, ok sigldi hann tveim skipum til Íslands, ok sigldi fyrstr manna fyrir norðan land vestr um Skaga, ok hélt upp í Húnavatn. þar heitir nú Stígandahróf hjá þingeyrum. Hann gaf öll örnefni þar í nánd þau er nú eru. Eptir þat var Rafn austmaðr hjá Ingimundi, ok hafði gott sverð; þat bar hann í hof, því tók Ingimundr þat af honum.

þorsteinn Ingimundarson átti þuríði gyðju Sölmundardóttur, föðursystur Barða, þeirra synir vóru Ingólfr ok Guðbrandr. þórdísi Ingimundardóttur átti Hallormr, ok fylgði henni heiman Kornsárland; þeirra son var þorgrímr Kornsárgoði faðir þorkels kröflu. Jórunni átti Ásgeirr æðikollr, þeirra dóttir var þorbjörg bekkjarbót. þorkell krafla var faðir Arnórs, föður Ragneiðar, móður Orms, föður þorleiks, föður þorleifs beiskjalda, föður Álfheiðar, móður þorláks prests ok Ketils, föður Helgu er Snorri á[tti] Markússon.

Jörundr háls son þóris þegjanda jarls, mágr Ingimundar, nam land út frá Urðarvatni til Mógilslækjar ok bjó á Grund undir Jörundarfelli; hans son var Már á Márstöðum faðir Höllu, móður Vigdísar, móður Sveinbjarnar, föður þorsteins, föður Bótólfs, föður þórdísar, móður Helgu, móður þórðar, föður Markúss á Melum. — Hvati nam út frá Mógilslæk til Giljár ok bjó at Hvatastöðum. — Ásmundr nam út frá Helgavatni ok um þingeyrar, ok bjó undir Gnúp. Friðmundr nam Forsæludal. — Eyvindr sörkvir nam Blöndudal; hans synir vóru Hermundr ok Hrómundr halti; þeirra börn koma seinna.

[1] *So am Rande corrigirt mit derselben Hand; im Texte fälschlich* einn.

Hallormr ok Þórormr bræðr kvómu út ok vóru með Ingimundi, þá fékk Hallormr Þórdísar, dóttur Ingimundar, sem fyrr var sagt. Þórormr bjó í Þórormstungu.

Ingimundi hurfu svín X, ok fundust annat haustið í Svínadal, ok vóru þá saman C svína. Göltr hét Beigaðr, hann hljóp á Svínavatn, ok svamm þar til af gengu klaufirnar, hann sprakk á Beigaðarhóli [Lndn.: Sauðadalr er fyrir austan Vatnsdal, ok þar liggr Svínavatn, ok Beigaðarhóll.] Þórólfr heljarskinn nam Forsæludal, ok gerði virki þar sem mættust Friðmundará ok Vatnsdalsá, hann blótaði mönnum.

Hrolleifr hinn mikli ok Ljót móðir hans kvómu út í Borgarfirði; þau fóru norðr um sveitir ok féngu enga bústaði, áðr þau kvómu í Skagafjörð til Sæmundar. Hrolleifr var son Arnallds bróður Sæmundar, því vísaði hann þeim norðr á Höfðaströnd til Þórðar, en hann fékk honum land í Hrolleifsdal, ok bjó hann þar. Hrolleifr fíflaði Hróðnýju dóttur Una ór Unadal. Oddr Unason sat fyrir honum ok vá Ljót systrung hans, en særði hann á fæti, þvíat kyrtil hans bitu eigi járn. Hrolleifr vá Odd ok II menn aðra, en II kvómust undan; fyrir þat gerði Höfða-Þórðr þau heraðssek svá vítt sem vatnsföll deildu til sjófar í Skagafirði. Þá sendi Sæmundr Hrolleif til Ingimundar hins gamla. Ingimundr setti hann niðr í Oddsás gegnt Hofi; hann átti veiði í Vatnsdalsá við Ingimund, ok skyldi ganga ór ánni fyrir Hofsmönnum, en hann vildi eigi ór ganga fyrir sonum Ingimundar, ok börðust þeir um ána. Þá var sagt Ingimundi, ok var hann þá blindr, ok lét hann smalasvein leiða undir sér hestinn á ána millum þeirra. Hrolleifr skaut spjóti ígegnum hann. Þeir fóru þá heim. Ingimundr sendi sveininn at segja Hrolleifi, en Ingimundr var dauðr í öndvegi þá er synir hans kvómu heim. Hrolleifr sagði móður sinni, hon kvað þau reyna mundu, hvárt meira mætti gipta Ingimundarsona eðr kunnusta hennar, ok bað hann fyrst í brott at fara. Þorsteinn skyldi reyna eptir Hrolleifi, ok hafa kostgrip af arfi. Ekki settust þeir í öndvegi föður síns [1]. Ingimundarsynir fóru norðr til Geirmundar

[1] Lndn. segir: hásæti föður síns. [*am Rande.*]

ok gaf Þorsteinn honum LX silfrs til, at hann skyti Hrolleifi á braut. Þeir röktu spor hans norðan um hálsa til Vatnsdals. Þorsteinn sendi húskarl sinn í Ás á njósn; hann kvað kveðnar XII vísur áðr til dyra var gengit, ok fatahrúgu sá hann á bröndum, ok kom undan rautt fat eðr klæði. Þorsteinn kvað þar verit hafa Hrolleif, ok mun Ljót hafa blótað til langlífis honum. Þeir fóru í Ás, ok vildi Þorsteinn sitja yfir dyrum, ok náði því eigi fyrir Jökli, því hann vildi þar vera. Maðr gékk út ok sást um, þá leiddi annarr Hrolleif eptir sér. Jökull brást við ok feldi ofan skíðahlaðann, en gat þó kastað kefli til bræðra sinna; hann réð á Hrolleif ok ultu þeir báðir ofan fyrir brekkuna ok varð Jökull efri. Þá kom Þorsteinn at ok neyttu þeir þá vápna. Þá var Ljót út komin ok gékk öfug, hon hafði höfuðit milli fóta sér, en klæðin á baki sér. Jökull hjó höfuðit af Hrolleifi ok rak í andlit Ljótu, þá kvaðst hon ofsein verit hafa, annars mundi um snúizt hafa jörðin fyrir sjónum mínum, en þér mundut allir ærzt hafa. Eptir þat kaus Þorsteinn Hofsland, en Jökull hafði sverðit ok bjó í Tungu. Þórir hafði goðorðit, ok bjó at Undinfelli ok gékk berserksgang. Högni hafði Stíganda ok var farmaðr. Smiðr bjó at Smiðsstöðum. Þorsteinn átti Þórdísi gyðju dóttur Sölmundar í Ásbjarnarnesi, þeirra son var Ingólfr hinn fagri ok Guðbrandr. Jökull var son Bárðar Jökulssonar, er Ólafr konungr hinn helgi lét drepa. Þat sagði Jökull stigamaðr at lengi mundi glæpvíg haldast í ætt þeirri.

Þorgrímr bjó á Hjallalandi. — Þeir synir Ingimundar ok Jörundarsynir börðust um Hjallaland[1], ok féll þar Högni ok leysingi Þorsteins, en ór Mársliði dótturson Jörundar ok V menn aðrir. Jökull hjó Þorgrím á þjó ok flýðu á braut. Már galt VIII tigi silfrs ok hafði Hjalla. Þeir Þorsteinn ok Jökull drápu Þórólf heljarskinn ok II menn aðra. Þórólfr sleggja bjó á Sleggjustöðum upp frá Helgavatni, hann elti á kaf Hallvarð austmann Þorsteins í fen fied [*sic*] þeim bræðrum ok banaði þeim báðum. Bergr enn rakki systurson Finnboga hins ramma frá Borg. Þorgrímr fékk dóttur Skíða af Skíðastöðum í Vatnsdal. Þar sló Jökull Berg með sverðs-

[1] Deildarhjalla segir Lndn [*am Rande.*]

hjöltum at brúðhlaupi, fyrir því skyldi Þorsteinn ganga undir jarðarmen III á Húnavatnsþingi ok vildi eigi. Þá skoraði Finnbogi á Þorstein til hólmgöngu en Bergr á Jökul. Faxa-Brandr bjó fyrir ofan Hóla, hann fór til hólms með þeim Þorsteini í Víðidalsey, þar reisti Jökull nið Finnboga. Gróa ok Þórey kvómu út. Gróa bjó á Gróustöðum hjá Hofi. Þóra bjó í Vestrhópi at Þóreyjargnúpi, þar gerði Gróa haustboð Þorsteini ok þeim bræðrum. Þorstein dreymdi þrysvar at hann skyldi eigi fara. Þá hleypti Gróa skriðu á þá menn alla, er þar vóru, af fjölkyngi. — Þá hét Þorsteinn á þann sem sólina skapaði at berserksgangr hyrfi af Þóri, at hann fæddi upp Þorkel kröflu Þorgrímsson frá Kárnsá, ok komst svá at goðorði. — Ingólfr orti um Valgerði Óttarsdóttur mansöngsdrápu, þá sótti Óttarr Ingólf ok ónýttist þat. Þá andaðist Þórir, en Óttarr réðst á braut. Guðbrandr bjó á Guðbrandsstöðum; Þó[rir]varð sekr um konu, hann var flugumaðr til Ingólfs at ráði Óttars, hann hljóp til Guðbrands en Guðbrandr vá hann. Þá vildu þeir gera til Óttars ok náðu eigi. Óttarr galt V hundruð silfrs, en Svartr kom út á Minþakseyri ór Suðreyjum brotnu skipi, hann var flugumaðr... Hestar vóru í dyngju [*sic*], Ingólfr varðist Guðbrandi[!] milli sels ok vetrarhúsa, þar lá ok Svartr eptir á Svartmýri. Þá galt Óttarr III C silfrs. Þá fékk Ingólfr Hildar Ólafsdóttur frá Haukagili. Ingólfr vá II menn í einu höggi af hellismönnum í seli í Miklagili ok vá III menn aðra. Þar féll förunautr hans en hann varð sárr mjök ok dó litlu síðarr. — Þorgils gjallandi bjó at Svínavatni, er út kom með Auðuni skökli, hans synir vóru þeir Digr-Ormr, er vógu Skarphéðin Vefreðarson á Vatnsskarði ok Þorkell. Glæðir var bróðurson hans en systurson Guðmundar hins ríka. Þorkell vá Þorkel frá Helgavatni á mannfundi at Kárnsá XI vetra gamall, síðan fór Þorkell utan ok var með Sigurði Hlöðvessyni. Þorkell Þorgilsson fékk Hildar dóttur Þórorms frá Þórormstungu, at því brúðhlaupi vá Þorkell Glæði; Hildr Hermundardóttir Eyvindarsonar fylgði[!] honum, hann falst í Kröfluhelli undir forsi Vatnsdalsá. Þórdís spákona réð ráð til at Þorkell skyldi ljósta sprota hennar í höfuð Guðmundi at dómi er Hegnöðr hét, ok mundi

hann þá ekki at mæla en tóku CC silfrs; þá tók Þorkell við Hofslandi ok goðorði, ok hafði meðan hann lifði, hann fékk Vigdísar dóttur Ólafs frá Haukagili. Í þann tíma kom út Friðrekr biskup með Þorvaldi Koðranssyni, ok var at Giljá með þeim Ormi Koðranssyni feðgum. Biskup var at haustboði at Ólafs ok vígði biskup þar elda. Þar vóru ok berserkir II ok hét Haukr hvárrtveggi, þeir váðu eldinn ok brunnu báðir, ok heitir þar síðan Haukagil. Þá tók Þorkell skírn ok allir Vatnsdælar; hannlét kirkju gera at Hofi, ok veitti þar gröpt öllum þingmönnum sínum. — Skeggjavaldr [*sic*] bjó at Eyju ok átti Hildi Hermundardóttur, þeirra dóttir var Kolfinna, er átti Gríss Semingsson. Hermundr vá Galta á leið fyrir níð Hallfreðar [önnur bókin segir Brandr bróðir Kolfinnu hafi vegið Galta Óttarsson á Húnavatnsþingi fyrir níð Hallfreðar] . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Fostólfr ok Þjóstólfr bjuggu í Engihlíð í Langadal, þeir tóku við sekum manni þeim er Þorgrímr hét, þann vágu þeir Húnröðr ok Þórólfr leikgoði á Kili. Eptir þat vógu þeir Fostólfr ok Þjóstólfr Ulfhéðin bróður Húnröðar hjá Grindalæk. Þeir bjuggu þá í Holti, en Finnr Joruson á Breiðabólstað í Vestrhópi frændi Fostólfs barg þeim, en Þorkell krafla kom þeim utan. Úlfhéðinn leyndi sári sínu, ok bað eigi til hefnda at leita, kvað engum auðit mundu verða. Síðan vágu þeir Fostólfr austr í Noregi Skúm leysingja Húnröðar vellauðgan at fé, en sendu allt féit út Húnröði, ok þá sættust þeir heilum sáttum.

## II. ZU FLÓAMANNASAGA

### AUS LANDNÁMABÓK VERGL. MIT HAUKSBÓK UND MELABÓK

I, 3—9. Björnólfr hét maðr en annarr Hróaldr, þeir vóru synir Hrómundar Gripssonar; þeir fóru af Þelamörk fyrir víga sakir, ok staðfestust í Dalsfirði á Fjölum. Sonr Björnólfs var Örn, faðir þeirra Inólfs ok Helgu, en Hróaldsson var Hróðmarr,

faðir Leifs. Þeir Ingólfr ok Leifr fóstbræðr fóru í hernað með sonum Atla jarls ens mjófa af Gaulum, þeim Hásteini ok Hersteini ok Hólmsteini. Með þeim fóru öll skipti vel; ok er þeir kvómu heim, mæltu þeir til samfara með sér annat sumar, en um vetrinn gerðu þeir fóstbræðr veizlu sonum jarlsins. At þeirri veizlu strengði Hólmsteinn heit, at hann skyldi eiga Helgu Arnardóttur, eðr öngva konu ella. Um þessa heitstrenging fanst mönnum fátt, en Leifr roðnaði á at sjá, ok varð fátt um með þeim Hólmsteini, er þeir skildu þar at boðinu.

4 Um várit eptir bjöggust þeir fóstbræðr at fara í hernað, ok ætluðu til móts við sonu Atla jarls. Þeir fundust við Hísargafl, ok lögðu þeir Hólmsteinn bræðr þegar til orrostu við þá Leif. En er þeir höfðu barizt um hríð, kom at þeim Ölmóðr enn gamli, son Hörða-Kára, frændi Leifs, ok veitti þeim Ingólfi. Í þeirri orrostu féll Hólmsteinn, en Hersteinn flýði. Þá fóru þeir Leifr í hernað. En um vetrinn eptir fór Hersteinn at þeim Leifi ok vildi drepa þá; en þeir féngu njósn af för hans, ok gerðu mót honum; varð þá enn orrosta mikil, ok féll þar Hersteinn. Eptir þat dreif [lið] at þeim fóstbræðrum, vinir þeirra ór Firðafylki. Vóru þá menn sendir á fund Atla jarls ok Hásteins at bjóða sættir, ok sættust þeir at því, at þeir Leifr guldu eignir sínar þeim feðgum. En þeir fóstbræðr bjöggu skip mikit, er þeir áttu, ok fóru at leita lands þess, er Hrafna-Flóki hafði fundit, ok þá var Ísland kallat. Þeir fundu landit, ok vóru í Austfjörðum í Álptafirði enum syðra. Þeim virðist landit betra suðr en norðr. Þeir vóru einn vetr á landinu ok fóru þá aptr til Noregs.

5 Eptir þat varði Ingólfr fé þeirra til Íslands ferðar, en Leifr fór í hernað í vestrvíking; hann herjaði á Írland, ok fann þar jarðhús mikit, þar gékk hann í, ok var myrkt, þar til er lýsti af sverði því, er maðr hélt á. Leifr drap þann mann, ok tók sverðit, ok mikit fé af honum. Síðan var hann kallaðr Hjör-Leifr. Hjörleifr herjaði víða um Írland, ok fékk þar mikit fé; þar tók hann þræla X, er svá hétu: Dufþakr ok Geirröðr, Skjaldbjörn, Halldórr ok Drafdittr. Eigi eru nefndir fleiri. En eptir þat fór Hjörleifr

til Noregs ok fann þar Ingólf fóstbróður sinn. Hann hafði áðr fengit Helgu Arnardóttur systur Ingólfs. Þenna vetr fékk Ingólfr at blóti miklu, ok leitaði sér heilla um forlög sín, en Hjörleifr vildi aldri blóta. Fréttin vísaði Ingólfi til Íslands. Eptir þat bjó sitt skip hvárr þeirra mága til Íslandsferðar; hafði Hjörleifr herfang sitt á skipi, en Ingólfr félagsfé þeirra, ok lögðu til hafs, er þeir vóru búnir.

6 Sumar þat, er þeir Ingólfr fóru at byggja Ísland, hafði Haraldr hárfagri verit XII ár konungr at Noregi. Þá var liðit frá upphafi þessa heims VI þúsundir vetra ok LXXIII vetr, en frá holdgan drottins DCCC ok LXXIIII ár. Þeir höfðu samflot þar til er þeir sá Ísland; þá skildi með þeim. Þá er Ingólfr sá Ísland, skaut hann fyrir borð öndugissúlum sínum til heilla; hann mælti svá fyrir, at hann skyldi þar byggja, er súlurnar kæmi á land. Ingólfr tók þar land, er nú heitir Ingólfshöfði, en Hjörleif rak vestr fyrir land, ok fékk hann vatnfátt. Þá tóku þrælarnir írsku þat ráð, at knoða saman mjöl ok smjör, ok kölluðu þatt úþorstlátt; þeir nefndu þat minnþak. En er þat var til búit kom regn mikit, ok tóku þeir þá vatn á tjöldum. En er minnþakin tók at mygla, köstuðu þeir því fyrir borð, ok rak þat á land þar sem nú heitir Minnþakseyrr. Hjörleifr tók land við Hjörleifshöfða, ok var þar þá fjörðr, ok horfði botninn inn at höfðanum. Hjörleifr lét þar gera skála tvá, ok er önnur tóptin XVIII faðma en önnur XIX. Hjörleifr sat þar um vetrinn. En um várit vildi hann sá. Hann átti einn uxa, ok lét hann þrælana draga arðrinn. En er þeir Hjörleifr vóru at skála, þá gerði Dufþakr þat ráð, at þeir skyldu drepa uxann, ok segja, at skógarbjörn hefði drepit, en síðan skyldu þeir ráða á þá Hjörleif, ef þeir leitaði bjarnarins. Eptir þat sögðu þeir Hjörleifi þetta. Ok er þeir fóru at leita bjarnarins, ok dreifðust í skóginn, þá sóttu þrælarnir at sérhverjum þeirra, ok myrðu þá alla, jafnmarga sér. Þeir hljópu á brott með konur þeirra ok lausafé, ok bátinn. Þrælarnir fóru í eyjar þær, er þeir sá í haf til útsuðrs, ok bjöggust þar fyrir um hríð. Vífill ok Karli hétu þrælar Ingólfs, þá sendi hann vestr með sjó, at leita öndvegis-

súlna sinna. En er þeir kvómu til Hjörleifshöfða, fundu þeir
Hjörleif dauðan; þá fóru þeir aptr, ok sögðu Ingólfi þau tíðindi;
hann lét illa yfir drápi þeirra Hjörleifs.

Eptir þat fór Ingólfr vestr til Hjörleifshöfða; ok er hann sá 7
Hjörleif dauðan, mælti hann: lítið lagðist hér fyrir góðan dreng,
er þrælar skyldu at bana verða, ok sé ek svá hverjum verða, ef
eigi vill blóta. Ingólfr lét búa gröft þeirra Hjörleifs, ok sjá fyrir
skipi þeirra ok fjárhlut. Ingólfr gékk þá upp á höfðann, ok sá
eyjar liggja í útsuðr til hafs; kom honum þat í hug, at þeir mundu
þangat hlaupit hafa, þvíat bátrinn var horfinn, fóru þeir at leita
þrælanna, ok fundu þá þar sem Þrælaeið heitir í eyjunum; vóru
þeir þá at mat, er þeir Ingólfr kvómu at þeim. Þeir vurðu felms-
fullir, ok hljóp sinn veg hverr. Ingólfr drap þá alla. Þar heitir
Dufþaksskor, er hann lézt. Fleiri hljópu þeir fyrir berg þar
sem við þá er kent síðan. Vestmannaeyjar heita þar síðan, er
þrælarnir vóru drepnir þvíat þeir vóru Vestmenn. Þeir Ingólfr
höfðu með sér konur þeirra, er myrðir höfðu verit; fóru þeir þá
aptr til Hjörleifshöfða; var Ingólfr þar vetr annan; en um sumarit
eptir fór hann vestr með sjó. Hann var enn þriðja vetr undir
Ingólfsfelli fyrir vestan Ölfusá[1] þau missari fundu þeir Vífill ok
Karli öndvegissúlur hans við Arnarhval fyrir neðan heiði.

Ingólfr fór um várit ofan um heiði; hann tók sér bústað þar 8
sem öndvegissúlur hans höfðu á land komit; hann bjó í Reykj-
arvík; þar eru enn öndvegissúlur þær í eldhúsi. En Ingólfr nam
land milli Ölfusár ok Hvalfjarðar fyrir utan Brynjudalsá, milli ok
Öxarár, ok öll nes út. Þá mælti Karli: til ills fóru vér um góð
heruð, er vér skulum byggja útnes þetta. Hann hvarf á brutt, ok
ambátt með honum. Vífli gaf Ingólfr frelsi, ok bygði hann at
Vífilstóptum; við hann er kent Vífilsfell; þar bjó [hann] lengi, ok
varð skilríkr maðr. Ingólfr lét gera skála á Skálafelli; þaðan sá
hann reyki við Ölfusvatn ok fann þar Karla.

Ingólfr var frægastr allra landnámsmanna, þvíat hann kom 9
hér at óbygðu landi, ok bygði fyrstr landit; gerðu þat aðrir lands-

[1] Þar sem sumir segja hann sé heygðr *fügt zu* Melabók [Hauksbók].

menn eptir hans dæmum. Ingólfr átti Hallveigu Fróðadóttur, systur Lopts ens gamla. Þeirra son var Þorsteinn, er þing lét setja á Kjalarnesi, áðr alþingi var sett. Son Þorsteins var Þorkell máni lögsögumaðr, er einn heiðinna manna hefir bezt verit siðaðr at því er menn vitu dæmi til. Hann lét sik bera í sólargeisla í banasótt sinni, ok fal sik á hendi þeim guði, er sólina hafði skapat; hafði hann ok lifat svá hreinliga, sem þeir kristnir menn, er bezt eru siðaðir. Son hans var Þormóðr, er þá var alsherjargoði, er kristni kom á Ísland. Hans son var Hamall, faðir Más ok Þormóðar ok Torfa.

V, 4. Baugr hét maðr, fóstbróðir Hængs, hann fór til Íslands, ok var enn fyrsta vetr á Baugsstöðum en annan með Hængi, hann nam Fljótshlíð alla at ráði Hængs ofan um Breiðabólstað til móts við Hæng ok bjó at Hlíðarenda; hans son var Gunnarr í Gunnarsholti, ok Eyvindr at Eyvindarmúla; þriði Steinn enn snjalli ok [Hildr dóttir], er átti Örn í Vælugerði. Þeir Steinn enn snjalli ok Sigmundr, son Sighvats rauða, áttu för utan af Eyrum, ok kvómu til Sandhólaferju allir senn, Sigmundr ok förunautar Steins, ok vildu hvárir fyrr fara yfir ána. Þeir Sigmundr stökuðu húskörlum Steins, ok ráku þá frá skipinu. Þá kom Steinn at, ok hjó þegar Sigmund banahögg. Um víg þetta urðu Baugssynir allir sekir ór Hlíðinni, fór Gunnarr í Gunnarsholt, en Eyvindr undir Fjöll austr í Eyvindarhóla, en Snjall-Steinn í Snjallsteinshöfða. Þat líkaði illa dóttur Sigmundar, er föðurbani hennar fór út þannig, ok eggjaði Önund, bónda sinn, at hefna Sigmundar. Önundr fór með XXX manna í Snjallshöfða, ok bar þar eld at húsum. Snjall-Steinn gékk út ok gafst upp. Þeir leiddu hann í höfðann, ok vágu hann þar. Eptir víg þat mælti Gunnarr; hann átti þá Hrafnhildi Stórólfsdóttur systur Orms ens sterka. Hámundr var son þeirra. Þeir vóru báðir afreksmenn at afli ok vænleik. Önundr varð sekr um víg Snjall-Steins; hann sat með fjölmenni tvá vetr. Örn í Vælugerði mágr Gunnars hélt njósnum til Önundar. Eptir jól enn þriðja vetr fór Gunnarr með XXX manna at Önundi at tilvísan Arnar. Önundr fór frá leik með XII. mann til



